# SKÝRSLA

UM

# HANDRITASAFN

HINS

# ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS.

II.

GEFIN ÚT

AÐ TILHLUTUN FJELAGSINS.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ BIANCO LUNO.

# SKÝRSLA

UM

# HANDRITASAFN

HINS

ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS

II

EPTIR

SIGURÐ L. JÓNASSON OG FINN JÓNSSON.

GEFIN ÚT

AÐ TILHLUTUN FJELAGSINS.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ BIANCO LUNO.

1885.

Fyrir þessu öðru hefti af «Handritaskýrslu hins íslenzka bókmentafélags» þarf eigi langan formála að rita.

Handritasafn fjelagsins hefur, eins og sjá má, aukizt síðan 1869, að 1. heftið var prentað, hjer um bil um helming og vel það. Kemur það ekki til af því, að fleiri hafi orðið til þess að senda fjelaginu handrit ókeypis eða fyrir lítið verð (því hvernig verða handrit metin?) í þessi ár, heldur fremur af hinu, að nokkrir menn hafa tekið fjelagið ástfóstri og sent því allt, sem þeir hafa í náð. Má þar til fyrst og fremst nefna þá Jón Borgfirðing, lögreglumann í Reykjavík, — frá honum eru komin nær 300 Nr. alls, — og Sigmund Mattíasson, sem hefur sent um 60, og ef til vill fleiri. Reyndar eru það afarmörg handrit, sem jeg hefi ekki getað um sagt frá hverjum sjeu, því að þess hefir ekki ætíð verið gætt, að skrifa það á þau, jafn skjótt sem þau hafa komið, og verð jeg því að biðja þá menn, er hafa sent handrit, án þess að nafna þeirra sje við getið, að kunna mig ekki um það.

Annars er ekki mikið um þessa skýrslu að segja. Hún er í einu sem öðru nákvæmlega sniðin eptir fyrra heftinu; hefir því sömu kosti sem löstu. — Herra Sigurður L. Jónasson, höfundur fyrra heftisins hefir samið skýrslu yfir I 60-63, II 250-292, III 365-456, og jeg hitt; jeg hefi og samið öll registur og lesið prófarkir. Viðbætirinn, handrit fjelagsins hjá deildinni á Íslandi, er hjer að öllu leyti prentaður eptir eptirriti «af handritaskrá deildarinnar, er Páll sál. stúdent Pálsson hefur samið mestalla, en nokkuð Dr. Jón Þorkelsson og Jón Borgfirðingur».

Að því er snertir «efnisyfirlitið», vil jeg geta þess, að slíkt yfirlit getur ekki á nokkurn hátt verið fullkomlega nákvæmt; þá þyrfti að tína upp allt, hvert erindi, hvern sálm o. s. frv., og geta um efni þess, en slíkt getur ekki verið um að tala hjer. Fyrir því verða þeir, sem vilja leita uppi ljóðmæli eða sálma, sögulegar ritgjörðir, tilskipanir og lög, og því-um-líkt, í vísindalegum tilgangi, að fletta bókinni blað fyrir blað. Höfundatalið er heldur ekki fullkomið. Í fyrsta lagi geta verið og eru mörg kvæði, ritgjörðir o. s. frv., sem engir höfundar standa við, þótt kunnir sje; í öðru lagi eru opt og einatt höfundanöfn skammstöfuð, t. a. m. «G. I.», «I. I.» og þvílíkt; og er jeg ekki svo ritfróður nje getspakur, að jeg hafi alstaðar getað eða viljað ráða úr svo vöndu. Jeg hefi því heldur látið slíkt alveg hjá líða, heldur en ef til vill að geta opt rangt. — Vera kann og, að jeg hafi stöku sinnum blandað tveimur nöfnum saman, og eignað ranglega einum, það sem eptir annan var, en jeg vona, að slíkt sje næsta óvíða, og þar sem það er, bið jeg góða menn að afsaka og «meta viðleitni mína, en várkynna ókænsku», eins og þar stendur. — Til hægðarauka fyrir menn hefi jeg auðkennt þau rit, kvæði, höfunda, svo og menn þá, er fjelagið hefir fengið bækur frá, sem í fyrra heftinu standa, með stjörnu (*).

Að lyktum verð jeg að biðja menn að afsaka, að rjettritun er dálítið öðruvís á þeim köflum, sem jeg hefi samið, en hinum, enda er það ekki stórlýti eða neitt villandi.

Kaupmannahöfn þ. 9. majmán. 1885.

Finnur Jónsson.

## Menn, sem Deildin í Höfn hefir fengið handrit frá, eru þessir:

Arndís Fischer, frú, II 283.
*Ásgeir Einarsson, alþingismaður á Þingeyrum, II 358.
*Baldvin M. Stephánsson, prentari, I 62. II 260-1.
*Björn Björnsson, bóndi á Breiðabólstöðum, III 420-2.
Björn M. Ólsen, dr. phil., kennari, II 385.
Brynjólfur Oddsson, bókbindari í Reykjavík, III 470. 513. 519.
Daði Eggertsson á Skarði, III 454-6.
Friðbjörn Steinsson, bókbindari á Akureyri, III 402. 531.
Geir Vigfússon, tómthúsmaður á Akureyri, II 383.
Guðlaugur Guðmundsson, cand. jur., III 572.
Guðmundur Þorláksson, cand. mag., II 384.
Halldór Jónsson, prófastur á Hofi, II 312.
Hannes Stephensen, prestur, II 279-80. III 440-2.
Hólmfríður Þorvaldsdóttir, frú, II 343-4. III 457. 481-3. 486-8. 491. 507-8. 522.
Indriði Einarsson, landsreikningakönnuður, III 548.
Jóhanna Bjarnasen, frú, III 493.
*Jón Borgfirðingur, lögregluþjónn í Reykjavík, I 75. II 278. 284-90. 293. 295. 298. 300. 302-3. 322. 324. 328-30. 332-33. 342. 354-5. 365. 376. 387. III 365-74. 434-5. 450. 452. 458-60. 462. 465. 477-8. 485. 489-90. 492. 497. 499. 502. 504-5. 510-12. 516-18. 520. 524. 529-30. 532. 534-5. 538. 543-5. 547. 555-9. 565-7. 569. 576. 578-80. 582. 586-7. 590. 593-4.

---

## Nafnaskrá þeirra manna, er félagsdeildin í Reykjavík hefir fengið handrit frá.

(Nöfn þeirra manna, er skýrt er frá að hafi gefið félaginu handrit, og töl hinna gefnu handrita eru prentuð með skáletri.)

I.

# Handrit í arkarbroti.

---

## № 60.

Dagbók yfir grunnlínu mælingar þeirra Frisaks og Scheels við Eyjafjarðarbotn, árin 1809-1810. Handrit þetta er eiginhandarrit major Scheels, á dönsku, og er titill þess: «*Dagbog over Basismaalingen i Bunden af Öfjorden i Island, udført i Aarene 1809—1810 af de geographiske Landmaalere Frisak og Scheel*». Neðst á titilblaðinu stendur: «*Indsendt (som et Appendix til Beskrivelsen over Basismaalingerne i Island af 5. Februari 1833) til det Høykongelige Rentekammer, den 24. Juni 1835*». Mælingar þær, sem hèr er vitnað til, eru í lausu hepti sèrstöku með handriti þessu; þar eru og þrjú brèf um sama efni frá major Scheel til Rentukammersins, dagsett 5. Februar og 24. Juni 1833, og 24. Juni 1835.

## № 61.

Safn af tilskipunum, konungsbrèfum m. fl., með hendi Sveins Sölvasonar, sumt á íslenzku, en mest á dönsku. Safni þessu er skipt eptir konungum, og er nýtt titilblað og nýtt blaðsíðutal við hver konunga skipti. Hið elzta í safni þessu er: Rèttarbót Christians I. kölluð hin langa, 26. November 1450, á íslenzku; og hið yngsta: «Plakat (á dönsku) um reka rèttindi á Íslandi, 4. Mai 1778.

Aptan við safn þetta er brèfabók Sveins Sölvasonar yfir:

1. Lögþings-rèttar stefnur frá 25. Juli 1743 til 22. Mai 1756, þar eptir «Memorial om Skattene» 1773 (á dönsku).

2. Lögþings dóma Sveins Sölvasonar frá 23. Juli 1742 til c. 1756 (seinustu dómarnir ódagsettir).

## № 62.

Sögubók, skrifuð um 1770. þar á:

1. Knytlinga saga, bls. 1-135.

2. Æfi Noregs konunga, eða saga af Magnúsi konungi góða og hans eptirkomurum, endar á Magnúsi Erlingssyni (á bls. 424 stendur, að saga þessi sè rituð af Eireki Oddssyni), bls. 136-474.

3. þáttur af Hemingi Áslákssyni, bls. 474—488.

4. Af Hálfi og Hálfsrekkum, bls. 491-496.

5. Af Eireki hinum rauða, 18 kapitt., bls. 497-516.

6. Saga Laurentiusar Hólabiskups, 58 kapitt., bls. 516-566.

7. Jóns Egilssonar biskupa-annáll (Hungrvaka), með viðbæti (Gísli-Oddr-Gísli-Brynjólfr), bls. 567-644.

8. Æfisögu flokkur sira Einars Sigurðssonar í Heydölum, gjörður 1616, með drápulag («Upp skal byrjast Einars drápa» o. s. frv.), bls. 644-653 (sbr. Hsk. 1869, bls. 176 og 223).

9. Barnatölu flokkur sira Einars, bls. 653-657 (sbr. Hsk. 1869, bls. 149, 176 og 223).

Bók þessa hefur Daði Níelsson (fróði) átt 1851.

## № 63.

Tíundar-statúta Gizurar biskups með formála, danskri útleggingu og latínsku glossario, allt eptir Jón sýslumann Jakobsson á Espihóli og með hans eigin hendi, 1774.

Með Gizurar statútu þessari er afskrift af Bergþórs statútu, á einu blaði, með annari hendi, dagsett 1117.

## № 64.

Sýslumanna tal, amtmanna, yfirrèttardómara og annara lögfræðinga, presta o. s. frv. I-VI eptir Sigurð Hansen skrifara.

№ 65.

Embættismannatal og stúdenta (endað 1879), eptir Sigurð Hansen.

№ 66.

Registur yfir viðurnefni íslenzk, eptir Sigurð Hansen.

№ 67.

Samtíningur af íslenzkum sagnorðum (í flokkum) og ýmsu öðru, með hendi Sigurðar Hansens.

№ 68.

Biskupsskrár yfir gipta fædda og dána o. s. frv. um árin 1773, 1777, 1781-99, 1799-1802, 1806—7, 1810-11, 1813-30, 1832-47, 1849-51, 1857, 1859-62, 1864-8, 1872-8 (sbr. Hsk. 1869, bls. 7.)

№ 69.

1. Biskupsskrár yfir fermda á Íslandi 1811-23, 1826, 1830.

2. Prestaskrár yfir gipta fædda og dána árið 1856. (sbr. Hsk. 1869, bls. 7).

№ 70.

Safn mikið af brèfum til Byrgis Thorlacíus fra Skúla föður hans, Riisbrigh og mörgum öðrum, ásamt ýmsum skjölum, er hann snerta.

№ 71.

Sóknalýsing frá Landeyja prestakalli 1872-3. — Frá Sauðaness sókn á Langanesi 1875. — Bjarnanesi og Hóffellssóknum, Setbergi, Selárdal og Stórulaugardalssóknum, Auðkúlu, Hjaltabakka, Höskuldsstöðum, Kolfreyjustað, Stöð í Stöðvarfirði, Valþjófsstað, Svalbarði, Borgarþingum, Vestmannaeyjum, Heydölum, Hofteigi, Brúar- og Möðrudalssóknum. — Um ýmsar jarðir í Útskálasveit (eptir síra Sigurð Sívertsen). Máldagi fyrir Rauðalæk (sjá Prestatal og prófasta II, 5, bls. 28), nýleg afskrift eptir mjög gömlu bókfellsblaði auðsjáanlega. (sbr. Hsk. 1869, bls. 4-5.)

## № 72.

Safn af ýmsum ritgjörðum o. fl., flest eptir Magnús prest Grímsson á Mosfelli. I. Brot af leikritum þýddum og frumsömdum. II. Fyrirlestrar Björns Gunnlaugssonar yfir stærðafræði. Stærðfræðislegar myndir og aðrir uppdrættir. Athugasemdir við Eðlisfræði eptir Björn Gunnlaugsson (eiginhr.) o. fl. III. Ýms skjöl, er snerta Magnús sjálfan, svo sem skólavottorð, vígslubrjef og þess háttar. IV. Lýsing á Reykjaness skaga. V. Frásögur, dæmisögur (þýddar) o. fl. VI. Safn af samhljóða orðstofnum (undirbúningur undir stafrófskver?).

## № 73.

Safn af veðurbókum

frá Barði í Fljótum (J. Jónssyni) 1847.
- Eyjardalsá (H. Björnssyni) 1847-8.
- Fiskilæk 1870-80.
- Gaulverjabæ (Páli Ingimundarsyni) 1868-1878.
- Glaumbæ (H. Jónssyni) 1847-8.
- Heiði 1847.
- Hítardal (þorsteini Hjálmarsen) 1847-8.
- Hvammi (þorleifi Jónssyni) 1869-78.
- Melum (Jakobi Finnbogasyni) 1847.
- Mælifelli 1877.
- Ofanleiti (Jóni Austmanni) 1847-8. (Brynjólfi Jónssyni) 1869-80.
- Prestsbakka 1859-62, 1867-71.
- Rafnseyri 1847.
- Reykholti 1867, 1869, 1871.
- Flögu í þistilfirði 1872.
- Kúðá í þistilfirði 1875.
- Seyðisfirði 1872-76.
- Stað í Grindavík 1847-8.
- Stykkishólmi 1867-73.
- Sörlastöðum 1872-7.

fra Vallanesi 1847.
- Valþjófsstað 1847, 1869-75.

Innaní liggur og eiginhandarbrèf Jónasar Hallgrímssonar (9/4 1840) til fèlagsins, er hann ber upp fyrir því tillögu sína um, að það gangist fyrir því að safna veðurbókum. (sbr. Hsk. 1869, bls. 15-17.)

**№ 74.**

Óbundin bók, þar á er: Uppteiknan og inntak allra þeirra íslenzkra kálfskinnsbrèfa, sem til voru eptir Ass. Árna Magnússon 1734. Skrifuð af Jóni Ólafssyni. Þessi bók er komin í hendur Jóns sýslumanns Jakobssonar frá maddömu Sigríði Jónsdóttur, ekkju Jóns sýslumanns Benediktssonar 1778, og eptir hann fèkk hana sonur hans Jón Espólín 1808. 187 blöð.

**№ 75.**

Nokkur blöð, er á eru: Nokkur velmeint ráð fyri þá, sem nokkuð vilja leitast við að svíja og hjálpa þeim sem af bólusóttinni, er nú yfir gengur, kunna undirlagðir verða. — «Actum Bessastöðum d. 14. octobr. 1762 Bjarni Pálsson». Mun vera eiginhandarrit (?).

**№ 76.**

Óheft blöð. Þar á eru: Nokkrar athugagreinir við versaskipti textans á ýmsum stöðum í opinberunarbókinni 1862. Með hendi Sigurðar Lynge á Akranesi, og sjálfsagt eptir hann. 71. bls. með formála.

**№ 77.**

Bók í glósna broti bundin í trèspjöld með skinnkápu. Þar á er:

Nomenclator omnium rerum propria nomina continens, auctore Hadriano Junio Medico (útg. í Antwerpen 1577) þ. e. Orðabók latínsk-íslenzk, flokkuð eptir orðskyldleika. 340 bls., en vantar fáein blöð. Aptan við eru 6 blöð með latínskum og íslenzkum málsháttum, sem svara hvorir til annars. Rituð með greinilegri hendi.

---

# II.

# Handrit í fjögra blaða broti.

---

## № 250.

Sögubók, innbundin, skrifuð 1834-1838, af Gunnlaugi Jónssyni, á Skuggabjörgum. þar er á:

1. þáttur af Sneglu-Halla, bls. 1-14.

2. Um Möðrudals prestinn, bls. 14-15.

3. Um Sigurð bónda á Hóli á Fjöllum (er átti Ljúflings konu), bls. 16.

4. Um þórisdal 1664, eptir Ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar I, bls. 87, bls. 27-29.

5. Um fund þórisdals 1833, eptir skýrslu Bjarnar Gunnlaugssonar yfirkennara, bls. 29-32.

6. Flóamanna saga, 34 kapitt., bls. 33-80.

7. þáttur af Hrafni Sighvatssyni, Hrútfirðing, bls. 81-92.

8. þáttur af þorgrími Hallasyni, bls. 93-96.

9. þáttur af þorsteini forvitna, bls. 96-98.

10. þáttur af Hreiðari heimska, bls. 98-108.

11. Saga af Hafliða bónda í Grindavík (frá 1404), bls. 109-114.

12. Saga af prófasti einum og dætrum hans, bls. 115-118.

13. Fátt eitt um gamla siði á Íslandi, bls. 118-119. (bls. 120 auð.)

14. Saga af Hellismönnum, 25 kapitt., bls. 121-165. (bls. 166-168 auð.)

15. þáttur af þorsteini þórarinssyni stangarhögg, bls. 169-176.

16. þáttur af Hrappi Aurgrímssyni (Slysa-Hrappi), 5 kapitt., bls. 177-188 (þáttur þessi er öðruvísi en í Njálu).

17. Sagan af Ljúflinga-Árna, bls. 188-200.

18. Um Höfðabrekku-Jóku, bls. 200.

Á fremra saurblaðinu er kafli úr brèfi frá sira Stepháni á Völlum, sem hann hefur sent með athugasemdir sínar um «Aldafarsbókina», er hann svo kallar; og á aptara saurblaðinu er frèttabrèf, skrifað í Hafnarfirði 1844 af J. Gíslasyni.

## № 251.

Sögu og rímnabók, innbundin. þar er á:

1. Saga af Starkaði gamla, 28 kapitt., 7-84 bls. (í 25. kapit., bls. 69, er uppdráttur af svínfylking Hrings kongs).

2. Ágrip af æfisögu Snorra Sturlusonar, skrifað 1806, bls. 85-88.

3. Vatnsdæla saga, skrifuð 1806, 43 kapitt., bls. 89-182.

4. Nokkrar vísur (1 blaðsíða).

5. Saga af Skanderberg (fursta í Epirus), án kapitulaskipta, bls. 184-211; þar eptir vísa um Skanderberg («Æðling æfi langa» o. s. frv.), skrifað 1806.

6. Rímur af Arnljóti Upplendinga kappa («Bylur Fenju etur enn» o. s. frv.). 11 að tölu, bls. 212-253.

7. Sagan af Friðþjófi hinum frækna, 8 kapitt., bls. 254-278; þar eptir nokkrar línur, skrifaðar upp úr sögu Ívars víðfaðma og Áns bogsveigis.

8. Rímur af Haraldi hilditönn, eður Brávalla rímur («Tvíblinds hallar turna frí» o. s. frv.), eptir Árna Böðvarsson, 10 að tölu, með athugasemdum, skrifað 1807.

№ 252.

Rímur af Flóres og Leó («Diktuðu sögur og sónar vers» o. s. frv.), 24 að tölu; níu fyrstu rímurnar eru eptir Bjarna Jónsson Borgfirðinga skáld, en fimmtán seinustu eptir sira Hallgrím Pètursson. Rímur þessar eru skrifaðar af Fagraskógarbræðrum svokölluðum, en tvö fyrstu blöðin og tvö blöð á öðrum stað eru seinna skrifuð, og af öðrum.

№ 253.

Collegium pastorale, eptir Dr. N. E. Balle, á dönsku, 235 blss.

№ 254.

Rímur af Bæringi fagra («þulins vildi eg þóttu gamm» o. s. frv.), 14 að tölu, kveðnar af Árna Sigurðarsyni á Skútum í Eyjafirði 1835; eiginhandarrit höfundarins.

№ 255.

Kver, innbundið. þar er á:

1. Tíðavísur fyrir árin 1773-1790 (vantan aptan af 1788 og árið 1789), kveðnar af sira Sígfúsi Jónssyni í Höfða, og með hans eigin hendi.

2. Brot úr visitaziu sira Geirs Markússonar, að eins 3 blss.

3. Spurningabók, andleg, í 34 kapitulum; með formála Galli í Erfurt 7/10 1584 og brèfi Selnecceri 7/9 1591; spurningabók þessi er skrifuð um 1600.

№ 256.

Bók, innbundin, með góðri fljótaskript, og fyrirsögnum með hálfsettri hönd. þar er á:

Æfir Hóla biskupa (sira Jóns Halldórssonar í Hítardal?) frá Jóni helga Ögmundssyni til Jóns Arasonar, eða með öðrum orðum frá stofnun Hólaskóla til siðaskiptanna.

Bók þessi hefur, áður en hún kom í eigu þorsteins á Upsum, verið í eigu þeirra Urðamanna: Jóns Sigurðs-

sonar, Jóns Sveinssonar tengdasonar hans, og Halldórs Þorkelssonar.

## № 257.

Dagbækur sira Stepháns Þorsteinssonar á Völlum um árin 1808 til 1820 (vantar af seinasta árinu: aptan af November og allan Desember), mest um veðráttufar og önnur almælt tíðindi. Með fyrsta árinu er prentað almanak fyrir 1808, útreiknað eptir afstöðu Þrándheims, með skjaldarmerki bæjarins, og með dagbókinni fyrir 1809 fylgir almanak skrifað eptir fingrarími. Frá 1810 til 1816 fylgja engin almanök, en frá 1817 til 1820 eru þau skrifuð mánuð fyrir mánuð innan um dagbækurnar.

Þar með fylgja tvö laus hepti með skýrslum um embættisfærslu sira Stepháns frá 1805 til 1809, þegar hann var prestur á Skeggjastöðum, með ræðutextum hans fyrir þau ár, og nokkur laus blöð með ýmsum samtíningi, allt með hendi síra Stepháns.

## № 258.

Dagbækur sira Stepháns Þorsteinssonar, áframhald af Nr. 257, nær til 1830. Byrjar hèr á 1816, og er mest um embættisfærslu hans á Völlum, um veðráttufar o. s. frv. Þar með nokkur laus hepti og sundurlaus smáblöð, með ýmislegu á, svo sem: ræðum og innihaldi úr ræðum síra Stepháns o. s. frv.; fjögur blöð á latínu, virðist vera útlagt eptir Nýjatestamentinu, með annari hendi; tvö blöð úr kirkjubók Skeggjastaða.

Loksins er hèr ritdómur sira Stepháns um hin Evangelisku kristilegu smárit, er hann hefur sent síra Jóni í Möðrufelli með brèfi (það brèf er ekki hèr); og þar með brèf frá sira Jóni til sira Stepháns, sem svar upp á athugasemdir hans, dags. 2. Juli 1818, 4 blöð (frumrit); nokkrar athugasemdir sira Stepháns um breytingar á Rítúalnum og Litaniunni; grafskript yfir Jón Sigurðsson († 1821); bæn («Jesú pína, Jesú blóð og dauði»), brèf frá Jóni sýslumanni Jacobssyni á Espihóli, 31. Mai 1796, til Jóns

Sigurðssonar (á Urðum?), um að halda manntalsþing fyrir sýslumann í Ólafsfirði og Siglufirði.

### № 259.

Bók, innbundin með spennum, skrifuð á Mel í Miðfirði 1742 af sira þorsteini Pèturssyni, er síðar var prestur að Staðarbakka. Titill bókar þessarar er:

«Exempla priscorum, það er Dæmisögu bók þeirra «gömlu spekinga af slekte heimsins. þar iñe allra maña «athæfe, eðle, ótrú, undirhyggja, kindugleiki öfund og «hatur útmyndað og auðsýnt verður, sem mörgum einum «kemur að grande, bæðe heimuglega og opinberlega, á «konunglegum stórherra hofum, millum ráðgjafa, rèttara «og ríkisstjórnara, teingdra og óteingdra, með vina fölsku «smjaðri og forræðe, þeirra illgjörnu, móti þeim trúuðu «og frómu, hvað allt er hèr sem í skærri skuggsjá öllum «fyrir sjónir sett, ekki eins kostar skemmtilegt, heldur «gagnsamt og ávaxtarsamlegt að lesa og heyra fyrir alla «þá, sem eptir vilja taka, og nokkurn fróðleik nema «kunna. Samantekin, eptir sem meinast, af þeim Ind-«versku gymnosophistis».

Á aptanverðu titilblaðinu eru: Nokkrar greinir þeirra gömlu spekinga um siðgæði og hæverska hegðun manna; svo kemur formáli íslenzka þýðarans (bls. 2-10), og segir þar, að bók þessi «fyrst sè samin á indiönsku máli, og þar næst í letur þeirra Persisku umsnúin, þar eptir hafi Arabar fært hana á sína tungu, líka so sè hún framar meir til þeirra Hebresku komin, síðar í latínu, so í þýzku, og nú allra síðast í vort íslenzka tungumál útlögð» o. s. frv.

Síðan er um tildrög og tilefni bókarinnar (bls. 10-12); svo yfirlit yfir innihald hennar eptir kapitulum (bls. 12-13); þá dæmisögurnar sjálfar í 16 kapitulum, með fyrirsögnum innan um kapitulana, sem afskrifarinn hefur breytt í hendingar, til þess lèttara að festa þær í minni; seinast er eptirmáli til lesarans eptir afskrifarann.

Handrit þetta er sjaldgæft og allmerkilegt; það hefur á Íslandi verið kallað «Dimna», eptir dýri, er svo heitir, og opt kemur fyrir í dæmisögunum, og er við hirð Ljónsins, dýrakongsins; Dimna kemur fram í dæmisögum þessum sem talsmaður fyrir fláræði og undirhyggju, en við hirðina á hann bróður, sem kallast «Kelila», sem er talsmaður fyrir ráðvendni og hreinskilni; og eru jafnaðarlega samtöl bræðra þessara í dæmisögunum.

Síðustu fjögur blöðin af handriti þessu eru skrifuð með annari og yngri hendi, sem virðist vera hönd sira Björns Hjálmarssonar í Tröllatungu.

Blaðsíðutal handritsins er seinna skrifað með blýanti og nær ekki lengra en til 15. bls.

## № 260.

Rímur af Alexander og Loðvík («þundar eðli árgalans» o. s. frv.), 8 að tölu, ortar af Árna Böðvarssyni 1763, og með hans hendi, sbr. II, 168,2. Rímur þessar hefur Daði fróði átt.

## № 261.

Brennu-Njáls saga, skrifuð 1740, með hálfsettri hendi, og talsvert bundin, 150 kapitt.

Aptan við söguna eru nokkrar vísur um Njáls sögu, eptir J. J. S.

1. Sextánmælt («Njáll bar vel hugvitur hollur» o. s. frv.).
2. Langloka («Væn Unnur raun varð að reyna» o. s. frv.).
3. Kimla bönd («Njáll óveill var nýtum spjótaþollum» o. s. frv.).
4. Tröllaslagur («Njótur spjóta Njáll hèt» o. s. frv.); seinast eru tvær vísur eptir afskrifarann.

Fimm fyrstu og tvö síðustu blöðin eru skrifuð með nýjari hendi.

## № 262.

Kirkjubók Múla kirkju á Skálmanesi. Þar í visitaziur ogeir kningar kirkjunnar frá 1750 til 1809.

## № 263.

Sálmasafn, skrifað um ofanverða 17. öld. Þar er á:

1. Davíðs sálmar, útlagðir í ljóðum af sira Jóni Þorsteinssyni (píslarvott) í Vestmannaeyjum (vantar aptan af); hèr eru 105 sálmar heilir og mest af 106. sálmi.

2. Vikusálmar kvöld og morgna; vantar í (sunnudags og mánudags sálmana, aptan af miðvikudags morgunsálminum og allan kvöldsálminn, og framan af fimmtudags morgunsálminum).

3. Aðrir vikusálmar, ortir af Sigurði Ásgeirssyni.

4. Kvöldsálmar, fjórir (vantar mest af öðrum og framan af þriðja sálminum); fyrsti sálmurinn er útlagður úr þýzku og hinn síðasti úr dönsku af M. J. S.

5. Íslands árgali («Allsvaldandi engla og manna» o. s. frv.), ortur af sira Ólafi Einarssyni, prófasti í Kirkjubæ, föður sira Stefáns Ólafssonar, sbr. II, 105,16.

6. Nýjárs sálmur (afa míns (skrifarans) sál). («Hálfseitjánda hundrað ár» o. s. frv.), kveðinn 1656.

7. Genesis sálmar sira Jóns Þorsteinssonar í Vestmannaeyjum («Guð í upphafi gjörði» o. s. frv.), 50 að tölu; með formála Thor. Skul. s. (Þorláks Skúlasonar biskups?)

8. Ein söngvísa («Skyldan býður vèr þökkum þèr» o. s. frv.), ort af Kolbeini Grímssyni.

9. Ýmsir andlegir sálmar, skrifaðir eptir ýmsum bókum; þar á meðal: Fimm sálmar yfir fimm parta catechismi (Boðorðin; trúarjátninguna; drottinlega bæn; skírnina; altaris sakramentið), eptir síra Jón Einarsson.

## № 264.

Sögubók, innbundin, skrifuð á 17. öld með góðri fljótaskriptar hendi talsvert bundinni. Titilblaðið er dregið með litum, og aptan á því eru stafirnir G. H. D. Þar er á:

Saga Ólafs konungs helga, í 26 þáttum og 234 kapitt. með þætti af Óláfi Geirstaða Álfi framan við, og registri yfir þættina aptan við. Á undan sögunni sjálfri er sèr-

stakt titilblað, með mynd Ólafs helga aptan á allt dregið með litum. Bók þessi hefur verið með blaðsíðu tali, en það er næstum alstaðar skorið burt við innbindinguna, að öðru leyti er handrit þetta vel um vandað. Það hefur (1819) verið eign B.? Hjálmarssonar; og síðar (1827-28) Jóns Salomonsens í Reykjarfirði og konu hans.

## № 265.

«Quatuor evangelia», eður fyrirlestrar á latínu yfir hin fjögur guðspjöll, skrifaðir 1828-29 eptir Dr. theol. og prófessor H. N. Clausen, af J. Thorarensson (Jóni Þórarinssyni í Skriðuklaustri). Fyrirlestrar þessir hafa verið í fjórum köflum; en nú vantar aptan af hinum síðasta, og á stöku stöðum eru einstök blöð rifin eða klippt upp úr. Bók þessa hefur átt um 1864-66 Jón nokkur Björnsson, vinnumaður (húsbóndi hans hefur heitið Hálfdán); með hans hendi er ýmislegt skrifað á spáziurnar um fjáreign hans, kaupstaðar innlegg, skuldir o. fl.

## № 266.

Ritgjörð, á latínu, eptir sira Eyjólf Jónsson á Völlum († 1748) um orðið «bóndi», með fyrirsögn: «Clarissimi atque doctissimi domini Eyulfi Jonæi (jam beati) pastoris ecclesiæ Vallensis in Islandia Boreali, Schediasma de voce **Bóndi** et ejus significationibus». Ritgjörð þessi er í 14 greinum og 33 á bls.; á 34. blaðsíðunni telur afskrifarinn upp rit sira Eyjólfs.

## № 267.

Ræður haldnar við biflíufèlagsfundi í Danmörku, og útlagðar á Íslenzku, með formála þýðarans.

1. Ræður, haldnar 1817 og 1819 af Dr. theol. próf. Jens Möller.

2. Ræða, haldin 1818 af Dr. theol. Münster (biskupi).

## № 268.

Bók, sem hefur verið bundin, en nú laus upp úr bandi, annars heil og góð afskript, 208 bls. Þar er á:

Úr fornyrðum Páls Vídalíns (1, Jálkur, bls. 1-7; 2, Óknytti bls. 7-14; 3, Heimanfylgja kvenna, bls. 15-23; 4, Gagngjald, bls. 23-64; 5, Sessatal, bls. 65-192; 6, Áhöfn bls. 193-205: 7, Lest, bls. 205-208).

## № 269.

Sögubók, innbundin, með hálfsettri hendi, nokkuð fornlegri og talsvert bundinni, skrifuð um seinna hluta 17. aldar. þar er á:

1. Sagan af Göngu-Hrólfi, 37 kapitt.
2. Sagan af þorsteini Víkingssyni, 25 kapitt.
3. Sagan af Ector sterka og köppum hans, með formála, kapitula tölur hafa staðið á spázíunum, en eru nú víðast skornar burtu. (Aptan við sögu þessa er skrifað, þó með annari hendi: Lambavatni 1680, 17. Martii (sira) Jón Ólafsson með eigin hendi).
4. Speculum regale (Konungs skuggsjá). Síðast í 74. kapítula er eitt blað með annari hendi, þar hefur vantað í skinnbókina, sem sagan hefur verið skrifuð eptir. Kafli frá 34-48 kapitula er rangt festur inn, og er aptar í bókinni. Síðari hluti er síðar skrifaður, og með hinni sömu hendi er víða skrifaður orða munur í margínunum; í hann vantar sumstaðar, og kapitulum ruglað saman við innbindinguna.

## № 270.

Sögubók, innbundin. þar er á:

1. Saga af Gunnlaugi Ormstungu, 13 kapitt.; með nýlegri, en greinilegri latínu hendi.
2. Njáls saga, skrifuð upp á 18. öld, með greinilegri fljótaskriptar hendi, fyrirsagnir og upphöf á kapitulum með hálfsettri hendi, 160 kapitt. Aptan við eru kappavísur um Njál, Gunnar á Hlíðarenda, Kára, syni Njáls og fleiri menn úr sögunni («Lið varð að Njáli» o. s. frv.).

## № 271.

Sögubók, hept, skrifuð á árunum 1805-1812; afskript þessi er talsvert bundin, og auðsjáanlega stæld eptir eldra handriti. þar er á:

1. Útskýring á þungskildum vísum í Brávalla rímum; þar á eptir (til uppfyllingar): Nokkur ókennd manna, borga og landa nöfn; allt þetta er með annari hendi en sögurnar sjálfar, og auðsjáanlega hept framan við seinna.
2. Sagan af Eymundi Hringssyni, 11 kapitt.
3. Sagan af Eiríki víðförla, 2 kapitt.; á eptir sögunni eru nokkur orð skrifuð með villuletri, líkast til nafn og heimili afskrifarans.
4. Sagan af Hrafni Sighvatssyni, íslenzka (án kapitula skipta).
5. þáttur af Hróari heimska (án kapitula skipta).
6. þáttur af Auðunni íslenzka (án kapitula skipta).
7. þáttur af Sneglu-Halla (án kapitula skipta).
8. Sagan af Agli einhenta, 18 kapitt. (eptir handriti frá 1683).
9. Sagan af Hjálmtýr (Hjalta?) og Ölvir, fóstbræðrum, 12 kapitt.
10. Sagan af Hermann og Jarlmann, 26 kapitt.
11. Bretlands kronika.
12. Sagan af Játvarði hinum helga.
13. Æsops saga (að eins upphafið).
14. Sagan af Hálfdani Eysteinssyni, 21 kapitt.
15. Saga Virgilii, útlögð eptir Hollenzku (vantar aptan af).

## № 272.

Kvæðabók, innbundin, er Gunnlaugur Jónsson á Skuggabjörgum í Skagafirði hefur safnað og skrifað upp árin 1840-1841.

Kvæðasyrpur Gunnlaugs hafa verið 4-8?, og er þetta fyrsta bindið. Bindi þetta er alls 285 bls. og eru í því, auk registurs, undir 300 kvæði og vísur eptir ýmsa

höfunda frá ýmsum tímum, svo sem sira Gunnar Pálsson, sira Hallgrím Pètursson, Pál Vídalín o. fl.; mikið í bók þessari eru kvæði frá seinni tímum, en þar eru og ýms fornkvæði, langlokur, samhendur o. fl.; hèr er og Látrabrèfið, og eignað sira þorláki þórarinssyni. Á ýmsum stöðum eru athugasemdir, skrifaðar með hendi þorsteins þorsteinssonar á Upsum, um kvæðin og höfunda þeirra, og á tveimur eða þremur stöðum eptir Daða fróða.

## № 273.

Orðabók, dönsk-íslenzk, í glósnabroti, samin og skrifuð af Páli þorbergssyni (Thorberg) lækni. Orðabók þessi er eptir stafrofsröð, nær aptur í Q, og endar þar á orðinu «*qvis*».

## № 274.

Lækninga bók Jóns Pèturssonar, líklega eiginhandarrit. Handrit þetta er ekki heilt, og vantar í frá 102 gr. til 252 gr., og aptan af frá 312. gr. í 8. kapitula.

## № 275.

Dæmisögur, 100 að tölu (útlagðar); vantar framan af fram í hina fimmtu. Í öllum þessum dæmisögum, sem víða eru með ritningar stöðum á spáziunum, er sami maður nefndur (Gotthold). Skrifað snemma á þessari öld, eða síðast á næstu.

## № 276.

Brot úr Paradísar missi, frumritað með hendi skáldsins sira Jóns þorlákssonar. þetta brot, er nær yfir hið mesta af fyrstu bókinni, byrjar í ræðu Satans («Hèr megum vèr þó halda frelsi» o. s. frv.) og nær til enda bókarinnar. Í handriti þessu er víða talsverður orða og meininga munur við prentuðu útgáfuna.

## № 277.

Sögubók, hept í skinn, skrifuð árin 1833-1834 af Gunnlaugi Jónssyni á Skuggabjörgum í Skagafirði, 280 bls. þar er á:

1. Saga af Perus, 5 kapitt., bls. 1-10.

## № 278.

Ritgjörð, íslenzk, um hagfræðisleg efni, eptir þórð jústiziarius Sveinbjörnsson í Nesi, skrifuð 1838 um haustið, með hans eigin hendi.

Ritgjörð þessari, sem er merkileg í marga staði, er skipt í 15 aðalgreinir (Hreindýr — Brennisteinn — Peningabankar — Prentverkið — Læknissakir — Löggjöf — Sjávar útvegir — Jarðyrkja — Skógar — Sandar — Rentuberandi peninga eign — Kauphöndlan — Búnaðarhættir — Jarða góz — Heyforðabúr).

## № 279.

Rauðhyrnu þáttur. Kýmnissaga úr Rangárvalla sýslu um málaferli út af kú, sem af ógáti var særð á baki, samin og skrifuð af Helga bisk. Thordersen, 14 kapitt. og 16 blss.

## № 280.

Bindini í lausum heptum og blöðum, mjög fúið og óheillegt. þar er á:

1. Sálnaregistur Garpsdalskirkju frá árunum 1763-1834, með skýrslum yfir fædda, fermda og gipta frá sömu tímum (vanta í ár hingað og þangað, og sumstaðar mörg í senn); framan við sálna registrið eru visitaziu áteiknanir Jóns próf. Ormssonar.
2. Brèfabók með konungsbrèfum, tilskipunum, umburðarbrèfum biskupa og prófasta, «synodalibus» o. fl. viðvíkjandi andlegu stèttinni, mest frá 18. öld, og nokkuð frá 19. öld (til 1815); allt ósamstætt og óheilt.
3. Nokkur blöð úr ritgjörð um garðyrkju.

## № 281.

«Graduale» (grallari með söngnótum); hefur verið mjög vel skrifaður, með upphafsstöfum dregnum með litum og nótnastrengjum með rauðum strikum, en nú laus upp úr bandi og talsvert fúinn; vantar framan og aptan af.

## № 282.

Hepti, skifað með ýmsum höndum. Þar er á:

1. Rímur af Kiða-Þorbirni („Gunnblinds hani gef þig til" o. s. frv.), eptir sira Þorstein Jónsson á Dvergasteini, 4 að tölu, vantar aptan af hinni síðustu.

2. Esopus saga, með mynd af Esopus.

3. Minningar ljóð og grafskriptir yfir ýmsa, svo sem: Lárus Scheving, sýslumann († 5. Aug. 1722), 11 alls, og tvö á latínu, eptir sira Eyjólf Jónsson á Völlum, Sigurð Bjarnason, Sigurð Gottskálksson, Hallgrím Eldjárnsson, sira Þorlák Þórarinsson o. fl.; yfir Jens Madtzson Spendrup († 5. Oct. 1735), eptir Stein bisk. Jónsson; yfir Davíð Scheving, eptir sira Eldjárn Jónsson; yfir Vigfús Jensson Spendrup, stud. theol., eptir (síra?) Jón Jónsson; yfir Sigríði Jónsdóttur, ekkju Jóns biskups Vídalíns, eptir Vigfús Jensson Spendrup, o. fl.

## № 283.

Kongsbænadags ræða yfir Esajas 55. („Leitið drottins meðan hann er að finna o. s. frv.); ræða þessi er með mörgum ritningar tilvísunum á spáziunum, skrifuð með góðri hálfsettri hendi, og án efa eiginhandarrit.

## № 284.

Hugleiðingar um kristinndóminn, blandaðar með frásögnum (Íslenzkra evangeliska smábókafèlags rit Nr. 1), útlagðar úr dönsku af sira Jóni Jónssyni presti til Grundar og Möðruvalla, og með hans hendi, 79 bls.

## № 285.

Kveðlingur, er heitir „Lögmáls bogi" („Eg vil einfalt óðarsmíði" o. s. frv.), 49. err.; þar eptir upphafið á kvæðinu „Barna rós", með Liljulag („Kæru börnin helgan heyrið" o. s. frv.); hepti þetta er að eins 4 blöð.

## № 286.

Hepti, sem hefur verið rifið upp úr bandi, og vantar nú framan og aptan af. Þar er á:

Útlegging, dönsk, yfir ýmislegt úr Virgilius og Hóratius (Æneis: nokkuð úr 1. og 2. og 6. bók — Odæ: 1-4 bók og Epodi 1-16 (útdráttur); Carmen seculare (in extenso); Satiræ: 1-2 bók (vantar aptan af, og tvö blöð úr Epistolis (úr 14-17).

№ 287.

Fyrirlestrar yfir trúarfræði Meyers, haldnir við Reykjavíkur skóla veturinn 1847-48 af Jens Sigurðssyni, skrifaðir að mestu með hendi sira Sveins Skúlasonar á Staðarbakka og Jóns próf. þórðarsonar á Auðkúlu.

№ 288.

Ritgjörðir tvær, á dönsku, um erfðir: Hin fyrri er um «sjömenning» smb. C. V. L. 5. B. 2. kap. 51. gr. við sömu bókar og sama kapitula 11. 44. og 48. gr. Hin síðari ritgjörðin er um hjónaerfðir, sbr. C. V. L. 5. B. 2. k. 19. gr.

№ 289.

«Jus personarum romanum, auctore Colbjörnsen»; fyrirlestur á latínu í 26 köflum og 309 greinum.

№ 290.

Meisteri Annotationes ad Compendium Juris Criminalis. Göttingen xxx Septbr. MDCCLXXIV.

№ 291.

Brot úr lagasafni, skrifað snemma á 18. öld, fúið og máð. þar er á:

1. «Fortegnelse upp á þau helztu lög og rèttarbætur, sem undanfarnir kongar í Danmörk og Noregi hafa útgefið»; þetta er að eins stutt yfirlit (rúm 3 blöð), en nær frá elztu tímum (frá Skildi, 4. konungi í Danmörk) niður til Friðriks IV.

2. Útdráttur úr tilskipunum og rèttarbótum, er byrjar á Rèttarbót Christians I (hinni löngu), 1450, og nær fram á tíma Christians IV. 1638 (Hèr er meðal annars: útdrættir úr fríbrèfum Torfa Arasonar, Björns

þorleifssonar, Eggerts Eggertssonar, og Confirmatio upp á fríbrèf Eggerts Hannessonar).

## № 292.

Safn af ýmsum brèfum og skjölum frá Kaldrananesi og Flatey. þar er í:

1. Kaupbrèf Guðmundar Jónssonar á Kaldrananesi fyrir jörðunum Bassastöðum, Vatnshorni og Hróbergi, sjö að tölu (25. Februar, 11. April, 30. Oktober 1782, 28. April 1783, 11. December 1784, 18. Juli og 25. Oktober 1788).

2. Kaupbrèf Guðmundar Guðmundssonar á Kaldrananesi fyrir jörðunum Kálfanesi og Ósi, tvö að tölu (16. Juni 1827 og 31. Maj 1828).

3. Byggingarbrèf Guðmundar Guðmundssonar á Kaldrananesi fyrir nefndri jörð, 18. September 1821.

4. Byggingarbrèf Gísla Bjarnasonar fyrir hjáleigunni Kaldrananesbakka, 9. Juni 1832.

5. Lögfesta fyrir jörðunni Bassastöðum, 8. Juli 1781.

6. Kaupbrèf Guðmundar Pèturssonar á Hellu fyrir hálfri Snartartungu, tvö, 18. 22. Juni 1792.

7. Makaskiptabrèf sira Eggerts Jónssonar á Ballará og Guðmundar Guðmundssonar á Kaldrananesi fyrir þessari jörðu mót jörðunum Víðidalsá og Kirkjubóli, 3. Juli 1832, með öðru fleiru.

8. Pantsetningarbrèf (in duplo) fyrir hálfri Skáley til Flateyjar-verzlunar fyrir kaupstaðar skuld 19. Mai 1785, með áteiknun um borgun 15. August 1789.

9. Samningur um skipting Hergilseyjar og Flateyjar, 13. September 1782.

10. Umburðarbrèf Jóns prófasts Ormssonar um reikninga Flateyjarkirkju, 3. Juni 1790.

11. Afsalsbrèf Boga Benediktssonar fyrir Hrappsey til Sigríðar Jónsdóttur, 9. September 1759 (in duplo).

12. Kaupbrèf, tvö, Benedikts Jónssonar í Hrappsey

fyrir Breiðabólstað (23. August 1727) og fyrir Hrappsey (11. Oktober 1742).

13. Lögrèttar stefna til Magnúsar sýslumanns Ketilssonar út af hèraðsdómi um lausamennsku þorsteins þorsteinssonar úr Dölum, 18. Juli 1778.

14. Samþykki Magnúsar Gíslasonar til giptingar systurdóttur sinnar Sigríðar Jónsdóttur og Boga Benediktssonar, 15. Juli 1765.

15. Útskript af skuldamáli, höfðuðu af Ola Christensen, kaupmanni í Stykkishólmi, gegn Jens Lassen assistent í Flatey o. fl. 8. Juni 1779.

16. «Promemoria» um fiskiverkun o. fl. eptir Eines Jespersen á Patriksfirði, 13. April 1767, á dönsku.

17. Tvö kvæði, dönsk, til jómfrú Th. Catherine Westmann (1765) og brúðkaupskvæði við giptingu Peder Hansteens, kaupmanns á Patriksfirði, og Mad. Mariu Elisabeth Westmann (1775), m. fl.

## № 293.

Bundin bók, er á stendur: Heimskringla eður saga alls Rómverja ríkis. I Tomus. Samanlesið og ritað af I. I. E(spólín) en hafið Anno domini 1787; 147 síður; þar á eptir er tímatal og registur. Allt ritað 1794 af þorsteini Gíslasyni á Stokkahlöðum. Titilblaðið með rauðu (og svörtu) letri.

## № 294.

þykk bók bundin í trjespjöld með skinni utan um, skrifuð með gamallegri töluvert bundinni settleturs hendi, sem er eigi ósvipuð hendi Árna Magnússonar (en er þó ekki hans, eins og gefur að skilja). Á henni eru:

1. Rollants rímur 40 eptir Jón þorsteinsson, («Flestum þykir þögnin löng»); aptan við þær er Langloka um Rollant.

2. Rímur af Marsilíó og Rósamunda eptir sama («Vilda eg geta vits af kór). 5 alls, en vantar niðurlag seinustu rímunnar.

Seinustu tvö blöðin eru rituð af Sigmundi Mattíassyni.

## № 295.

Sögubók, bundin, skrifuð af síra Eyjólfi Jónssyni á Völlum. Þar á eru:

1. Saga Hávarðar ísfirðings, brot; vantar í 2. kap., 7., 8., og endann.

2. Flóamannasaga, vantar upphafið aptur í endann á 2. kap. og úr 9-13. kap.; svo og endann frá upphafi 30. kap.

## № 296.

Samtíningur á lausum blöðum og örkum, skrifaður af ýmsum:

1. Nokkrar tækifærisvísur Skúla landfógeta Magnússonar með skýringargreinum. Jón Ólafsson (eldri) hefur ritað; 4 blöð.

2. 3 blöð (brot) rituð af Daða Níelssyni með nokkrum minnisgreinum og skólameistara registri í Skálholti. Þar að auk 3 önnur blöð með hans hendi ómerkileg.

3. Almanaksvísur prófastsins herra Þorláks Þórarinssonar yfir árin 1759-72, og 1773, ortar af prófastinum S. J. S. (Síra Sigurður Jónsson eða Sigfús Jónsson?)

4. Kafli úr brjefi til Torfa Ólafssonar á Þröm frá Ásvöru Jakobsdóttur á Grjótnesi (17. apr. 1753) út af landamærum «Þrems». Eptirrit.

## № 297.

Sagan af Bögu-Bósa. Að eins nokkur blöð framan af sögunni. Skrifað um miðja fyrri öld á að gizka.

## № 298.

Bundin bók, er á eru:

1. Skýringar yfir fornyrði lögbókar eptir Pál Vídalín (um alin — meðalmann, öxarþærur, hálsan og heflaskurð, jarl, sessatal og áhafnaskipun, orðin: heimskur, jálkur, óknytti, tíund).

2. Stutt inntak úr skrifi Mag. J. Árnasonar in Widalinum yfir tíund.

3. Um orðið gamburmosa eptir S. Eiríksson (fágætt).

4. Um orðið bjargvætt, eptir sama, skrifað til G. E. S. Vantar aptan af.

№ 299.

Bók í trjespjöldum og skinni utan um með þessum titli:

Til ágætis við Snorra-Eddu setjast þessir eptirfylgjandi kviðlingar úr Sæmundar Eddu I. Völuspá, II. Hávamál, III. Alvíssmál, IV. Gunnarsslagur, V. Vafþrúðnismál, VI. Grímnismál, VII. Gróttasöngur, VIII. Gripisspá, IX. Sigurðar kv. fáfnisbana, X. Fáfnismál, XI. Brynhildar kviða, XII. Guðrúnarkv., XIII. Guðrúnar lok. Skrifuð Anno 1764.

Hinum megin er litmynd, er sýnir völu eina með lykil í hendi (lykil vizkunnar) og liggur ljón við fætur henni (merki upp á vizkukrapt hennar). Öll er bókin með sömu hendi prýðilega fallegri, mjög bundinni. Sumstaðar eru skýringar ritnar aptan við kvæðin.

2. Nokkuð um rúnir, hvaðan þær sjeu o. s. frv., upp teiknað með ráði vitra manna á Skarðsá í Skagafirði Anno 1642 af Birni Jónssyni.

3. Bókin Edda, hverja samsett hefur Snorri Sturluson lögmaður A° X[ti] MCCXV (1215); prentuð í Kaupenh. á íslenzku, dönsku og látínu Anno Domini 1665; með myndum allt í kring, efst í miðju Óðinn, og hrafnarnir til hliða, Mjölnir og Rati, Heimdallur og Auðumbla, Sleipnir og Fenrir neðst og Valhöll í milli. Fleiri myndir eru þar, t. a. m. eptirmynd af Háva, Jafnhá og þriðja og Ganglera, auðsjáanlega gerð eptir þeirri, er finnst í Uppsala Eddu. Svo og ýms rúnaletur.

Aptan við þetta er Extractum (útdráttur) af notis (athugasemdum) Olavi Werelii Svenzka prentuðum 1664; og fleira fornfræðisefnis, einkum um rúnir, með registri aptan við.

## № 300.

Bók í trjespjöldum með skinni utan um, ákaflega rotin, fyrsta blaðið molnað í sundur. Skrifuð með fallegri hendi mjög bundið. þar á er:

1. Saga Starkaðar hins gamla 28 kap.
2. Krákumál eðr Loðbrókarkviða.
3. Kormákssaga, enduð við Sellátur þann 5. maji A° 1772 af Teiti Jónssyni.

## № 301.

Tvö skinnblöð, fremur ung. þar á er ritaður kafli úr Arfatökum kap. 27. Velskrifað með rauðum upphafsstöfum; hver blaðsíða tvídálkuð. þessi blöð hafa verið höfð utan um bók, og er því ill aflestrar opnan.

## № 302.

Bók í skinnkápu, en upp úr bandi, nokkuð rotin og í ljelegu standi; hefur haft einn spennil. þar á er:

1. Sagan af Licofron og hans fylgjurum. «Enduð 16. apríl 1798 að Svarfhóli».

2. Rímur af Kára Kárasyni («Mitt skal opna mærðar port») 15 alls, skrifaðar 1800 af «G. G. syni». Á seðli, er innan í liggur, hefur Jón Borgfirðingur getið þess, að eptir málrúnum í síðustu rímu hafi höf. heitið Bjarni, ef til vill Bjarni Hákonarson; en málrúnirnar eru:

Hlíðar fax (bjarkan, b) og hrannar lás (ís, j)
hart er ok á þegnum (nauð, n)
flugna gleði (ár, á) fáka más (reið, r)
frosti (ís, i) lagt í gegnum.

3. Nokkrar vísur yfir höfðingja í Sturlungu, kveðnar af síra Bjarna Jónssyni. 6 alls.

4. Mábils rímur («Mikið er opt á mansöng lagt»). Endar á 9. rímu, en í «Nota» aptan við segir, að Mábils rímur segi sumir 18, aðrir 24, enn aðrir 30, en meira en þessar hefur skrifarinn ekki haft. Skrifað á Svarfhóli 1800 af G. Gs.

5. Viðbætir vísnanna, no. 3.

6. Rímur af Samsyni fagra («Fálki þundar friggjar vers») 16 alls, ortar 1683. Höf. bindur nafn sitt svo:

sárið skáru(g) tvisvar týr(ð d)
taps jel hagl og drífa(= uuu)
maður(m) skaða(n) mara(r) flýr
mitt skal nafn svo blífa.

Skrifað af G. Guðmundssyni 1779.

7. Rímur af Snjá kóngi («Því mun fróma þegna þjá»); að eins fyrstu er. af 1. rímu.

8. Ekkjuríma («Semja skal hjer sónar vín»).

9. Þjófaspegill («Hljóðs af landi hlunna jór»), ortur 1778.

10. Einn sálmur til gamans («Í vetur gekk hjer um vefja líns»).

11. Sendibrjef («Systir góða sjertu hjer»), ort 1792.

12. Fjandafæla («Jesú dreyri, dauði og pín») eptir Jón lærða.

13. Varnarrjettur («Til varnar rjettar vilda eg dátt»).

14. Nýja móðs vísur («Undir Kvásers opnaðar»).

Bókina mætti kalla Svarfhólsbók.

## № 303.

Þykk bók bundin í skinnkápu. Þar á er:

1. Lækningabók Jóns Pjeturssonar, rituð árið 1813.

2. Praxis medica úr hálærðra bókum samantekin af Jóni Magnússyni Anno 1725, með formáli til lesarans, skrifuð með ágætri fljótaskript. 97 síður.

3. Um nokkur grös til lækninga og annara sjerdeilis verkana með sömu hendi.

4. Appendix eður viðbætir um nokkur medikament.

5. Nokkur olea til að búa oleum terebinthi, með hendi Jóns Konráðssonar.

6. Nokkrar greinir um kvenna náttúrlegan meðgöngu- og barnburðartíma, samanskrifaðar af Brynjólfi biskupi Sveinssyni árið 1651.

7. Responsum Facultatis medicæ angående ægtebörns födselstid. København den 12. jan. 1770.

8. Dómur Björns Markússonar um slátt og sláttumanna kaupgjald og lausamenn.

9. Um markverðan plástur.

10. Lýsing sjúkdóms, er gekk á Vesturlandi 1792. Eptirrit.

11. Forskript um hunang eptir Svein lækni Pálsson; með hendi Jóns Konráðssonar.

12. Undirvísan um tjöruvatnslækning, skrifuð af B. Arngrímssyni.

13. Nokkur recept.

## № 304.

Rímur af Núma kóngi Pompílssyni af Sigurði Breiðfjörð. Eiginhandarrit höf., er rímurnar hafa verið prentaðar eptir. Óbundnar á ósamfestum örkum. Vantar aptan af, hdr. endar á 30. er. í 16. rímu.

## № 305.

Bundin bók, er á eru ritaðar smá- (háskóla?) -ritgjörðir á dönsku, helzt siðfræðislegs efnis, skrifaðar með mjög smárri fljótaskript. Vantar í hingað og þangað.

## № 306.

Bók bundin. Þar á er:

Aritmetica eða reikningslist, skrifuð við Bereflords Handelssted om vinteren Anno 1801-1802 af S. Stephensen. Aptan við nokkrar töblur.

## № 307.

Bók spjaldalaus, nokkuð rotin. Vantar fyrstu 8 síðurnar. Þar á sýnist fyrst að hafa staðið:

1. Smásögur ýmislegs efnis (— 11. bls.). Þá koma:

2. Sagan af Ármanni Dalmanssyni (— 54. bls.). «Endað anno 1855».

3. Sagan af Lichafron og hans fylgjurum (— 142). Skrifuð 1856 af J. S. Syni á «Steinum».

4. Rímur af Jasoni bjarta Melandussyni, kveðnar

af «nokkrum þorsteini» (þetta strikað út, og í þess stað skrifað) Jóni þorsteinssyni eða Steinþórssyni (rangt. «Fyrst skal herjans hornalá»); vantar í 2. rímu og víðar. 8 alls. Að höf. er Jón þorsteinsson sjèst af þessum tveim er.:

Sjötugan kall bað seima rós
að semja þennan ljóða stig,
á svelli (j) fallinn sat við Ós (ó)
sagði' hann annar deildi á sig[1]) (n).
Lát í svefni líking þórs
liggja á harðri nybbu steins
þess er hefnir (= son) þundar spjóts (?)
þú fær ráðið þetta eins.

## № 308.

þykk bók bundin í trjespjöld með skinni, þar á: Einn pílagríms frammgangur, í tveimur pörtum . . . samanskrifaður á engelsku af Johannes Bunian. 479 bls. Höndin greinileg fljótaskript.

## № 309.

Bók bundin í trjespjöld og skinn; upp úr bandi og í fremur ljelegu standi. þar á eru:

1. Rímur af Herröði og Bósa eptir Guðmund Bergþórsson («Berlings læt jeg báru jór») 15 alls. Ortar 1692. Skrifaðar á Skálakoti 1778 af «Jóni Sigvatssyni».

2. Sagan af Vilmundi viðutann skrifuð 1788.

3. Sagan af Ambólis (svo) kóngi, skrifuð sama ár. Aptan við vísa um Ambales, og svolátandi vísa eptir skrifarann:

Ambólis sögu enda eg hjer,
er jeg í fingrum lúinn
betra seint en aldrei er
sá einhvern tíma er búinn.

---

[1]) að deila á e-n, = að nauða á e-m

4. Rímur af Bertram («Forðum hafa fróðir menn») 5 alls. Skrifaðar 1788. Höf. (G. Bergþ.) bindur nafn sitt svo:

Kera-setur hríð-jel hagl
hár tvístunginn maður
bystur vetur blakka ragl
batt sitt nafn óglaður.

5. Rímur af Ferakut Bálandssyni («Herjans skyldi eg horna straum») eptir Guðmund Bergþórsson; þær eru hjer líka kallaðar Amríalsrímur. Skrifaðar í Skálakoti 1793 af E. S. (?) Syni.

6. Sagan af Alíbaba og Morgíanu (úr 1001 nótt).

7. Historía af Ameð kóngssyni og Paríbúna huldukonu.

8. Sagan af Aladín Mústafssyni. Skrifuð 1795 af sama.

9. Tvær smásögur.

10. Sagan af Cyro, keisara yfir Persia og Medía. Skrifuð 1798 af sama.

## № 310.

Bók bundin í trjespjöld; þar á er Laxdæla saga, skrifuð með alllaglegri fljótaskript af Páli Þorsteinssyni. Eptra saurblaðið er brjef frá J. Einarssyni til hreppstjórans, skrifað í Snjóholti 31. maí 1856.

## № 311.

Oratio scholastica (skólaræða) haldin 1744 af Gunnari Pálssyni, eiginhandarrit.

## № 312.

«Söguþáttur af Nitida hinni frægu» á blöðum, skrifaður 1726 «að Rauðuskriðu í Aðal-Reykjadal». Höndin er greinileg, settaskriptar og snarhandar blendingur.

## № 313.

Nokkur blöð, er á er: Viðvíkjandi forlíkunarsökum í Svarfaðardals-sátta-umdæmi árið 1807 og 1808.

## № 314.

Nokkur blöð. Þar á eru: Forelæsninger over Danmarks Historie 1375-1448 af Engelstoft (1832-3); H. Müller. Sjálfsagt brot.

## № 315.

Bók, upp úr bandi, arkirnar ósamfestar, skrifuð með fremur gamallegri tvenns konar hendi, líklega á seinna hluta 17. aldar. Utan um hana er brjef frá Þórarni Vigfússsyni á Hvanneyri 14/11 1796 til Jóns Jakobssonar sýslumanns á Espihóli.

Bókin skiptist í tvo parta, fyrri parturinn er brot, byrjar á 23. bls., og endar á 81. bls. Þar á meðal eru þessir dómar: Alþingisdómar um hjónaband (1562). Kópavogsdómur um jarðar ábúð (1632). Dómur um það, ef maður situr á jörðu ótekinni (1599); um sveitarómaga (1635). Um kvenna rjett og ráðspjöll (1586). Um kvenna rjett (1620). Um vín og bakstr til kirkna (1572).

Síðari parturinn byrjar á 1. bls. og endar á 172. Hvort aptan af vanti, verður eigi sjeð. Eptir handarlaginu að dæma er þessi parturinn eldri. Þar á eru t. a. m. Dómur um hestreið, um reka, um fátæka; Réttarbót Hákonar konungs. Um kristinn rjett; um sjúkdóm og mart fleira.

## № 316.

Bók í skinnkápu. Þar á eru:

1. Rímur af Finnboga hinum ramma, ortar af Guðmundi Bergþórssyni, þá verandi í Keflavík fyrir vestan 1686. («Hleiðólfs renni' eg hlunna glað»). 24 rímur; skrifaðar 6. dec. 1821 — 26. jan. 1822.

2. Harmagrátur, ortur af Jóhannes Árnasyni («Hörmung sem pínir huga minn»).

Höndin er fremur óliðleg fljótaskript. Að líkindum er skrifarinn Oddur nokkur Eiríksson.

## № 317.

Nokkur kápuheft blöð, skrifuð með greinilegri snarhendi. þar á eru:

1. Lífsins lán og mæða («Ungur jeg íhuga náði») eptir J. R. (= Jón Reykjalín).

2. Við útför Sigríðar Snorradóttur, dáinnar 11. okt. 1847, ræða haldin af manni hennar síra Jóni Reykjalín. — Ræða haldin af síra Halldóri Jónssyni við sama tækifæri. — Með hendi síra Jóns (?).

## № 318.

Nokkur blöð, er á er:

1. Hr. Jens Michael Hertz's Frelsaði Israel, undir fornyrðislagi; 8 síður. Vantar aptan af.

2. Um Jóhannesar guðspjall, brot, eptir fyrirlestrum á prestaskólanum.

3. Eitt blað úr Marónssögu.

## № 319.

Sundurlausar ($6^1/_2$) arkir. Á þeim er:

«Guðsbarna útlendingskapur og þeirra andlegt háttalag hjer í heimi, auðsýnt í einfaldri líkprjedikun», yfir síra Worm Bjarnasyni, dánum 1764, 4. sept.; haldin af síra þorsteini Pjeturssyni. Skrifuð með nokkuð fornlegri hendi.

## № 320.

Bók bundin í skinn, komin frá Pjetri Eggerz (hafði verið eign Mattíasar á Kjörseyri), er ætlaði, að það væri sú bók, er Rask talar um að hann hafi frjett til í Hrútafirði í formálanum fyrir útg. sinni á Snorra-Eddu. þar á er:

1. Skálda, þ. e. Edda, Gylfaginning; vantar aptan af; skrifuð með greinilegu settletri.

2. Schedæ Ara prests fróða, skrifað eptir þeirri, er prentuð er í Skálholti 1688. Með annari hendi og yngri.

3. Lítið ágrip úr landnámssögu þeirra er byggðu Fljót, Sljettuhlíð, Höfðaströnd og þær sveitir; með sömu hendi.

4. Ættartal niðja Hervarar. Með sömu hendi.

5. Sagan af Huld tröllkonu hinni ríku. Með þriðju hendi.

6. Brandkrossaþáttr, og um uppruna þeirra Droplaugarsona. Með sömu hendi.

7. þáttr af þorsteini stangarhögg. Sömuleiðis.

8. Söguþáttr Gauta konungs. Sömuleiðis.

9. Sagan af Sturlaugi starfsama. Sömuleiðis. 3 er. aptan við um Sturlaug.

10. Sagan af Líkafrón og hans fylgjurum; sömuleiðis.

## № 321.

Blöð sundurlaus og nokkuð rotin.

1. Höndin tvenns konar, önnur frá öndverðri 17. öld, hin frá sama leyti, ef til vill nokkuru eldri. Á blöðunum eru ýmsir dómar og gjörningar, brjef og þess konar (sumt viðvíkjandi Ólofu og Birni í Vatsfirði). Merkileg blöð.

2. Kafli úr annál, í brotum frá 1238-1530. Ætt Daða í Snóksdal, o. fl.

3. Annáll, er nær frá 970-1490. Prýðilega falleg fljótaskript.

4. Fjögur blöð, ómerkileg. Um steintöblu, er fundizt hafi í Vínarborg. Um eldinn. Um undarleg fjöll í veröldinni o. s. frv.

## № 322.

Brot af Njálssögu í litlu 4 bl. broti, tveir dálkar á síðu hverri, greinileg og gamalleg hönd, settaskript, fornleg stafsetning. Brotið byrjar á tveim blöðum úr 10 og 11, 14 og 15 kap. = (12,93-13,12 og 19,4-20,21 í Hafnarbókinni minni 1875); svo kemur kafli heill frá 25. kap.; eptir 58. kap. hættir kap. tal. þetta svarar til 29,8-145,144 í Hafnarbókinni.

## № 323.

þykk bók í trjespjöldum með skinni utan um og tveim spennlum á; upp úr bandi, nokkuð rotin og skemmd,

einkum aptan til og hálfilla til fara. Það er brjefabók Markúsar Bergssonar sýslumanns í Isafjarðarsýslu fyrir árin 1720-29. Vantar framan af blöð og blöð og aptan af óvíst hve mikið.

## № 324.

Safn af ýmsum kvæðum og annar samtíningur.

1. Ljóðabrjef til Bjargar Sighvatsdóttur á Heggstöðum í Andakýl frá Guðbjörgu nokkurri Guðmundsdóttur. («Frænings hlíða fold jeg smíða vildi»). Sjálft brjefið.

2. Laust blað úr þingbók (?) eða einhverri sögubók (?); talað um þing í lóðhelgismáli. Með fljótaskrift Einars á Mælifelli (?).

3. Brjef frá Stefáni sýslumanni Thórarensen til stud. theol. Árna Illugasonar á Harastöðum á Skagaströnd. Brjefið er skrifað á Hólum 3. dec. 1786. Um veiting Grímseyjar prestakalls.

4. Brjef frá Jóni Hjaltalín ritað á Breiðabólstað, 14. júní 1815 til einhvers prófasts.

5. Kvæði um Örlygsstaðafund (Sturlu Sighvatsson), («Hjer skilur með oss Hjalti minn»); eptir Benedikt bónda í Tungu í Fnjóskadal.

6. Ræða á nýjársdag með hendi Páls á Steinsstöðum föður Sveins læknis.

7. Brot af Orðskviðasafni með hendi Magnúsar prests Grímssonar, og hefst á «opt er innan fríður utan ljótr» og endar á «örverpi er jafnan í ætt hverri»; alls 11 blöð.

8. Erfiljóð eptir Sigurð nokkurn Bjarnason, 5 er. á einu blaði, með hendi Jóns Borgfirðings.

9. Lítið ágrip af prentsögu Íslands, saman sett hefir Jón Borgfirðingur árið 1866. Þetta er uppkast með mörgum lausum seðlum innan í.

## № 325.

Safn af ýmsum ritgjörðum flestum eptir síra Jón Yngvaldsson á Húsavík, ritað með hans hendi. Allt ósamfest.

1. «Fjölþýðinga-samnefna-vísur» með skýringum, en sýnist vanta dálítið framan af; enn fremur vantar svo sem 4 síður aptan af. Alls eru þetta 374 síður. þetta er kvæði, og eru í hverri vísu upptaldar allar merkingar orðs, og byrjar á «biti». Hverri vísu fylgja skýringar. Aptast er «Registr yfir fjölþýðinga-samnefna-vísurnar» í 8vo.; má þar af sjá hve mikið vantar.

2. «Ávarp eður ágrip af íslenzkra kirkju-embættis-öldunga, eðr biskupa, officiala eðr biskupastaðsetninga, og stiptprófasta, prófasta og presta tali, sem undir, um eðr yfir 50 ár hafa þjónað eðr lifað frá prestvígslu í nokkurum andligum eðr kennimannligum embættum bæði í páfatrúaröld, en þó einkum frá upphafi 15. aldar til síðara luta 19. aldar ɔ: um 469 ár». þetta eru 84 síður, og þar að auk viðbætir á nokkurum síðum.

3. «Athugasemdir við umbætur» Pjeturs biskups Pjeturssonar «á orðfæri og útleggingu vorrar evangelisku lærdómsbókar» á 8 síðum.

4. «Íhugunarverðar athugasemdir við Njólu á nokkrum stöðum» á 8 síðum.

5. «Frumvarp til bótaráða til eflingar kyrkjuligu og kristiligu lífi í kristnum söfnuðum o. s. frv.», enn á 8 síðum.

6. 14 síður, er á er ræða einhver, að því er sýnist, og kvæði nokkurt heimsádeiluefnis.

Saman með safni þessu er

7. glósnasafn, íslenzk orð með latneskum þýðingum; sumt úr Sigurdrífumálum; ritað að nokkru með fljóta-skript, og er skrifað í Viðey. Á einni síðunni efst stendur «Viðeij þ. 28. Sept. 1821».

## № 326.

Þykk bók bundin, með trjespjöldum og skinni utan um og tveim spennlum. Bókin hefir einhvern tíma verið í eigu síra Jóns Auðunarsonar, en er komin frá Tómási á Ingjaldshóli. Á henni er:

1. Lítið ágrip um þeirrar háloflegu oldenborgisku ættar ríkisstjórnar uppbyrjan og ending í Danmörk og Noregi (sjerhvers kóngs fyrir sig). Stutt upptalning konunga, er endar á Friðrik þriðja.

2. Insignia regnorum Daniæ et Norvegiæ (um merki ríkjanna). Þar er Íslands merki talið: «flattur þorskur hvítur með kórónu í rauðum feldi».

3. Innihald nokkurra forordninga er út hafa gefið Noregs og Danmerkur kóngar, sem og fleiri þar að lútandi brjefa, Item compendia af ýmislegum þeirra umboðsmanna skikkunum og skjölum með degi og dato til minnis uppteiknað». Merkilegt safn. Getið um hvar sum brjefin sje til. Síðasta datum er 1705.

3. Nokkur kóngabrjef. Byrjar á Kristjáni fyrsta.

4. Synodale um dagsverk presta.

5. Um erfðir úr lögbók Íslendinga.

6. Friderici II kóngsbrjef.

7. Christiani IV brjef og forordningar.

8. Friderici III kóngsbrjef og forordningar.

9. Kong Christiani qvinti (5.) brjef og forordningar.

10. Kong Friderici IV[ti] brjef og forordningar.

11. Þrjár forordningar kóngs Christians sjötta.

12. Tabla uppá courantmynt.

13. Kóngsbrjef og forordningar kongs Christiani sexti.

14. Siðabætur ýmislegra Íslands forstjóra andlegra og veraldlegra.

15. Pastoralbrjef superintendentis yfir Trondhiem stipt General kirkna visitatoris á Íslandi herra Ludvig Harboe ed. Holum í Hjaltadal 25. maj 1743.

16. Eitt Circulair brjef Velæðla Hr. biskupsins Ólafs Gíslas. af dato 24. nóvember 1748 viðvíkjandi Catechisationen.

17. Kristinrjettur hinn nýi.

18. Kóngsbrjef og anordningar kong Friderici qvinti (5.).

19. þeir tilsettu sálmar og textar sem brúkast skulu í kirkjunni á þeirri allranáðugast uppáboðnu fagnaðarhátíð þann 28. octobris 1749, og bæn eptir prjedikun á sömu hátíð.

20. Generalkirke-Inspectionscollegii Missive til biskop hr. Oluf Gislesen af 16. mai 1752.

21. Formular til de aarlige Tabeller over Confirmatis.

22. F. 5ti resolution om Courantmyntens Gangbarhed i Island dat. 24. martii 1753.

23. Circulairebrjef prófastsins síra Jóns Teitssonar til prestanna í Barðastrandarsýslu um að gera þakklætis uppörvan sóknafólkinu fyrir gjafir Friðriks 5.

24. Extract af Interessentskapsins missive.

25. Extract af resólútíón Fr. 5 um sáðgarða, selstöður og afrjettir o. fl.

26. Extract af Skálholtsstiptis Consistoríal réttarprotokol 1757.

27. Skrif sýslumanns Skeving um prjónlesgjörð til prófasts og presta í Barðastandarsýslu.

28. Um það hver presidera skal í consistorio og burtgefa prestaköll. Um supplíkatíur o. fl.

29. Circulaire til presta í Barðastrandarsýslu um biblíur og N. T. gefins.

30. Andsvar Kirkjuinspectíónarinnar um hvernig konfirmera skuli krypplinga og líkþrá börn.

31. Skrif biskupsins Jóns Árnas. um tíund. — Fleiri smáleg skjöl kunnu að vera í bók þessari.

Ekki er hægt að sjá, hver skrifað hafi bókina; er hún

öll með fljótaskript og mest öll með sömu hendi og skrifuð eptir 1755.

№ 327.

Ritgjörð í blöðum: um nokkra útvortis sjúkdóma. Auðsjáanlega frumrit og uppkast. Brot af fleiri ritgjörðum læknisfræðislegs efnis. Skrifað með fremur smárri fljótaskript.

№ 328.

Bók spjaldalaus bundin. það er «Íslenzk kirkjusiðabók». Aptan við stendur á dönsku:

Saaledes have vi Underskrevne Efter Eders kongl. Maj[ts] Allernaadigste Befaling projecteret og giort vores Allerunderdanigste Conclusum over det Islandske Ritual, som Indstilles til Deres kongl. Maj[ts] Allernaadigste Resolution

Af
Deres kongl. Majestets
Allerunderdanigste troe
tienere og Arveundersaatter
Steinn Jonssen. Jon Arnesen.

Eptir handarlaginu á nöfnunum er það Jón Árnason, sem hefur ritað alla bókina. þessi kirkjusiðabók er samin 1721.

№ 329.

Bók í stífu bandi, er á er skrá yfir handritasafn Jóns Espólíns, skrifuð með snarhandarletri.

№ 330.

Samtíningur á lausum blöðum.

1. Lögsögumannsþáttur, Rannsóknaþáttur, brot af þingskapaþætti, skrifað með ágætri settleturshendi (vantar framan af).

2. Brot af einhverjum gjörningum (eða þingbók í arkarbr.) frá 1775 úr Reykjavík.

3. Kvæðið Píknaspillir eptir Eggert Ólafsson.

4. Brot af einhverri ritgjörð heimspekilegs eða siðfræðislegs efnis með hendi Pjeturs Guðjónssonar, að því er sýnist.

## № 331.

Tveir «Fátækra sveitar prótókollar» frá Neshreppi utan Ennis 1793-97, 1806-15. Spjaldalausir en samfestir.

## № 332.

þykk bundin bók, skrifuð öll af sama manni (fljótaskript). þar á er rímnasafn:

1. Rímur af Rollant jarli, ortar af Jóni þorsteinssyni á Grund í Höfðahverfi («Flestum þykir þögnin löng») 40 alls.

2. Otúels rímur, ortar af Guðmundi Bergþórssyni («Fjölnis læt jeg flæðagamm») 8 alls.

3. Nokkrar vísur eptir Harald harðráða, þjóðólf og Sneglu-Halla; brot.

4. Rímur af Víkingi og þorsteini og þeirra fóstbræðrum («þögnin girðir seggi senn»), ortar af Jóni þorsteinssyni. 18 alls.

5. Rímur af Agnari og Sörkvi fóstbræðrum («Frosta vildi eg fleyta skeið»), eptir Árna (í Selvogi) smbr. er.:

Akur vökvinn ávöxt ber (ár, á),
örðug ferðin líka hver (reið, r)
hast í kasti hrelling ljer (nauð, n)
harður skerðist ís við sker (ís, í i).

6. Rímur af Nitídá frægu («Áður skýru skáldin góð»), eptir Jón Guðmundsson í Rauðseyjum (?). 5 alls. Vantar aptan af. — Á síðustu síðunni er brot af ljóðabrjefi, að því er sýnist. Bókin er skrifuð «af B. S. Syni á Stóruþverá í Fljótum 1734».

## № 333.

Bók bundin. þar á er:

1. Topografisk (landfræðisleg) skýrsla um suðursíðu

Íslands einkum Skaptafellssýslu; skrifuð í Höfn 1776 af Sæmundi Magnússyni Hólm.

2. Kort Beskrivelse over Den saakaldte Dyrhole Øe udi Island med 4 Prospecter, 6 Urters Figurer med Deres Forklaring og et Chart af Grönland. Havniæ 1780. Sæmund Magnussen Holm.

3. Litmynd af Tycho Brahe dregin af Sæmundi 1781. Völundarhús 3. Þar á eptir litmyndir af karli og konu af ýmsu þjóðerni, auðsjáanlega til þess að sýna þjóðbúninga. Allt dregið með mikilli snilld af Sæmundi. — Eiginhandarrit allt saman. Merkileg bók.

## № 334.

Blöð heft í pappa. Þar á er Skrifbókarslitur, og svo «Skýringar greinir yfir Rómverja sendibrjefs sjö hina síðstu kapítula fyrirlesnar 1812 af herr lector Jóni Johnsen».

## № 335.

Bók í skinnkápu.

1. Forelæsningar yfir Religíónshistoríuna, haldnar af Steingr. Johnsen, lector, ritaðar af S. Gunnlaugssyni 1809-10.

2. Snorra Edda, dönsk þýðing; að eins byrjunin.

3. Nationalsang («Danmark Danmark, hellige Lyd») og fleiri dönsk kvæði.

## № 336.

Lausheft kver, 14 arkir að stærð. Þar á er: «Upphaf sögu Íslands byggðar». Stutt Íslands saga, er nær frá landnámum og til þess er landið kom undir konung. Aptast eru athugasemdir á þrem síðum. Allt eptir síra Jón Yngvaldsson á Húsavík, með hans hendi, og frá honum komið.

## № 337.

«Stutt Ágrip af Íslendinga sögu, ritað anno 1851» eptir Jón Yngvaldsson prest. Það er 289 bls. ósamfestar,

og nær frá fundi Íslands og landnámum fram undir 1800.

№ 338.

Lausar arkir, er á eru: Athugasemdir við orðabók Eiríks Jónssonar, eptir Jón Yngvaldsson prest, ritað 1867. 20 bls. Hjer til mun og heyra og vera nokkurs konar áframhald ýmislegur orðasamtíningur á lausum blöðum eptir sama, allt eiginhandarrit.

№ 339.

Ritgjörð eptir síra Jón Yngvaldsson, fyrirsagnarlaus; það eru athugasemdir við orðabók Konráðs Gíslasonar á 40 síðum. Eiginhandarrit. Þar með eru og 2 ritgjörðir aðrar líks efnis (20 + 24 síður).

№ 340.

Ritgjörð á 12 síðum eptir Jón prest Yngvaldsson, er heitir: «Íslenzkan ɔ: Norrænan og nýdanskan; Hvað er hrein Norræna ɔ: Íslenzka og Danska». Eiginhrit.

№ 341.

Ritgjörð eptir Jón prest Yngvaldsson, er nefnist: «Rannsókn íslenzkra laga eldri og nýrri um heytoll, þingatoll, prestslamb, með fleiru öðru, er þar að hnígur». Á 73 síðum. Aptan við er formáli á 4 síðum. Allt eiginhandarrit.

№ 242.

Bundin bók, er á eru «Rímur af Valdimar og Sveini» eptir Sigurð Breiðfjörð, og mun vera eiginhandarrit, og fyrsta uppkast, því að allvíða er strikað út, línur og heil erindi.

№ 343.

Bundin bók, er á er skrifuð: «ættartala madömu Guðrúnar Ásmundsdóttur á Miðteigi samantekin og skrifuð árið 1844 af J. J.»

№ 344.

Syrpa með ættartölum mörgum á, með mörgum höndum; sumt brot. Helztu hendur: Páls stúdents Páls-

sonar, Jóns Espólíns (ætt hra Stepháns þorvaldssonar); Bjarna ættfræðings á Suðurnesjum (partar úr ættartölu Hannesar skómakara Erlendssonar eptir Ólaf Snóksdalín 1819). Enn fremur er þar á meðal «ætt madam[e] Kristínar Björnsdóttur»; Ættartala Guðrúnar Einarsdóttur, konu síra þorvalds Böðvarssonar. Ættartala síra Jóns Steingrímssonar, skrifuð af «stud. theol. J. Eyjólfssyni». Ætt Helga prests á Jörfa (eiginhandarrit síra Helga). Afkomendur síra Páls Högnasonar og fl. smávegis.

№ 345.

Handritin af ýmsum Skýrslum og reikningum, Frjettum frá Íslandi o. s. frv.

№ 346.

Handrit Jóns Thóroddsens af Manni og konu.

№ 347.

Handritið af Biskupasögunum II, 3.

№ 348.

Fúin og rotin blöð, rituð á Miðhúsum 1807 af H. E. syni. þar á er ýmislegt um lækningar. Vantar framan og aptan af.

№ 349.

Sundurlaus bók, er á eru «nokkrar sjerlegar greiner samanteknar úr þeim XVII bókum Johannis Jacobi Wichæri» í stafrófsröð. 29. dálkur — 49. — Um náttúru nokkurra dýra, fugla, fiska, steina og jarðaraldina. 92-131. — Aðskiljanlegar greinir og sagnadæmi samanlesin úr fornum fræðibókum vísindamanna.

№ 350.

Skýringar yfir nokkur örnefni í þorskafjarðarþingi eptir Sighvat Grímsson borgfirðing. Eiginhandarrit.

№ 351.

Handritið af Biskupasögunum II, 2.

№ 352.

Handrit af Safni til sögu Íslands II, 3.

## № 353.

Jarðabók yfir Skálholts biskupsstóls jarðagóz 1781. Þar innan í liggur samtíningur af ýmsu smávegis, smásögum þýddum af Geir Vigfússyni, grafskript yfir Eggert Johnsen lækni, Drösuldans og smávísur. Kvæði, skrifað í Húsavík 19/8 1836, við brottför Baagöes. Rímur af Sóróaster («Hreyfist rómur, hverfi þögn»). Hjer eru að eins 2 fyrstu rímurnar, ritaðar af Geir Vigfússyni. — «Fátæktin mjög er manngjörn kona». Brot af ljóðasafninu «Hyrja» og «Yrpa» skrifuðu af Geir Vigf. (þar á eru einkum kvæði eptir síra Jón Hjaltalín).

## № 354.

Samtíningur af ýmsum skjölum, gjörningum og brjefum (frá Gunnlaugi Briem, J. Scheving, Jóni Espólín o. s. frv. Um Pál Guðbrandsson). Þar á meðal er kvæði um Jón biskup Arason og sonu hans eptir Odd Halldórsson handa («Rögnis rósar minni») 30 er. — «Mes heitir maður». — Tíðarfar 1860. — Athugasemd við lögsögumannatal með hendi Jóns Borgfirðings. — Athugasemdir við Grænlands Sögu (Grönl. hist. mind. I, 279) eptir Jón prest Yngvaldsson. Fæðingardagsvísur til Ragnheiðar Guðmundsen 1856. — Kvæði eptir Árna Árnason (?) («Eilífrar sælu yndisjól»). Annað kvæði («Eg hefi lifað æsku»). — «Ó hvað mart í heimi hjer». — Kvæði eptir Sigurð Breiðfjörð og Ögmund Sigurðsson og fleiri kvæði. — Um gjaldþegna og gjaftolla ofl. Þar með er og «Þess mannlega lífs fallvalta hlutskipti hugleitt til verðugrar útfararminningar ... madame Þórunnar Guðmundsdóttur», † 28. maí 1764, pr. í Kaupmannahöfn 1765.

Alls eru skjölin 50 tals, öll komin frá Jóni Borgfirðing, nema 2 blöð, annað frá Þorláki O. Johnson, hitt frá Hákoni Espólín. Þar með fylgir brjef frá Jóni Borgf. um handrit, er hann sendir.

## № 355.

Samtíningur af lausum blöðum og örkum.

1. Brot af íslenzkum kirkjurjetti, skrifað um 1700.

2. þess tyrkneska keisara declaratio eður reiðibrjef á móti þeim rómverska keisara, ýmsir dómar. Úr stórri bók, byrjar á bls. 211. — Brot úr kaupbrjefabók um 1739. — Kóngsbrjefaregistur og dómar. — Úr alþingisbók («Steindór Finnsson á kverið», eiginhönd). Fleira úr lögum og dómum.

3. Brot úr dómabók frá 1783.

4. Einfaldir þankar við afgang sniðkar (!) Eyjúlfs Ísfelds («Umþenking dauðans ætíð skyldi»). — Ferðarolla («Við frá Nesi valla skeið»); brot.

5. Epistola encyclica de tertio reformationis jubilæo 1818. (Umburðarbrjef um 3. siðbótarhátíð).

6. 4 blöð úr prjedikun frá 17. öld.

7. Skrif amtmanns herra Ólafs Stefánssonar um kúgildi.

## № 356.

Safn af ýmsum lausum blöðum og örkum.

1. «Registrering og vúrdjeríng» á sterfbúi Sveins Sölvasonar, skráð 14. ágúst 1783. Engin nöfn eru rituð undir skrána.

2. Grafskript á latínu yfir Jóni Árnasyni rektor á Hólum og prófasti á Stað († 1743).

3. Ýms eingaskjöl Brynjúlfs Sigurðssonar (Sívertsen) og föður hans. — þar á meðal er og grafskript á latínu yfir síra Guðlaugi þorgeirssyni og ísl. grafskript yfir Halldóru Sigurðardóttur. — Vísa eptir Orm sýslumann á Vestmannaeyjum (?). — Copia af brjefi Dr. H. Finsens til síra Stefáns Högnasonar $^{17}/_{10}$ 1795.

4. Skiptaact í dánarbúi landþingsskrifara Sigurðar Sigurðssonar 1745.

## № 357.

1. Mjög fúið arkarblað. þar á er: «Sú stórmynduga chírúrgs þula, 20. okt. 1785, Jón Einarsson».

## № 358.

Nokkur skinnbókablöð.

1. 2 blöð í mjög litlu broti; höndin er ekki eldri en frá 15. öld; brot af einhverri andlegri ræðu. Hefur auðsjáanlega verið haft fyrir skóbót fyrir ekki alls löngu, svo að letrið er nokkurn veginn greinilegt að eins á 2 fyrstu síðunum.

2. 2 blöð úr lítilli bók, með fagurri hendi ritað, ð alstaðar, sem það á að vera, lengdarmerki yfir löngum hljóðstöfum (á, í, ó o. s. frv.), z í þolsagnarmyndum, c fyrir k o. s. frv. Blöðin eru eptir þessu að dæma, ekki yngri en frá síðara hlut 14. aldar. Efnið er brot úr prjedikun. 1. og 4. síðan eru mjög máðar, því að blöðin hafa verið höfð í kápu utan um kver.

3. 1 blað í stóru broti, þar á er latínu söngur (preces in prostratione), sumt með nótum.

## № 359.

Safn af ýmsum ritgjörðum, flest eptir Magnús prest Grímsson á Mosfelli: I. Florilegium Dr. H. Skevings (þ. e. safn af útlendum orðum, sem höfð eru í íslenzku; vantar framan af). II. Um fjárkláðann. III. Söngfræði og nótur. IV. þríhyrningafræði. V. Ýmsar smáritgjörðir um ýmislegt, flestar óbúnar og um náttúrufræði. VI. Útskýring yfir kafla úr nýjatestamentinu (prestaskólafyrirlestrar) o. fl. VII. Byrjun á landafræði. — Innan í liggur brjef frá Bjarna Jónssyni rektor. — Allt eiginhandarrit.

## № 360.

Heft bók, er á eru ritaðar:

Alþingisbækur fyrir árin 1701-3, 1706-8, 1710; (Registur yfir forordningar og Cammerbrjef í þessum alþingisbókum frá 1700 til 1711) 1717. Brot af bókinni

fyrir 1712. Aptan við liggur lögþingisbókin fyrir árið 1771, prentuð á Hólum 1771; hefur verið eign G. Thorkelíns.

№ 361.

Söguþáttur af Landrjesi, systursyni Karlamagnúsar, skrifaður með nýlegri fljótaskriptarhendi, og á að vera þýddur úr ensku af herra Bjarna Erlingssyni úr Bjarkey.

№ 362.

Bók heft í skinnkápu. þar á er:

1. Ýmsar kristilegar hugleiðingar (útskýringar) eptir síra Jón Jónsson í Möðrufelli. Eiginhandarrit. 13 alls, en hafa átt að vera fleiri, því að titill þeirrar 14. stendur seinast.

2. Lærdómur um trúarbrögðin eptir A. H. Niemeyer (prent. Höfn 1802, þýddur 1811 með nokkurum athugasemdum, af síra Jóni. 128. bls. (Aptan við er brjef frá konrektor Páli Hjálmarssyni til síra Jóns, Hólum 21. maj 1814).

3. Um þá heilögu kvöldmáltíð eptir sama. Allt eiginhandarrit.

№ 363.

Bók í kápu, en upp úr bandi og í lausum örkum. þar á er:

1. Om det hellige Nadveres-Sacrament i et Brev. (Hefur upprunalega ekki heyrt bókinni til.)

2. Nokkrar hugleiðingar yfir guðlegs lífernis stóru nytsemi og mikilvægleika, ritaðar af síra Jóni Jónssyni í Möðrufelli til sóknarfólks síns árið 1807. Eiginhandarrit.

№ 364.

Ritgjörð eptir síra Jón í Möðrufelli er heitir: þankar til eptirþanka um ástand guðs kirkju á fyrri og síðari tímum, í 44 greinum, en ófullbúin. Óbundin og óheft. Eiginhandarrit.

№ 365.

Bók kápulaus, innheft, er á eru:

Andra rímur: fyrri partur («Endurbæta Andra ljóð»)

9 fyrstu ortar af Hannesi Bjarnasyni, 10. og 11. af Gísla Konráðssyni. 2 er. aptan við um Hannes eptir Gísla. Á eptir 13. rímu stendur: «Hjer endaði Bergsteinn». þá kemur síðari parturinn (14. ríma) eptir Gísla Konráðsson. 24 alls. þá er Viðbætir, 7 er. eptir Hannes. Allt er þetta eiginhandarrit Hannesar.

## № 366.

Bók bundin í kápu. þar á er: Gjörningabók postulanna (þýðing). Aptan við liggur ritgjörð: ex legibus antiquis Gragas, Af Arfbalken og ex legibus antiquis Járnsíða dictis arvetal; á dönsku.

## № 367.

Tvær arkir óheftar. þar á er:

1. Um orðið «allr dagr til stefnu» eptir Pál Vídalín; stutt inntak efnisins.

2. Upptalning þeirra orða í Jónsbók, er Páll Vídalín hefir skýrt. Eptir þessu tali eru þau 184.

3. Sama með danskri þýðing.

## № 368.

þykk bók í skinnkápu, fremur orðin losleg. Höndin greinileg snarhönd. þar á er:

1. Laxdæla saga. 124 bls.

2. Vatsdæla saga með annari hendi (— 196).

3. Sagan af þeim þorgeiri Hávarssyni og þormóði kolbrúnarskáldi.

4. Kormákssaga.

5. Sagan af Hrafnkeli goða. þar á eptir hefur verið ritað til fyllingar örkinni (6-7):

6. Historía um prest á Möðrudal á Fjalli.

7. Um ljúflings konu á Hóli á Fjalli.

8. Sagan af Ambales kóngi. Bókin hefur titilblað, og er þar No. 4 talið á eptir No. 5; 6-7 sleppt.

Saurblaðið er brjef frá Jóni Jakobssyni sýslumanni 20. sept. 1783 til Erlends Hjálmarssonar á Múkaþverárklaustri. Bókin hefur verið eign Havsteins amtmanns.

№ 369.

Bók í trjespjöldum og skinni utan um. þar á eru: Einar og aðrar hjartnæmar bænir samanteknar af guðhræddum mönnum. Skrifuð á Hólum 1682. Titilblaðið skrifað með rauðu og grænu bleki og dreginni umgjörð utan um. Höndin falleg. Öll upphöf með rauðu og grænu bleki.

№ 370.

þykk bók í trjespjöldum og skinni, hefur haft 2 spennla; nokkuð rotin og losleg. þar á er:

Sagan af Óláfi konungi helga, skrifuð með góðri fljótaskript. Vantar aptan af; endar í 325. kap. Aptan við liggja tvö blöð úr «Andvörpunum» (sálmum).

№ 371.

Bundin bók: Æfisögur og brjefasafn (á kilinum):

1. Lof lyginnar eptir þorleif skólameistara Halldórsson. Eiginhandarrit.

2. Safn af æfisögum, lagaboðum, fornbrjefum, testamentum, gjafabrjefum o. fl., safnað af Daða Níelssyni og skrifað með hans hendi, allt nema: ævisaga Hallgríms Pjeturssonar eptir Vigfús prófast Jónsson (bróður Finns biskups); hún er skrifuð af síra Jóni Konráðssyni. — Ýmsir kveðlingar eru þar og: um Laurus Gottrup. Um Geir biskup Vídalín, útl. eptir Hist. eccl. af Jóni Konráðssyni fyrir Daða.

3. Misfarir og voveiflega dánir í Fljótum, Siglu-, Hjeðins- og Óláfsfjörðum frá 1786-1840 eptir J. Jónsson.

4. Fátt eitt sem hefur til borið næstu ár hjer í landi (um 1749-58).

№ 372.

Dagbækur Jóns prests Reykjalíns eldra 1819-51.

№ 373.

Bundin bók með trjespjöldum og skinni utan um. þar á er:

Tíundarskrá eða decategraphia Jóns Árnasonar, rit-

gjörð móti tíundarskrifi Páls Vídalíns, skrifuð með fljótaskrift.

## № 374.

Bók í skinnkápu, en öll upp úr bandi. þar á er:

1. Bergþórsstatúta.

2. Ýmsar forordningar og brjef eptir 1700 ásamt ýmsum landslaga greinum og statútum. Hjónabandsartíkular Friðriks 2. Brjef Harbós til presta, Hólum 1743. Brjef Guðbrands biskups um dagsverk o. fl. Hólum 1606. Forordning om den isl. taxt og handel, og mart fleira.

3. Við fæðingardags endurminning 28. ág. 1799 eptir síra Jón í Möðrufelli. 50 greinir.

4. Frásögn eins prjedikara við eitt greifa hof um sína umvendan og síns embættis blessun, eptir sama.

Aptan við er brjef frá Sigfúsi þorleifssyni á Yztalandi 29. júní 1827 til móður hans; grafskript yfir Jakob Snorrason († 1839) eptir síra Jón. Æviatriði Gunnlaugs Briems. Grafskript yfir Jón sýslumann Jakobsson eptir síra Jón. — Lítill sjónarspegill («Hvað kom til jeg fá vil fræði») 6 er. Grafskript yfir Hall Sigurðsson eptir síra Jón. Borðbænir á latínu. þar að auk ýms prentuð blöð guðrækilegs efnis flest, á dönsku, þýzku og ensku.

## № 375.

Ósamfestar arkir, er á er rituð ritgjörð eptir Jón prest lærða í Möðrufelli um manninn eða samband guðs og mannsins; vantar titilblað; formálinn hefur aldrei verið fullbúinn, og ritgjörðin sjálf heldur ekki. Eiginhandarrit. Aptan við með annari hendi eru: Fáein og fáfróðleg annotata við gegnumlestur þess ypparlega rits Fornjótur &c., og standa undir þeim stafirnir S. Th.

## № 376.

þykk bók með trjespjöldum og skinni utan um; að mestu upp úr bandi og dálítið rotin. þar á eru:

1. Margra andagtugra fagurlega ortra kvæða og sálma bók samantekin og gjörð á xx ára tíma af síra Ólafi Jónssyni á Söndum. (Átta iðranakvæði; Lifnaðarspegill, Söngvísur; Kristsdilla, um dómsdag o. s. frv.). — þetta allt nær yfir 434 bls. Aptan við er vísa eptir síra Stefán í Vallanesi («hinn fyrra» ɔ: Ólafsson) um síra Ólaf («síra Ólafr á Söndum»). þar á eptir er «blaðvísir» (registur) yfir bókina, í stafrófsröð, eptir upphöfum kvæðanna.

2. Nokkur kvæði sál. sira Ólafs á Söndum ný til spurð, skrifuð með annari hendi, en fyrra safnið; 9 blöð, en vantar aptan af.

## № 377.

Bók í leðurkápu, er á er:

1. Evsebie triumphans seu religionis veræ & victricis laudatio Hauniæ 1774. Kvæði á latínu um hina sönnu og sigrandi trú.

2. Ritgjörð: de noctivagis (um náttförula menn) á íslenzku. þar á eptir er háskólaboðsrit 1779 prentað. 1—2 hefur upphaflega ekki heyrt bókinni til, sem að eins í rauninni er:

3. Annotata in evangelium Matthæi, Marci, Lucæ, Joannis (athugasemdir við fjögur guðspjöllin á íslenzku); ritaðar með fallegri fljótaskript.

Bókin hefur verið eign Jóns lærða í Möðrufelli, og þar á undan Magnúsar prests Erlendssonar á Hrafnagili.

## № 378.

Smásafn á óheftum örkum, er á eru:

1. Acta synodalia frá 1749, 1762 (brot).

2. Skjal frá rentukammerinu 24/3 1753 um fabrikkurnar o. fl.

3. Ýms circulaire-brjef Hallgríms prófasts Eldjárnssonar.

4. Reglement Friðriks V um extraskattinn.

5. Circulairebrjef Á. Þórarinssonar á Hólum (24/2 1785), útdráttur úr actis synodalibus (16/9 1785); circulaire Lewetzous til sýslumanna í suður- og vesturamtinu (13/1 1786). Vantar framan og aptan af.

№ 379.

Svar uppá spursmál hins konunglega íslenzka lærdómslista fjelags: «hve svo megi á flestum jörðum búa, að komist verði að mestu hjá útlendra matvæla kaupum», í 98 greinum (ófullbúið?), með formála, eptir síra Jón í Möðrufelli. — Aptan við liggur: sálmur um viðurkenning («Þú ert vor allrafrægsti faðir») með annari hendi.

№ 380.

Tvær ritgjörðir eptir Jón Jónsson, prest í Möðrufelli:

1. Eptirþankar, vaktir við yfirlestur þess nýja tímarits, er Fjölnir kallast. Mjög eptirtektaverð ritgjörð, sem sýnir skynsemi og óhlutdrægni Jóns í dómi sínum. Hann hefur verið einn af þeim fáu, sem Fjölni skildu, og var þá um áttrætt.

2. Ritgjörð á dönsku um húsfólk.

№ 381.

Bundin bók (trjespjöld og skinn) er á er Lækningabók eptir síra Einar Jónsson á Skinnastöðum.

№ 382.

Bók upp úr bandi, með trjespjöldum og skinni. Þar á er Sagan af Ólafi konungi Haraldssyni hinum helga, skrifuð með rjett laglegu settletri, og mjög bundin.

№ 383.

Bók í stóru grallarabroti skrifuð öll af Geir Vigfússyni á Akureyri, og hefur hann kallað hana Huld. Á henni eru alls konar rúnaletur málrúnir, töluletur, villiletur, galdraletur og galdrastafir. 61 síða.

№ 384.

Þykk bók í pappaspjöldum. Þar á er safn mikið af sögum og kvæðum ritað af ýmsum og á ýmsum tímum:

1-6. Sagan af Katli hæng, af Grími loðinkinna, af Örvar-Oddi, Vatsdæla saga, Finnboga saga, Vémundar saga og Víga-Skútu.

7. þáttur af þorsteini stangarhögg og Víga-Bjarna.

8-16. þáttur af Agli Síðu-Hallssyni, af Ölkofra, af þorgrími Hallasyni, Hrafni hrútfirðingi, Hreiðari heimska, Halldóri Snorrasyni, þorsteini forvitna, Hemingi Ásláks-syni, Stúfi skáldi.

17-24. Úr sögu þorsteins Síðu-Hallssonar, frá draumvitran og vígi þorsteins Síðu-Hallssonar, þáttur af Sneglu-Halla, af þorsteini tjaldstæðing, af Brodd-Helga, af Einari Sokkasyni, Viðauki við Færeyingasögu, sagan af þorsteini hvíta.

25. Hetjukvæði í 7 flokkum undir alls konar háttum, ritað 1832.

26. Hænsaþóris saga.

Smbr. Íslenzkar fornsögur II, formálann VI-VIII.

## № 385.

Uppteiknunartilraun skálda og lærðra manna íslenzkra, einkum rithöfunda, með stuttu æfiágripi nokkurra þeirra, samin af Hallgrími Jónssyni djákna til þingeyra klausturs. 500 síður auk registurs.

## № 386.

Bók bundin, er á er skrifaður orða samtíningur íslenzkra með dönskum þýðingum; eru þau tekin úr Eddunum flest. Skrifað af dönskum manni, er líklega hefur verið einhver Levinsen. Bókin er keypt á uppboði yfir á Jótlandi.

## № 387.

Bundin bók, er heitir: Ýmislegt kvæðasafn og þulur samantínt veturinn 1858 úr ýmsum gömlum skruddum og fornritum eptir ýms góð skáld forn og ný, af Geir Vigfússsyni á Akureyri.

Framan við er yfirlit efnisins skrifað:

1. Aldarháttur, ortur af Jóni Hjaltalín 1809 («Áður á tíðum hjá Týlbúum stríðum»).

2. Aldarháttur, kveðinn af þorbirni bónda Salómonssyni á Álptartungum («þögn eykur kalda») 24 er.

3. Aldarháttur, ortur af Níelsi skálda Jónssyni («Öld frama metur») 34 er. 2 vísur um Níels á eptir, eptir Daða fróða.

4. Kveðlingar Sveins Sölvasonar lögmanns og Magnúsar Einarssonar, prests á Tjörn, út af skáldunum Guðmundi Bergþórssyni og þorláki Vídalín. Ásamt vísum Páls Bjarnarsonar um þjóðskáldin þorlák Vídalín, Árna Böðvarsson og Hallgrím Pjetursson.

5. Hugarfundur, ortur af Magnúsi Einarssyni á Tjörn («Mart kann buga heims í höllu»). 40 er.

6. Kvæði um útgáfu Hallgrímssálma á Hólum 1706 («Nú er Norðlinga sómi»).

7. Fólkstal í Múla, ort af Ingjaldi presti Jónssyni («Mikinn fjölda manna bar»).

8. Skellisvísur eptir Hjalta Bjarnason («Mín er lyst við mærðar stjá») 9 er.

9. Grílukvæði eptir síra Gunnar Pálsson («Hjer er komin Gríla, úr grafvitnishól»).

10. Nýjársvísur 1808, ortar af síra Jóni Ormssyni («Nýtt ár, nú ber oss að höndum»).

11. Vetrarvísur eptir Össur Össursson («Sumarblíðan færist fjær») 22 er.

12. Ofsjónir eptir síra Jónatan Sigurðsson («Eitt sinn með innbyrling»).

13. Um eineygða Fjölni 1839, eptir Níels Skálda («Forna satan sagði»).

14. Um aftekning messu og hátíðardaganna 1771, eptir síra þorlák þórarinsson («Gustar enn á Garðars láð»).

15. Tvær vísur um Árna Böðvarsson, eptir Tómas

Tómasson («Árni þegar ýtir») og Gunnar Pálsson («Gæða skáldið getið og fætt»).

16. Vísur um eptirhermu eptir þorlák þórarinsson («þú ert kall minn») 5 er.

17. Um þjóðhagann Klemens Bjarnason, eptir Daða Níelsson («Góðum smiðum hæfir hrós») 21 er.

18. Sorgarminning tíkarinnar á Bessastöðum eptir Pál skálda («Að mart sje víða margfalt lýða bölið») 139 er.

19. Letivísa eptir síra Gunnar Pálsson («Latur skipar lötum»).

20. Um næturgisting, eptir síra Hallgrím Pjetursson («Mig bar að byggðum seint á degi»).

21. Stökur við morð Natans og Pjeturs eptir Gísla Konráðsson («Hræðilegur voðavegur»).

22. Vísa eptir Staðarhóls Pál við konu hans («Ef leiðist greyi að ganga»).

23. Hrómundarbrjef; í óbundinni ræðu.

24. Ögmundargeta, ort af Guðmundi skáldi Ketilssyni («Af því jeg hefi nú eignazt hana»).

25. Skundalýsing («Nú er Skundi kominn í kór»).

26. Brjef frá Sigurði dalaskáldi til Leirulækjar-Fúsa («Hjartans blíða heilsanin»).

27. Skellisvísur, (aptur).

28. Ýms ljóðmæli eptir Sigurð Breiðfjörð (Níðings afdrif; Kvennagaldur; Unga hetjan; Til R. Bogadóttur; Brúðkaupsvísur; Mannslýsing; Kveðið á glugga; Um Sigurð á Hjalla; Æfisögubrot; Um Kark; Dýrbítur á Eyri; Nokkrar vísur (Kvásis sýg eg ben og blóð); Draugamál; Hallgerðarhrós, með svari Gísla Konráðssonar).

29. Skundavísur aptur.

30. Stuðlaljóð («Vekur stríð vols tíð»).

31. Nóakvæði eptir E. B. s. («Herra Nói, Herra Nói»).

32. Nokkur kvæði eptir Ólaf Briem (Nirfilsafdrif; Einfeldni; Allir eru breyskir).

33. Vinafundur («Vinafundurinn verður efni»).

34. Ýmsar vísur (Dísudráttur; Hildarsig; Nafn í deilum; Stjarnaheiti; Árstíðamerkingar eptir síra Þ. Þ. Bæjanöfn í 5 er.; Kvennanöfn og mannanöfn í 3 er. Bæjanöfn 1 er. Mannanöfn í 3 er. Vísa, rjett og öfug).

## № 388.

Stutt ágrip úr rjettritabók Íslendinga, samantekið 1762. Ritað eptir eiginhandriti höf. Eggerts Ólafssonar.

## № 389.

Ýmislegur samtíningur af skólaræðum og öðrum ræðum á latínu og ísl., og öðru fleiru, svo sem lat. þýðingu á Skíðarímu o. fl. lat. ljóðmælum («Á bitunum»), kvæðið: Draumsagnardæla, gamantals gæla, andvökufæla o. s. frv.

## № 390.

Elegantiarum latini sermonis præceptiones, eptir Georg Vogelmann á latínu.

## № 391.

1. Brot af veraldarsögu (fornöldinni) og tímatal aptan við eptir Jón Espólín og með hans hendi.

2. Ritgjörð á latínu eptir «Theodorus Thorlacius» um Grænland (Groenlandiæ descriptio) samin árið 1668.

3. Brot úr biskupanna projectum, byrjar á kap. XXI: Um kirknanna tilsjón, inntektir, útgiftir og byggingar með danskri þýðing.

4. Stutt ágrip um laganna reformatión á Íslandi, eptir Jón sýslumann Magnússon.

5. Um heimiliskviðarvitni, skrifað 1677, o. fl. um lög.

6. Nokkrir laga diskúrsar eptir Halldór sýslumann Einarsson.

7. Um gjafir (tilgjafir, vingjafir próventugjafir o. s. frv.).

## № 392.

þykk heft bók. þar á eru:

1. Registur yfir forordningar og brjef frá því á dögum Magnús kóngs til 1814. Yfir forordningar, resólútiónir og bekendtgörelser, sem innfærðar eru í lögþingisbækurnar frá Anno 1773 til 1800.

2. Ýms brjef og forordningar á dönsku frá 1619 og allt niður til þessarar aldar, svo og ýms önnur opinber skjöl á íslenzku.

## № 393.

1. Ritgjörð á dönsku, sem heitir Rationalisterne (um Skynsemistrúarmenn) í 63. greinum með athugasemdum.

2. Ritgjörð á móti Rask á dönsku með hendi Jóns Konráðssonar (?).

## № 394.

Túllíns Söfart útlögð úr dönsku árið 1774. — Túllíns «6. maji», þýtt, og fleiri kvæði, sum á dönsku.

## № 395.

Ýmislegur samtíningur:

Excerpta úr vikublaðinu «Dagen» og fleiri dönskum blöðum, enn fremur úr ritum Suhms o. s. frv., úr theatro historico; nokkur «forntöluð rjettmæli úr norrænu», o. fl. smávegis, ómerkt.

## № 396.

Formáli Laxdælasögu, sem útgefin var 1826, með hendi Jóns Konráðssonar.

## № 397.

Ýmislegur samtíningur af ýmsum konungabrjefum, skjölum, athugasemdum við nýjatestamentið og mart fleira.

## № 398.

Ritgjörð á lat. um vikuna; og kirkjusaga á latínu.

## № 399.

Útlegging á og athugasemdir við ævisögur Corn. Nepos.

### № 400.

Ýmislegur samtíningur: ljóðmæli á lat. og ísl.; ýmisl. úr landafræði og lat. málfræði o. s. frv.

### № 401.

Spjaldalaus bók, er á er:

þýðing á Corn. Nepos, með hendi Jóns Konráðssonar.

### № 402.

Svíaríkis saga frá Gústav Vasa.

### № 403.

Samtíningur af ýmsu úr málfræði, þýðingum yfir Nepos, ýmsu úr læknisfræði o. s. frv.

### № 404.

Skýringar Hálfdans Einarssonar yfir Compendium theologiæ theticæ eptir M. Wöldike, skrifaðar af Halldóri Hjálmarssyni. Á latínu.

### № 405.

Forsög til et Bidrag til forstaaelig Forklaring over Aabenbaringen eptir Jón Espólín, eiginhandarrit. Og ýmislegt fleira ómerkt.

### № 406.

þýðing á smáljóðum Joh. Oweni, nokkuð úr söngfræði. þýðingar úr Nepos o. fl., allt ómerkt.

### № 407.

Ýmislegur samtíningur. Hrossadómar, lýsing á Grænlandi, konungabrjef, og mart fleira smávegis, sögulegs og lagalegs efnis, sumt með hendi Jóns Konráðssonar.

# III.

# Handrit í átta blaða broti.

---

## № 365.

«Stuttur leiðarvísir til að lifa farsællega, í hverjum reglur ráðvendninnar, rèttlætisins, siðseminnar, hyggindanna og kurteisinnar, að svo miklu leyti sem þær kunna að þekkjast af eigin skilningi, verða fyrir sjónir settar á hinn skiljanlegasta hátt ung-börnum til uppfræðingar. Skrifaður i þýzku af Friðerich Genzken, Professore Philosophiæ í Academia Christian-Albertina. Á íslenzku útlagður 1727», 318 blss.

Íslenzka útleggingin á kveri þessu er eptir Jón Thorkillius; á annari hvorri blaðsíðu er þar á móti latínsk útlegging eptir einhvern af lærisveinum hans (G. T. S.?).

Íslenzkan á bls. 249 til enda og svo titilblaðið hið íslenzka er skrifað með hendi, er sýnist vera sira Engilberts Jónssonar á Lundi.

Kver þetta hefur sira Brynjólfur Sigurðsson á Útskálum átt 1810, og sonur hans sira Einar eptir hann.

## № 366.

Tíðavísur fyrir árin 1800 til 1815, eptir síra Þórarinn Jónsson í Múla í Aðalreykjadal († 1816). Uppskrifaðar árið 1824.

Aptan á titilblaðinu eru tvær vísur um tíðavísurnar, án efa eptir afskrifarann, sem þar skrifar sig P. R. S.

## № 367.

Kver með hendi þorsteins kaupmanns Jónssonar í Reykjavík með ýmsum útlendum smásögum íslenzkuðum; svo sem:

1. Móðir Hulda; 2. Rósahúsið; 3. Almansor; 4. Sá hvíti og hinn svarti maður; 5. Sagan um byssumangarann (með hendi sira Sveinbjarnar Hallgrímssonar); 6. Huldupapagöjinn; 7. Sagan um Búbú (ekki heil); 8. Óskirnar hennar Emmu; 9. Mannætan (vantar niðurlagið); 10. Ernst Greifi af Gleechens; 11. Hertogi Lodvík frá Brieg og þènari hans; 12. Svanaturninn í Kleve; 13. Sú eðallynda Jóhanna; 14. Sá eðallyndi gyðingur (brot framan af).

## № 368.

Kver, innbundið, er virðist vera skrifað um 1778. þar er á:

1. Barndómsrímur Krists, eptir sira Guðmund Erlendsson í Felli (sbr. Hrsk. bls. 126, 140, 141 og 214).

2. Kvæðið «Geðfró» («Faðir sonur og friðarins andi» o. s. frv.), smbr. Hrsk. 1869, bls. 50, 182, 183, 199 og 206.

3. «Ein vísa». («Efna skal hèr óðs safn» o. s. frv.), 22 err.

4. Vísa dróttkveðin («Ei megna eg hjá þegnum» o. s. frv.).

5. Nokkrar vísur («Sómagjarn sira Bjarni» — «Nú vill að duna nauða tíð» — «Náði oss drottinn nauðum í» o. s. frv.).

6. Kvæði, með viðkvæði: «Meistarann lofar verkið vel» o. s. frv.), («Dvalins haukur rastar renni» o. s. frv.), sbr. Hrsk. 1869, bls. 139, kallað þar Stólskvæði.

7. Um nokkra steina og jurtir.

8. Heimspekingaskóli Guðmundar Bergþórssonar, sbr. Hrsk. 1869, bls. 49, 142, 145, 156 og 179.

9. Einvaldsóður sira Guðmundar Erlendssonar á Felli í Slèttuhlíð, fjögur seinustu blöðin með hendi Jóns

Bjarnasonar í þórormstungu; smbr. Hrsk. 1869, bls. 62, 116, 119, 145, 148, 162, 197, 199, 216.

10. Tvö fyrstu blöðin og tvö hin síðustu eru einnig með hendi Jóns Bjarnasonar; og þar á eptir ýmislegt úr stjörnufræði.

## № 369.

Kver, lítið, með hendi Níelsar Jónssonar skálda, 116 bls. þar er á:

Kvæðið: Bacchus og Naide, ort 1826, með formála Níelsar og nokkrum dróttkveðnum vísum aptan við, eptir hann; sbr. Hrsk. 1869, bls. 210.

## № 370.

Kver, innbundið, með ýmsum höndum; sumt nýlega skrifað, en sumt er frá síðustu öld. þar er á:

1. »Heilög hljóðmæli og einmæli við guð sinn að eiga, honum til vegsemdar en sálunni til skemtunar» («Drottinn dýrðarskær» o. s. frv.), eptir sira Jón Magnússon í Laufási, 396 vers.

2. Kirkjuvígslu sálmar, tveir («Upp, upp hvað hefur andardrátt» o. s. frv. — «Ó drottinn allsvaldandi o. s. frv.).

3. Einn góður sálmur («Ó guð og faðir allra náða» o. s. frv.).

4. Sálmur um himnaríki («Æ, mig örþyrstir, eptir himna dýrð» o. s. frv.).

5. Átta andleg vers, með ýmsum lögum. (4-5 og mest af 3 sýnist vera með hendi Hallgríms djákna).

6. Jólavers («Fæðingu Jesú fagni menn» o. s. frv.). (Hèr eptir stendur, að Solveig Halldórsdóttir eigi blöðin 1813, með sömu hendi og versið).

7. Englabrynja («Andlegur andi og herra» o. s. frv.), eptir sira Jón (Daðason) í Arnarbæli, 26 erindi; skrifað af J. J. B., þá 12 ára.

8. Kvæði, ort 1600 («Mildi Jesú Maríu son» o. s. frv. Viðkvæði: «Sæti Jesú sálina mína náði»), 9 erindi.

9. Vers, þrjú, eptir Mad. Elínu Brynjólfsdóttur á Auðkúlu («Í Jesú nafni jeg vil byrja daginn» — «Í J. n. j. v. í kirkju ganga» — «Í J. n. j. v. fara að sofa»); og eitt eptir sira Markús Pálsson á Auðkúlu (Kraptur Jesú kvala og dauða» o. s. frv.).

10. Brúðkaups vísur, eptir sira Jón Hjaltalín («Hýrir gestir hèr að borði» o. s. frv.), virðist vera frumritað.

11. Kvennaprís («Mærðar æðin meðan ei frýs»), 54 err. Hèr eignaður Birni Jónssyni á Skarðsá; smbr. Hrsk. 1869, bls. 178 og 192. (Undir kvæðinu stendur: Guðlaug Erlendsdóttir á þenna kveðling).

12. Vinavísur Björns á Skarðsá, (Æfintýri), 50 err.; sbr. Hrsk. 1869, bls. 154 og 212.

13. Hrakfallabálkur sira Bjarna Gunnarssonar, að eins 2 blöð, upphafið og niðurlagið; sbr. Hrsk. 1869, bls. 139, 154, 168, 229.

14. Langlokur, þrjár («Karla-Magnús mætti» — «Ræðu ruglið staka» — «Ferjum dvalins fram hèr»).

15. Vísa eptir sira Narfa (Guðmundsson) í Möðrudal, kveðin tveim árum fyrir stóru bólu, 1705. (Vísuna vantar).

16. Sendibrèfs vísur («Ókvongaður geira grèr» o. s. frv.), kveðnar fyrir vestan; og vísur um þær kveðnar fyrir norðan, 1734 («Af högum kveðinn hefi eg hèr» o. s. frv.).

17. Erfiljóð eptir Hannes biskup Finnsson («Hvað veldur Ísland að» o. s. frv.), eptir Magnús Stephensen; skrifuð eptir prentuðu.

18. Leirgerðarvísurnar.

19. Vísur um Nýju sálmabókina, er kallast: «Exscitus», «Glorría» og «Sockventría» (1. «Gott er að lifa, hann gamli fjandi» — 2. «Heiður Leirgerði háleitan» — 3. «Ekki er allt gull sem glóir»).

20. Kvæði, ort undir nafni Íslands til Ólafs Ólafssonar, lektors í Kongsbergi í Noregi («Á friðarríkum Friðriks degi» o. s. frv.), 15 err.

21. Hugspá («Lögmaður og meyja, hann Magnús og hún Guðrún» o. s. frv.), 10 err.

22. Saknaðar tal J. E. S., eptir kaupmann J. G. Freywaldt, er druknaði í Kolbeinsdalsá 28. Juli 1788 («Hvernig er umhorfs autt»), 14 err. (þar eptir seinasta erindið úr «Hugspá»).

23. Grobbíans rímur («Mörgum virðist fróðleiks frægð» o. s. frv.). Rímurnar eru hèr fimm (1-4. ríma og 6. ríma). Endir 4. rímu: «Rek eg þannig rembihnút á rollu kvæði, að enginn viti Authors heiti, eptir þó að margur leiti». Síðan stendur: «Endir á þessu, en vantar þá 5. rímuna, sem er útlegging yfir þær framanskrifuðu». Við 6. rímuna (um löggjöf Grobbians til launsonar hans) stendur, að hún sè síðar viðbætt af öðrum; sbr. annars Hrsk. 1869, bls. 51 og 157.

24. Nokkrar hestvísur, þar á meðal Gránuvísur sira Páls á Undirfelli.

25. Nokkrar lausavísur, þar með ein af hinum svo kölluðu heimslysta vísum.

26. Skáldavísur («Bæsár hringa bör á sting» o. s. frv.)

27. Kappakvæði Guðmundar Bergþórssonar («Eg sá þá ríða» — «þeir vilja mínum fundinum ná»); vantar upphafið, (byrjar á Flóres), hèr er einu erindi bætt aptanvið af öðrum.

28. Skop og alvara, móti sálminum: «Sælir minn frægi sira Greppur («Mynd bar fyrir mig í nótt»), með athugasemd um Centauros; («Ó hvað prýðir Íslands þjóð» o. s. frv.).

29. Skautaljóð Guðmundar Bergþórssonar («Kátir margir kýma að því» o. s. frv.); og kveðlingar Þórðar Halldórssonar á Öndverðarnesi og Sigurðar Pálssonar í Skógarnesi, og svör Guðmundar þar til; seinust er vísa Páls Vídalíns um Skautaljóð («Skoðað hefi eg skautaljóð» o. s. frv.).

13. Bænarvers, sex («Eilífi drottinn andvarp mitt» o. s. frv.).

14. Sú stynjandi dúfa, eður andvarpanir trúaðrar sálar og andsvar guðs úr heilagri ritningu («Abba faðir elskulegi» o. s. frv.), kvak dúfunnar í 70 versum og guðlegt andsvar til hvers, alls 140 vers.

15. Hirðirinn Jesús og sá frávilti sauður («Hvar er minn sauður hvers eg leita» o. s. frv.), eptir sira H(elga) B(enediktsson?).

16. Sálmur um þá heilögu kvöldmáltíð («Ó hvað Jesú elskan heita» o. s. frv.).

17. Sálmar, tveir («Ó Jesú meyjar sanni son» — «Enn er dags tíð heims horfin lýð»).

18. Bænarsálmur, eignaður sira Magnúsi Einarssyni á Tjörn («Blessaði Jesú bótin nauða» o. s. frv.).

19. Náðar hrós, sama og 388,58.

20. Umþenking dauðans («Ó hvað fljótt mannleg æfin þver» o. s. frv.).

21. Huggunarvers («Þú sem öll hjörtu þekkir» o.s.frv.).

22. Andvarp trúaðrar sálar («Jesú í náðar nafni pínu» o. s. frv.); þar eptir 6 vers; þar af 4 kvöld- og morgunvers.

23. Andvarp kristninnar undir Krists kross («Krossfesti Jesú kem eg hèr» o. s. frv.), eignað sira Magnúsi á Tjörn, sbr. 387,12; og líklega með hans hendi; þar með nokkur vers, einnig eignuð sira Magnúsi.

24. Sálmur út af Krists pínu («Hvernig eru þau umskiptin» o. s. frv.), eptir Þorberg Þorsteinsson.

25. Vinavísur Björns á Skarðsá («Vizku drottinn veittu mèr»).

26. Andlegir sálmar ýmsir og vers; einn («Guðs til gæða harms úr nauðum») eignaðir sira Magnúsi.

27. Nýjárs sálmur («Nýjárs upprunnin nú er enn» o. s. frv.).

28. Stafrofssálmur Þorbergs Þorsteinssonar («Auga þitt set þú sál mín á» o. s. frv.).

29. Bæn þá er maður gengur til guðs borðs, í sundurlausu máli.

30. Bæn í samstæðum («Hjartkærasti herra Jesú Christe» o. s. frv.).

31. Bænarvers («Eilífi faðir allra náða»), eignað sira Magnúsi á Tjörn.

32. Bænarsálmur («Svo sem barnið sjúka leitar» o. s. frv.).

33. Bæn út af pínu Krists, í stefjum («Heilagasti herra Jesú Criste»), hèr eignuð sira Magnúsi; sbr. annars 30 á undan.

34. Sálmar, sjö, út af orðum Krists á krossinum («Sál mín í guði gleð þú þig» o. s. frv.).

35. Jólabæn, í stefjum («Jesse kvistur Jesú minn nýfæddur»).

36. Nýjársbæn, einnig í stefja máli («Ó þú Jesús, Jesús eðla góði»).

37. Bæn út af Jesú nafni, sálmur («Höfðingi friðar ágætasti» o. s. frv.).

38. Sálmur («Dýrð vil eg hèr drottins hefja» o. s. frv.), eignaður sira Magnúsi á Tjörn.

39. Kvæðið «Skjöldur» («Faðir á himnum faðir þjóða»), eptir sira Eyjólf Bjarnason, sbr. III, 242,7; 335,6.

40. Huggunarsamleg umþenking Jesú pínu («Góði Jesú gæzkuríki bróðir» o. s. frv.).

41. Bænar sálmur, eignaður sira Magnúsi á Tjörn («Mæni' eg einmana, minn Jesú til þín» o. s. frv.).

42. Sálmar, tveir («Ó þú kongur engla og manna» — «Herra Jesú hjálpin dýra»).

43. Líkprèdikun yfir Guðrúnu Þorláksdóttur, móður Björns, sem safnaði þessari bók, og tvö vers, með hendi sira Magnúsar á Tjörn, eins og sumt fleira í bók þessari.

44. Barnaber («Herrann Jesús himnum á» o. s. frv.), sbr. III, 338,2.

45. Nokkrar lausavísur.

46. Almanaks vísur sira Þorláks Þórarinssonar á Ósi, sbr. 388,55, virðast ekki vera þær sömu.

47. Borgmeistara kvæði («Firðum bæði og falda ungri gefni» o. s. frv.). Hèr fylgja nokkur laus blöð, sem ekki hafa tilheyrt bók þessari; og þar á:

48. Bænarsálmur, gamall («Gæzkuríkur guð og faðir» o. s. frv.).

49. Sálmur, eptir Bjarna Þórðarson (á Siglunesi á Barðaströnd?) («Jesú þú ert mitt líf og ljós» o. s. frv.), og nokkrir fleiri sálmar og vers; vantar í á sumum stöðum.

## № 390.

Sögukver, skrifað, að mestu leyti, um 1726, talsvert bundið. Þar er á:

1. Sagan af Dínusi drambláta, 29 kapitt. (Aptan við söguna er ein blaðsíða með nokkrum rímna brögum.

2. Búa saga eður Kjalnesinga saga, vantar aptan af (nær fram í 9. kapitula).

3. Þáttur af Grími loðinkinna, án kapitula skipta.

4. Þáttur af Jökli Búasyni, 3. kapitt.; hingað að er allt með sömu hendi (1726), og er seinni parturinn með nýrri og lakari hendi.

5. Þáttur af Fástus og Ermená, fram í 8. kapit.

6. Cedras rímur Indía konungs («Meistarar fróðir mannvits grein» o. s. frv.), 5 að tölu. Þrjár fyrstu rímurnar eru eptir Jón Eggertsson (á Ökrum), en tvær hinar síðustu eptir sira Eirík Hallsson.

7. Sorgarljóð eptir Jón Pálsson (Vídalín), sýslumann í Vaðlaþingi († 1727) («Enn rökkvar, enn grátur heyrist» o. s. frv.), ort af Þorsteini Jónssyni.

8. Önnur einnig, á latínu.

9. Sorgarvers eptir Jens Madson Spendrup sýslumann í Hegranesþingi († 1735) («Sorg fæðist, flestir syrgja» o. s. frv.), ort af Steini Jónssyni biskupi.

10. Tólf kynþættir Juda, saga um straff og pínu, sem þeir verða að líða vegna pínu Krists.

11. Höfuðmerki hvers dags í vikunni.

12. Reisuvísur bræðranna, sem fóru að leita Kolbeinseyjar 1646 (Kolbeinseyjar vísur) («Rituðust áður rímur og sögur» o. s. frv.), sbr. III, 67,3.

Kver þetta hefur verið í eigu Jóns Gíslasonar á Böggvistöðum 1766.

## № 391.

Kver, að mestu leyti nýlega skrifað, sem þorsteinn þorsteinsson á Upsum hefur safnað, og látið binda 1861. þar er á:

1. Hallgerðar hrós («Margur fær af litlu lof» o. s. frv.), eptir Sigurð Breiðfjörð.

2. Svar þar upp á («Sigurði Breiðfjörð svar í tè» o. s. frv.), eignað Gísla Konráðssyni.

3. Sendibrèf Sigurðar Breiðfjörðs til Gísla Konráðssonar, og svar hans (hin alþekktu).

4. Drauga ríma Sigurðar Breiðfjörðs («Sona er nú sagan heil» o. s. frv.).

5. Messudiktur, kveðinn af sira Jóni Magnússyni í Laufási («Eðalmaður einn var sá» o. s. frv.), sbr. Viðb. Nr. 66 (hjá Deildinni í Reykjavík).

6. Sálmur, kveðinn af Sigríði Jóhannesdóttur («Salve mín sanna» o. s. frv.), skrifaður 1740.

7. Nokkur vers, andleg («Sæti Jesú sálar minnar» o. s. frv.), með sömu hendi.

8. Kvæði, eignað Gísla Konráðssyni, og kallað «Viðsjá», með viðkvæði: «það er neyðin þyngsta mèr, þrek ef enginn bíður, þá frelsis raddir hljóma hèr, heyri það lýður, heyri það allur lýður». Upphaf: «Hvað á lengi eldsköpt eyja» o. s. frv., 38 err.

9. Vísur, tvær, úr sendibrèfi, eptir hinn sama («Snjólaus grundin enn þá er» o. s. frv.).

10. Kvæðið «Barnagæla» («Kenna vil eg kæri son» o. s. frv.), eignað Jóni Guðmundssyni á Hellu á Árskógsströnd. þetta er ekki sama og kvæðið með því nafni í III, 68,7.

11. Sigurhrósun hinnar endurleystu Jesú brúðar G. H. D. («Sælir í guði sèuð þið» o. s. frv.).

12. Vísur, tvær, eptir Ólaf Briem, önnur um börn hans («Hvað Grundar börnin gera» o. s. frv.).

13. Um Gratia probatum og Terpentín-oliu.

14. Eðlis útmálan manneskjunnar.

15. Næturgisting sira Hallgríms Pèturssonar («Að bygðum eitt sinn bera seint mig náði» o. s. frv.).

16. Önnur næturgisting («Mig bar að bygðum seint á degi» o. s. frv.), eptir hinn sama.

17. Langloka, eptir sira Brynjólf Halldórsson («Fór eg eitt sinn ferða minna á Skaga» o. s. frv.).

18. Langloka um Eyjafjörð og útkjálka, eptir sira Magnús Einarsson (á Tjörn) («Fagurt skín í Firði eyja» o. s. frv.).

19. Vers um æfi mannsins («Fæðast, gráta, reifast, ruggast» o. s. frv.).

20. Versið: «Aldrei skal eg elska heiminn»; og tvö önnur einstök erindi.

21. Samstæður sira Hallgríms Pèturssonar («Opt er ís lestur» o. s. frv.).

22. Gáta (Maður sæll mèr það tjáði? (tjáðu)».

23. Vísa við heiðarruðning, eptir Jón Hallgrímsson á Karlsá («Mörg falleg heyhella» o. s. frv.), og önnur vísa, eptir hinn sama.

Hið síðasta í kveri þessu (12-23) er allt nýlega skrifað á eyðublöð í «kontrabók» þorsteins.

## № 392.

Kver skrifað á síðustu öld, og kallað «Upsabók». þar er á:

1. Víglundar rímur («Skortir en þann skemtun lèr»

o. s. frv.), 5 að tölu. Rímur þessar eiga að vera 15, og eru eptir Ásgrím í Höfða Magnússon, sbr. II, 200,1.

2. Hrakningsríma («Skáldin hafa skilningsgóð» o. s. frv.), kveðin af Þormóði Eiríkssyni.

3. Kongshugvekja («Þögnin ekki gjörir gagn» o. s. frv.) (= 32).

4. Kvæði, ort og útlagt úr þýzku af sira Jóni Arasyni í Vatnsfirði («Ein greifa dóttir fögur og fín» o. s. frv.).

5. Annað kvæði, eptir hinn sama, («Í Róm bjó ríkur greifi» o. s. frv.).

6. Vísa («Sárateins er sorfin egg» o. s. frv.).

7. Frèttir frá Kaupmannahöfn 1765, í sundurlausu máli.

8. Ekkjuríma («Semja skal hèr sónar vín» o. s. frv.).

9. Kvæði til stúlku. Viðkvæði: «Þinn fundinn þorngrund». Upphaf: «Ekki er efnið annað mín» o. s. frv.).

10. Annað kvæði. Viðkvæði: «Elski þig Jesús og annist þitt ráð». Upphaf: «Þèr gefi gleði blíða» o. s. frv.).

11. Enn eitt kvæði. Viðkvæði: «Almargur hugsar hofmann eg er». Upphaf: «Stoltir plaga að stíga um rist» o. s. frv.

12. Vísa («Jesús hjálpi mildur mèr» o. s. frv.).

13. Kvæði. Viðkvæði: «Margur þetta klókur kann». Upphaf: «Æfintýrið eitt eg sá» o. s. frv.

14. Kvæði af stigamanni. Viðkvæði: «Gæt erinda gakk frá heimsins solli». Upphaf: «Einn spillvirki áður lá».

15. Erindi, tvö úr Ekkjurímu (seinustu).

16. Vísa («Askurinn segir: eg stend kyr» o. s. frv.).

17. Vísur («Ferðast hlýt eg fákinn með um fjöll og dali» o. s. frv.).

18. Vísa («Askurinn minn er innar á skák» o. s. frv.).

19. Vísa («Þó eg vili görpum nú til greiða vera» o. s. frv.).

20. Bóndakonu ríma («Dvalins læt eg dælu jór» o. s. frv.), eptir Jón þorsteinsson í Fjörðum.

21. Rímur, fjórar, af Agöttu og Barbáru. («Mörg hafa skáldin liðug ljóð» o. s. frv.).

22. Skilnaðarminni sira Jóns þorsteinssonar í Vestmannaeyjum til Jóns sonar hans (Vestmanns) («Að iðka gott með æru» o. s. frv.).

23. Stafrofssálmur þorbergs þorsteinssonar («Auga þitt settu sál mín á» o. s. frv.).

24. Nýjársgjöf sira Ólafs Guðmundssonar til síns sóknarfólks, sálmur («Himneski faðir þóknist þèr» o. s. frv.).

25. Annáls kvæði («Fjölnis læt eg flæða gamm» o. s. frv.).

26. Draumur Guðrúnar Brandsdóttur í Stagley (1762); þar eptir framhald af Annáls kvæði (25).

27. Kvæði um tóu og hana. Viðkvæði: «Fagurgalinn blakar blítt». Upphaf: «Í veðri köldu um vetrar tíma».

28. Kvæði. Viðkvæði: «Vitur er að sönnu sá». Upphaf: «Adam fèll í þunga þraut» (brot).

29. Laugardags kvöldsálmur («Guð gefi oss öllum góða nótt» o. s. frv.).

30. Morgunsâlmur («Til þín upp lít eg árla sálar augum mín» o. s. frv.) (brot).

31. Æfiraun («Æfisögu sína» o. s. frv.), sbr III, 223,6.

32. Kóngs hugvekja («þögnin ekki gjörir gagn») (= 3).

33. Annáls kvæði, (sama og 25).

34. Annað annáls kvæði («það er lofs og þakkarvert» o. s. frv.).

35. Barbarossa kvæði («Keisari nokkur mætur mann» o. s. frv.), 12 err.

36. Kvæði af æfintýri (Tólf sona kvæði) («Fyrðum bæði og falda ungri gefni» o. s. frv.), 36 err.

37. Kvæði. Viðkvæði: «Margt hef eg gjört á móti þèr». Upphaf: «Lystir mig í ljóða ranni», 13 err.

38. Kvæði, eptir síra Bjarna Jónsson á Mælifelli, ort 1781 («Margar eru mæður lýðum» o. s. frv.). Viðkvæði: «Langsorgir líða».

39. Engils óður («Hlýði þeir sem hugsa um kirkju göngu» o. s. frv.), 59 err.

40. Kvæðiskorn. Viðkvæði: «Fagurt galaði fuglinn sá». Upphaf: «Æfintýrið eitt eg inni».

41. Prèdikan.

## № 393.

Kver, lítið, skrifað á þessari öld, með hálfsettri hendi. Þar er á:

1. Pílatus rímur («Yggjar þröstur ofan snýr» o. s. frv.), eptir sira Guðmund Erlendsson í Felli, 5 að tölu, sbr. II, 183,1.

2. Nicodemusar Evangelium, hèr skipt í 50 kapitula.

3. Heródes rímur («Sónar lög úr sagna dal» o. s. frv.), eptir sira Guðmund Erlendsson í Felli, 5 að tölu; sbr. II, 183,2.

(Bók þessi hefur 1840 verið í eigu Halldórs Þorkelssonar á Urðum.)

## № 394.

Rímna kver, lítið. Þar er á:

1. Jesú rímur («Ei mun gott að uppi kyr» o. s. frv.), eptir sira Guðmund Erlendsson í Felli, 10 að tölu.

2. Vísur, ortar af Jóni Arasyni, eptir sira Þórð sál. (Jónsson) á Völlum («Æ, mitt angur ei vill þverra» o. s. frv.).

## № 395.

Sögukver, skrifað seint á síðustu öld. Þar er á:

1. Saga af Culuf, án kapitula skipta.

2. Saga af Amalíu drottningu, 17 kapitt.

3. Vísa («Dalsins út á ána» o. s. frv.).

4. Saga af Gríshildi góðu, 11 kapitt. (vantar framan af fyrsta).

5. Saga af Göngu-Hrólfi, 36 kapitt.

№ 396.

Graduale eður hin almennilega messusöngsbók, með nótum; skrifað eptir prentuðu, 191 blað, vantar aptan af registrinu.

№ 397.

Rímnakver, skrifað á þessari öld, með fljótaskript. Þar er á:

1. Rímur af Marsilius og Rosamunda («Vildi eg geta vits af kór» o. s. frv.), 5 að tölu.

2. Rímur af Partalopa («Skartar lítið skemtun mín» o. s. frv.), 10 að tölu.

№ 398.

Sögukver, skrifað með fljótaskript um miðja síðustu öld. Þar er á:

1. Saga af Hrólfi Gautrekssyni, 37 kapitt.; skrifuð 1751.

2. Vatnsdæla saga, 88 kapitt.; skrifuð 1847.

№ 399.

Kver, lítið, skrifað 1841-1843, með viðvaningslegri latínu hendi. Þar er á:

1. Safn af málsháttum í stafrofsröð, sem Þorsteinn á Upsum kveður skrifað eptir afgömlu handriti, vel skrifuðu, en mjög bundnu.

2. Fugla nöfn, um líf þeirra og náttúru.

3. Hvala- og fiskanöfn, um stærð þeirra, náttúru, auðkenni, notkun og lit.

№ 400.

Stutt ágrip af Abraham Kalls almennu veraldar sögu (in usum scholarum Islandiæ), á dönsku, skrifað með ágætri fljótaskript, 184 blss. Sira Stephán Þorsteinsson á Völlum hefur átt kver þetta, og eru neðan máls greinir með hans

hendi, sem eru spurningar til að rifja upp fyrir sèr efnið á hverri blaðsíðu, og fleiri athugasemdir, á íslenzku.

Enn fremur hefur sira Stephán eptir athugasemdunum aptan við hvert tímabil hjá Kall gjört útdrátt og yfirlit yfir lærða menn og bókmentir, á dönsku, og er það með hans eigin hendi, skrifað 1805.

þar eptir eru 3 ritgjörðir á íslenzku, eptir ritgjörðum Suhms, um bókmentir, um sannleik og um lærðustu menn.

Seinast er, með hendi sira Stepháns, skipting Rasks á mannkyninu eptir tungumálunum, með töflu um hina svokölluðu sarmatisku ætt.

## № 401.

Ágrip af veraldar sögu Kalls, á dönsku, 250 blss. (sama og Nr. 400).

## № 402.

Bók, innbundin, með spennum, skrifað um 1700. þar er á:

Norsku lög, á íslenzku; vantar í á stöku stöðum, t. a. m. aptan af lögunum sjálfum, og framan og aptan af registrinu.

## № 403.

Rímna kver, skrifað með fljótaskript um miðja síðustu öld. þar er á:

1. Rímur af Hákoni norska («Svo skal stilla sorgar stund» o. s. frv.), 4 að tölu.

2. Rímur af Libertin og Ölvi («Mun eg fram af mærðarkjós» o. s. frv.), 8 að tölu, sbr. II, 64, III, 130,1.

## № 404.

Brot af alþingisdómum og samþyktum frá 16. og 17. öld; þar á meðal: Stóridómur, Heynes samþykt, o. fl.; hèr er og einn dómur, dæmdur í Húnavatnsþingi 1461 af Egli Grímssyni, um högg.

## № 405.

Kver, lítið, skrifað 1811 af Jóni þorsteinssyni á Skeggjastað. þar er á:

Ágrip af æfisögu Friðriks II.s Prússa konungs, eptir H. J. Birch, sóknarprest í Glostrup, og meðlim hins Konunglega Norska fèlags í þrándheimi, prentað í Kaupmannahöfn 1789; m. fl.

Kver þetta hefur afskrifarinn líklega útlagt eptir því prentaða.

## № 406.

Kver, skrifað 1808, með sömu hendi og næsta númer á undan. þar er á:

1. Nokkuð úr Stúrmshugleiðingum yfir guðs gjörninga í ríki náttúrunnar, skipt eptir dögum.
2. Útlegging af Joh. Ewalds draumi um musteri lukkunnar, af J. J.
3. Ágrip af Grikklandssögu hinni gömlu.

## № 407.

Safn af sálmum og andlegum söngvísum á öllum helgi- og hátíða-dögum kirkjuársins, vantar eitt blað framan af.

## № 408-419.

Almanök, með skrifuðum dagbókum, mest um veðráttufar, fyrir árin 1774-1860, tólf bindini (vanta í: 1788-1796 og 1822-1823).

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| I. | nær | yfir | árin: | 1774-1781; |
| II. | - | - | - | 1784-1787; |
| III. | - | - | - | 1797-1799; |
| IV. | - | - | - | 1800-1807; |
| V. | - | - | - | 1808-1812; |
| VI. | - | - | - | 1813-1818; |
| VII. | - | - | - | 1819-1820; |
| VIII. | - | - | - | 1820-1829; |
| IX. | - | - | - | 1830-1839; |

X. nær yfir árin: 1840-1849;
XI. - - - 1850-1856;
XII. - - - 1857-1860.

Dagbækur þessar eru haldnar og skrifaðar á Urðum í Svarfaðardal af Jóni hreppstjóra; flest af almanökunum eru prentuð, en nokkuð þó skrifað; sum eptir íslenzkum fingrarímum, þegar almanök ekki hafa flutzt til Íslands, einnig af þeim Urðamönnum.

### № 420.

Rímur af Droplaugar sonum («Margir áður menn um frón» o. s. frv.), 22 að tölu.

### № 421.

Kver, skrifað um síðustu aldamót. Þar er á:

1. Ræða, eður andlegar hugleiðingar um friðþægingu Krists, í 5 pörtum.
2. Safn, allmikið, af ljóðabrèfum ýmsra skálda, svo sem: Þorsteins Jónssonar, Gísla Konráðssonar, Skúla Magnússonar, sira Jóns Jónssonar í Goðdölum, Sigurðar Pèturssonar, sira Þorláks Jónssonar, Högna Bárðarsonar, sira Páls Jónssonar skálda, sira Þórarins Jónssonar, Sigurðar Jónssonar skálda, Eiríks Laxdals, sira Jóns Hjaltalíns o. fl. Safn þetta er sumstaðar fúið, og á stöku stöðum vantar í.
3. Langlokur, tvær, eptir R. Þ. S. («Einmánuður allra mest» — «Beinakerling gömul og grá»).
4. Vísur tvær, önnur útlögð úr latínu.
5. Langloka («Heyrði eg til þar hodda gná» o. s. frv.).
6. Vísa sira H(allgríms) P(èturssonar) («Hlákan blikar hæg mjúk» o. s. frv.).
7. Samstæður, eptir stafrofi («Allir eitthvað þreyja» o. s. frv.).
8. Vísa um góu («Enn vekur annríki mönnum» o. s. frv.).
9. Um harðindi («Nú er vetra torveld tíð» o. s. frv.).
10. Vísa («Lastmælanna ljót röst» o. s. frv.).

11. Kokks þökk («Árna rèð ei umsjón hrörna» o. s. frv.).

12. Vísa Illuga Helgasonar («Tvinnuð núna tals af kró» o. s. frv.).

13. Enn tvö ljóðabrèf.

14. Bragarbót, eptir sira Jón Þorláksson («Húm nálgast hallar degi» o. s. frv.).

15. Hársljóð Árna Gíslasonar («Þó að eg vildi þulуna flètta» o. s. frv.).

16. Enn eitt ljóðabrèf.

17. Vitnisburður, gefinn af sira G(unnari) P(álssyni) («Þorleifur Þorleifsson» o. s. frv.).

18. Vitnisburður, samsettur af Högna Bárðarsyni («Heyrendur þessa seðils sè» o. s. frv.); hèr fylgja nokkur blöð annarstaðar frá, og er þar á:

19. Niðurlag á kvæði (um dreka, sem var drepinn).

20. Kveðlingar Andrèsar Helgasonar og Gísla Konráðssonar.

21. Enn nokkur ljóðabrèf (vantar í).

## № 422.

Veðurbækur fyrir árin 1859-1861 og 1865-1870 (vantar því 1862-64), er Björn Björnsson á Breiðabólstöðum á Álptanesi hefur haldið og skrifað upp á ýmsum stöðum á Íslandi.

## № 423.

Íslenzk bókmentasaga, samin af rektor, Dr. Sveinbirni Egilssyni, og rituð af skólapilti Þorsteini Jónssyni (nú lækni í Vestmannaeyjum) 1861. Bókmentasögu fyrirlestur þessi er í tveim heptum, 70 og 58 blss.; honum er skipt í tvö tímabil; hið fyrra (874-1056) byrjar á Egli Skallagrímssyni og endar á Úlfi Uggasyni, og þar eptir er um helztu bragarhætti fornskálda. Hið síðara (1056-1263) byrjar á Sæmundi fróða og endar á Ólafi hvítaskáldi.

## № 424.

Rímnasafn í lausum heptum, eptir Eirík Pálsson, bónda á Uppsölum í Svarfaðardal (1864), af ætt Bjarna Pálssonar landlæknis og Sveins Pálssonar (Steinstaða ætt); eiginhandarrit. Í safni þessu eru níu rímnaflokkar, sem sè:

1. Hávarðar rímur Ísfirðings («Fálki þundar fer á ról» o. s. frv.), 11 að tölu.
2. Bjarnar rímur Hítdælakappa («Langar mig við ljóðadýr» o. s. frv.), 12 að tölu.
3. Rímur af þorgrími mikla og köppum hans («Mig við þögn í þanka bauð» o. s. frv.), 7 að tölu.
4. Illuga rímur Gríðarfóstra («Herjars rigni helliskúr» o. s. frv.), 4 að tölu.
5. Æsópus rímur («Vaki dugur vaki fjör» o. s. frv.), 10 að tölu.
6. Orms rímur Stórólfssonar («Víki mæðan vitrum frá» o. s. frv.), 6 að tölu.
7. þorsteins rímur svarfaðar («þögnin mæðir garpa geð» o. s. frv.), 23 að tölu.
8. Rímur af frönskum timburmanni («Langar vökur leiðast mèr» o. s. frv.), 5 að tölu.
9. Rímur af Amalíu drottningu («Nú skal mærðar semja söng» o. s. frv.), 6 að tölu.

## № 425.

Embættisgjörðin eða Presturinn og djákninn, dönsk frásaga snúin í ljóð 1851 af Jónasi Jónssyni í Sigluvík («Lítt mig þvingar ljóða spil» o. s. frv.), þrjár rímur.

## № 426.

Ljóðmælasafn eptir ýms skáld, upp skrifað 1848 af þorsteini þorsteinssyni á Upsum (þá á Grund). þar er á:

1. Sálmur, eptir sira Gísla Gíslason í Vesturhópshólum (síðar á Staðarbakka), við aftöku Friðriks Sigurðssonar 12. janúar 1827 («Lít maður leið sem átt» o. s. frv.), 26 vers.

2. Kvæði um rokk, eptir Guðnýju Jónsdóttur frá Grenjaðarstað («Heldur tók mèr að hýrna í sinni» o. s. frv.), 10 vers.

3. «Endurminningin er svo glögg» o. s. frv., 10 vers, eptir hina sömu.

4. «Sit jeg og syrgi mèr horfinn» o. s. frv., 5 vers, eptir hina sömu.

5. Sorgartölur saknandi móður yfir ástfólgins arfa moldum, er hèt Jón Sigursteinn (Aðalsteinn) og deyði ársgamall («Frá því eg heiminn fyrst eg (í?) rèði» o. s. frv.), 19 vers, eptir hina sömu.

6. Sálmur («þegar mèr einhver amar» o. s. frv.), 4 vers, eptir hina sömu.

7. Sálmur eptir Bjarna amtmann Thorarensen, kveðinn af sira Jóni Sveinssyni á Hvanneyri («Hvað er að undra þó mikils það mèr» o. s. frv.), 9 vers.

8. Kvæði Jónasar Hallgrímssonar við lát Bjarna («Skjótt hefir sól brugðið sumri» o. s. frv.).

9. Vers, þrjú, ort af Jóni timburmanni Benjamínssyni («Hjartkær frændi hver mun sælli en þá» o. s. frv.).

10. Sálmur, eptir Ólaf Pálsson («Í Hafnar burt oss heimti rann» o. s. frv.), 5 vers.

11. Yndið manns («Svo til margt sinnið er» o. s. frv.), 8 vers, (líks efnis og hinar alkunnu «Heimslista vísur»).

12. Kvæði, eptir Sigfús Jónsson (á Laugalandi) til fósturdóttur hans («Ljómar nú dagur dýr» o. s. frv.), 16 vers.

13. Hafnar hrós, eptir Jón Espólín («Eldgamla Ísafold» o. s. frv.), 7 vers.

14. Morgunþanki um náttúruna, eptir Jón Jóhannesson á Beinakeldu («Draums nær eg vakna (af) voðum hlýjum» o. s. frv.), 10 vers.

15. Draumur Guðbjargar þorkelsdóttur á Hraunshöfða í Yxnadal (eptir hvarf sonar hennar), snúinn í ljóðmæli af Sigurði Jónssyni á Neðstalandi í Yxnadal

(«það bar til, og þannig vil eg byrja» o. s. frv.; mansöngnum er sleppt).

16. Ágúrs bæn, snúin í ljóð af sira Helga Benediktssyni («Um tvo hluti eg þig bið» o. s. frv.), 3 vers.

17. Nokkrir málshættir í ljóðum, eptir Sigfús Jónsson á Laugalandi:

Fyrsti flokkur («Gott er að vera varfærinn» o. s. frv.), 116 erindi.

Annar flokkur («Fáa leiðir firða gott af forvitninni» o. s. frv.), 52 err.

þriði flokkur («Gæfu sjaldan gengi er rótt» o. s. frv.), 12 err.

Fjórði flokkur («Hvomurinn þá hefir brauð» o. s. frv.), 12 err. þar á eptir tvær málsháttavísur líkast til eptir annan («þeir sem röktu rás úm Ögur» — «Verkun kalda gjört það getur»).

18. Æfiraun eður æfisaga þorvalds Rögnvaldssonar á Sauðanesi («Æfisögu sína» o. s. frv.), 59 err.

19. Langloka, eptir sira Magnús Einarsson á Tjörn («Margir verða manna fyrir bónum» o. s. frv.); hèr eru 30 rím á «bónum».

## № 427.

Ljóðmæla safn, nýlega skrifað, með blaðsíðutölum til bls. 182. þar er á:

1. Hraknings ríma Steinólfs Bjarnasonar, kveðin 1792 af Jóni Hákonarsyni (í Ólafsvík) («Himins stólpa hafjór minn» o. s. frv.), 65 err., bls. 1-11.

2. Ljóðabrèf til Boga Benediktssonar í Hrappsey, kveðið 1802, eptir hinn sama («Herra Bogi hlýðið ræðu minni» o. s. frv.), 57 err., bls. 11-18.

3. Ljóðabrèf, ort af Sigurði Jónssyni («Heimsráðandi hvað sem sker» o. s. frv.), 40 err., bls. 18-23.

4. Ljóðabrèf, ort af H(annesi) A(rnórssyni) 1822 («Nú er ferð svo fljótt eg verð að hripa» o. s. frv.), 15 err., bls. 24-26.

5. Brèf til Odds Hjaltalíns, eptir hinn sama («Bón fylgir blaði þessu» o. s. frv.), 5 err., bls. 26-28.

6. Úr Ensku útlagt, eptir hinn sama («Um það hafa nuddað lærðir lengi» — (2. vers: «Svíðingur dó» &c.), 9 err. (sbr. III, 123,2), bls. 28-31.

7. Stökur, eptir hinn sama («Hræsvelgs andi hefrings landið hvítfreyðandi» o. s. frv.), 3 err., bls. 31-32.

8. Langloka, eptir Arnór Jónsson, («Út um móa ekki frjóa» o. s. frv.), bls. 32.

9. Heilræði kvenna, eptir Jón Hákonarson, ort 1821, 59 err. (sbr. II, 206,6); bls. 33-43.

10. «Notabene» Hannesar Arnórssonar, 43 err. (sbr. II, 206,7), bls. 43-49.

11. Svar Jóns Hákonarsonar upp á «Notabene», 33 err. (sbr. II, 206,8), bls. 50-55.

12. Ljóðabrèf til Jarðþrúðar Jónsdóttur í Stykkishólmi, eptir hinn sama, 1814 («Háttvirðandi höfðingsfrú» o. s. frv.), 49 err., bls. 55-63 (frá bls. 64, sem er auð, er hlaupið yfir til bls. 73).

13. Bónorðs bragur, eptir hinn sama, kveðinn 1807 um Jón Jónsson, er almennt kallaðist «Langur» («Illt er að vita æðablóð» o. s. frv.), 70 err., bls. 73-85.

14. Hvalferðar kvæði, eptir hinn sama, ort 1813. Viðlag: «Höndin lítið hefir títt, þá hugurinn mest vill fá» («Seggir fóru að sækja hval» o. s. frv.), 24 err., bls. 85-93.

15. Hákonar færsla, eptir hinn sama, kveðin 1815-1816 («Æfisögu einfalda» o. s. frv.), 31 err., bls. 94-99.

16. Langloka, kveðin um slæma góu 1799, eptir hinn sama («Gráleit endast góa» o. s. frv.); og vísa til Boga Benediktssonar («Eignist árgróði» o. s. frv.), bls. 99-100.

17. Ljóðabrèf, 1822, eptir hinn sama, og til hinnar sömu, sem 12 («Háttvirðandi höfðingsfrú göfuga» o. s. frv.), 36 err., bls. 101-105.

18. þjófa torrek (sbr. II, 206,9), 77 err., bls. 105-119; aptan við er athugasemd um Hnausa-Bjarna, sem kvæðið er um.

19. Ferðaríma Sigurðar Breiðfjörðs («Listin forna» &c.), 46 err., bls. 119-127.

20. Kaffe þökk til Jarðþrúðar Benediktsen, eptir Jón Hákonarson, kveðin 1823 («Bragnar fluttu í bæinn hèr» o. s. frv.), 13 err., bls. 128-130.

21. Skuldaljóð, kveðin 1823, eptir hinn sama («Systir Kraka skessan Skuld» o. s. frv.), 20 err., bls. 130-134.

22. Svar Jóns Hákonarsonar upp á vetrarkomuvísu í Kl. póstinum Nr. 8, 1823 («Ugglaus von mín þeygi þver» o. s. frv.), 15 err., bls. 134-137.

23. Ljóðabrèf, eptir hinn sama, til Sigurðar skólapilts Gíslasonar í Selárdal, 1823 («Brèfið upp fyrst brjótið þèr» o. s. frv.), 77 err., bls. 138-152.

24. Hrakningsrímur, tvær, þorláks þórðarsonar í Rifi, 1813, eptir hinn sama («Ljómar dagur dimman flýr» o. s. frv.), 88 og 108 err., bls. 153-182.

25. Vísur, tvær, eptir sira Snorra á Húsafelli um Árna hreinlát, bls. 182.

26. Draugsríma Sigurðar Breiðfjörðs («Svona er nú sagan heil» o. s. frv.), 97 err.

27. Kvæði (fjögur) ort við burtsigling Boga Benediktssonar í Stykkishólmi, 1824, eptir Jón Hákonarson, Gísla Sigurðsson á Ósi og J. Hjaltalín.

28. Við heimkomu sira Ásgríms Vigfússonar, 1826, eptir Sigurð Breiðfjörð («Heil vertu hafalda» o. s. frv.), 11 err.

29. þankabrot, ort 1821, eptir Jón Hákonarson («Hikaðu hugur minn» o. s. frv.), 6 err.

30. Hugarins skuggsjá, ort 1817, eptir hinn sama («þegar eg renni þankans augum» o. s. frv.), 12 err.

31. Búskapar vísur, ortar 1816, eptir hinn sama («Eg er orðinn lúinn» o. s. frv.), 4 err.

32. Ljóðabrèf sira þórarins í Múla («Bendir randa Benjamín» o. s. frv.). 52 err.

Sumt í kveri þessu er með hendi Brynjólfs Bogasonar, og sumt með hendi Lárusar Sivertsens.

## № 428.

Kennslubók í reikningi, skrifuð með góðri og greinilegri fljótaskriptar hendi, 1736. Titill bókar þessar er: «Limen Arithmeticum eður Einfaldlegur Inngángur til Rèttelegs Náms og brúkunar þeirrar Nafnfrægu Reikningslistar. Í Hverjum hennar Sèrlegustu Aðferðer sem við vort Landslag átt geta, verða með ljósum Reglum og Epterdæmum fyrer sjóner settar. Epter Leiðsögu Reikningsfróðra Manna tilbúenn og opnaður af þeirra SEINLATum Enn þó FIlgESpökum SpoRgöngumANNE. Anno CIƆIƆCCXXXVI».

Reikningsbók þessi er í 30 kapitulum, og er síðasti kapitulinn um vallarmælingar, með myndum ýmsra flata.

Aptan við er: Vorir sólheimar og Viðbætir: þýðing útlendra orða, eptir stafrofsröð; og síðast vísur þrjár um reikningslistina («Reynt hef eg til að rita kver» o. s. frv.).

## № 429.

Um hreppaskilin í Neinstaðahrepp, ritað af Jóni Jónssyni presti til Grundar og Möðruvalla. Motto: «Allur er jöfnuðurinn góður».

Innihald bæklings þessa er: að sira Jón kemur að Málastöðum í Neinstaðahrepp, þar sem hreppstjórinn, Hugsvinnur Góðfússon er að halda hreppaskila þing, og lætur hann svo hreppstjóra taka:

1. Tíundarreikning yfir lausafè allra bænda og búlausra í hreppnum.

2. Rannsaka bjargræðis ástand og efnahag allra hreppsbúa.

3. Bera saman inntekt og útgipt hreppsins, vissa og óvissa.

4. Jafna niður aukaútsvari.
5. Ráðstafa hreppsómögum.

### № 430.

Skóla syrpa, með útleggingum og orða skýringum yfir ýmsa latínska rithöfunda (úr Ovidius Metamorphoses, Phaedri fabulæ, Terentius o. fl.), skrifað upp eptir Dr. Hallgrími Scheving veturna 1818-1827 af ýmsum skólapiltum (Sigurði Einarssyni, Sveini Níelssyni, Páli Tómassyni o. fl.).

### № 431.

Kver, skrifað um miðja 18. öld. þar er á:

1. Nokkrar lögbókar greinir með útskýringum, og útlegging nokkurra dóma, sem dæmdir hafa verið á alþingi, með öðru fleira þar að lútandi 1753.

2. Alþingisdómar og samþykktir, Forordningar, Synodalia o. fl. frá 16. og 17. öld, með tveimur registrum, sínu fyrir hvern af þessum tveimur köflum.

Kver þetta er með tvenns konar hendi, fljótaskript og settletri, og hingað og þangað viðaukagreinir, athugasemdir og skýringar með hendi sira Stefáns þorsteinssonar á Völlum, eins og líka bæði registrin eru með hans hendi.

### № 432.

Jónsbók, innbundin, skrifuð á 17. öld eða nokkru síðar, með settletri; upphafsstafir dregnir með litum og fyrirsagnir með rauðu bleki.

Afskript þessi sleppir Prólógus, og byrjar beinlínis á þingfarabálki, sem að mestu leyti (fram í 9. kap.) er skrifaður með nýrri hendi. Afskript þessi sleppir og kaflanum um konungserfðir. Síðasta blað, um konungs þegnskyldu, og fyrsta í mannhelgis bálki er og nýlega skrifað. Vantar aptan af Rèttarbótunum (endar í Rèttarbót Eiríks konungs «Um stefnufall»); registur vantar og.

Aptan við þjófabálk stendur: «Guð gefi oss öllum lögunum að fylgja og landsrètti að halda með rètting. Amen».

## № 433.

Jónsbók, gott handrit, með upphafsstöfum og fyrirsögnum skrifuðum með rauðu bleki, skrifuð á 17. öld. Handrit þetta er heilt með rèttarbótum og registri yfir alla bálka. Rèttarbót Christians kgs., «um skilgetning presta barna», er þó sleppt hèr.

Handrit þetta hefur verið í eigu Bjarna amtmanns Thórarensens og þeirra feðga.

## № 434.

Kver, nýlega skrifað. Þar er á:

1. Gátur, fjórar, og nokkuð af fimmtu, þar á meðal gáta Þorsteins á Saurum: «Fór eg eitt sinn á fiskum víða» o. s. frv.

2. Líkafróns saga, vantar aptan af (nær fram í 9. kapit.).

## № 435.

Vina ríma («Valvan kvæða vek eg þig» o.s.frv.), ort 1866, 73 err.

Aptan við rímurnar eru nokkrar lausavísur, þar á meðal vitnisburðarvísa um rímuna, eptir Sigtrygg Guðmundsson.

## № 436.

«Rímur af Ármanni Dalmannssyni og Þorsteini Eitilssyni, kveðnar (1822) af einhverju skáldfífli» («Býleigs hallar bruggað vín» o. s. frv.), 17 að tölu.

Í síðustu rímunni stendur, að rímurnar sè ortar fyrir Hildibrand Einarsson á Hofi í Fljótsdal. Nafn þess er hefur ort, er og bundið í seinustu rímunni.

## № 437.

Reformations sálmar, níu, til minningar siðaskiptanna, sungnir á júbil- eður fagnaðarhátíð, sem samkvæmt konungs skipan dags. 9. April 1817 var haldin 31. Oktober og 2. November 1817 að Dvergasteini.

## № 438.

Lækningabók, skrifuð upp eptir hinum alþekktu lækningabókum frá 16. og 17. öld. þar er á:

1. Samtíningur auðfenginna lækninga við nokkrum krankdæmum, útlagt eptir bók Henrich Smids.

2. Um náttúru nokkurra jurta.

3. Um áverka og nokkur önnur tilfelli (þar með um blóðtökur).

4. Sjúkdómalýsing.

5. Um náttúru alþekktustu jurta, útlagt, eptir Dr. Johann Cuba.

6. Johannis Menhemius Metropolitanus: um gimsteina, 1542.

7. Um lækningar af þeim auðfengnustu dýrum og fuglum.

8. Henrich Smids «fierdi Urtegard flitilige til sammen læst af lærde Lægers Bøger faar Quindfolkens sjukdomme. Prentet i Lubeck 1598» (á dönsku), 10 kapitt.

9. Úr «Secretis Alexapedi montani».

10. Hin fjögur temperamenta.

11. Enn um blóðtökur.

12. Lækningar við nokkrum meinsemdum, eptir fyr nefndum bókum.

13. Enn um dyggðir nokkurra grasa, brennivíns o. fl. (hèr vantar nokkuð í).

14. Partur úr registri (úr N til Æ.).

15. Ýmislegt uppskrifað eptir «Gandreið».

## № 439.

Kvæðasafn, eptir Eggert Ólafsson, uppskrifað á Espihóli í Eyjafirði af þ(orsteini) þ(orsteins) S(yni) 176..

Hèr er þó nokkuð eptir aðra höfunda, svo sem vísa eptir Guðmund Bergþórsson um skák; Hringsdrápa Vigfúsa Jónssonar o. fl.

Með handriti þessu liggur «Tafla um það nauðsynlegasta, sem fyrir fellur að athuga á árinu, skrifuð með

góðri hendi öðrumegin á heila örk; og þar að auki brot úr ræðu (um mannelsku), nýlega skrifað.

## № 440.

Vikusálmar kvöld og morgna, ortir af Benedikt Magnússyni Beck og tileinkaðir Valgerði Jónsdóttur, 1713; eiginhandarrit; þar eptir bænarsálmur út af sjö orðum Krists á krossinum («Þú sem baðst friðar fyrir oss» o. s. frv.), og morgun- og kvöldvers.

## № 441.

Vikusálmar kvöld og morgna, eptir sira Guðmund Torfason, ortir 1838. Þar eptir: Nýársvers og sálmar fimm, á nýjári, jólum, páskum, uppstigningardegi og hvítasunnu.

## № 442.

Samtíningur á lausum blöðum og heptum. Þar er á:

1. Íslenzkir rímna- og bragarhættir (44) á latínu («Thulanorum tradita» o. s. frv.), 44 err.

2. Kvæði, þrjú, við giptingu Hannesar biskups Finnssonar í Skálholti, 28. Juni 1780; tvö af kvæðum þessum eru á latínu, og eitt á íslenzku («Phoebus hátt sig hefur» o. s. frv.), eptir sira Kristján Jóhannsson.

3. Grafskriptir þrjár, yfir Fröken Sigríði Magnúsdóttur Stephensen († 19. Aug. 1805), eptir Gröndal; Frú Sigríði Magnúsdóttur (konu Ólafs stiptamtmanns Stephensen), † 6. Oct. 1816, og Mörthu Mariu Stephensen († 14. Juni 1805), eptir Magnús Stephensen, auk nokkurra fleiri grafskripta og minningar ljóða.

4. Nokkur brúðkaups kvæði.

5. Ávarp til Vestmannaeyja við aðgjörð á Landakirkju 28. Aug. 1819 («Enn hefur þín, alvaldur gjört að minnast» o. s. frv.), 5 err.

6. Kvæði, ort 1850 við komu Helga biskups Thordersen í Austfjörðu («Hver var hinn góði gesturinn og blíði» o. s. frv.), eptir sira Ólaf Indriðason, 5 err.

7. Hjónavígslu ræða við giptingu Ó. Stephensens, justizsekretera og Fröken M. Stephensen í Hraungerðis kirkju 19. Aug. 1829, eptir Helga biskup og með hans hendi.

### № 443.

Jónsbók, innbundin, góð afskrift, skrifuð 1679 af sira Narfa Guðmundssyni í Möðrudal; titilblaðið sjálft er síðar skrifað (1759). Handrit þetta er án registurs, þar er og rèttarbótunum sleppt.

### № 444.

Manuale eður Collectur, pistlar og guðspjöll árið umkring, ásamt píningar sögunni, skrifað 1735. Aptan við eru kvöld- og morgunsálmar fyrir alla vikuna, með strikum fyrir nótur, en nóturnar hafa aldrei verið skrifaðar (eptir Kingo?); hèr eru og 6 Iðrunarsálmar Davíðs (hinn 6. 32. 38. 51. 102. og 130. í sálma tölunni).

Allur þessi síðari kafli handritsins er síðar skrifaður.

### № 445.

Krossskóla reglur, saman teknar eptir Krossskóla sálmunum af sira Stefáni Halldórssyni á Myrká; handrit þetta er 174 blss., og er skrifað eptir Hóla útgáfunni frá 1775, með nýlegri hendi.

### № 446.

Sjö krossgöngu prèdikanir, fyrst skrifaðar á þýzku af Dr. Martinus Hammerus, útlagðar á íslenzku af sira Arngrími Jónssyni lærða 1618, bls. 1-198. Þar eptir bæn út af pínu Krists og sálmar út af upprisu Krists («Hjartað fagnar og hugurinn minn» o. s. frv.), eptir sira Hallgrím Pètursson (vantar aptan af).

### № 447.

Lærdómsbók handa unglingum, samin af sira Hjálmari Guðmundssyni á Hallormsstað, 178 bls., titilblaðslaus.

### № 448.

Útdráttur úr Jacob Badens grísku grammatík á dönsku, 85 bls. og þrjú «paradigmata».

## № 449.

Ræðusafn, frumritað, eptir sira Snorra Sæmundsson á Desjarmýri. Ræður þessar ná frá Trinitatis til nýárs; aptan við ýmsar af ræðum þessum eru kirkjuleiðslur kvenna og bænir fyrir sjúkum.

## № 450.

Kver, rotið og máð, hefur verið hept í skinnbókarblað, sem nú er að mestu slitið utan af. þar er á:

1. Genesis sálmar sira Jóns þorsteinssonar (píslarvotts) í Vestmannaeyjum, 39 að tölu.

2. Ýmsar andlegar söngvísur og sálmar, sumt eptir sira Jón; kver þetta er skrifað með góðri fljótaskriptar hendi á að geta um miðja 17. öld (síðari hluti Genesis sálmanna, frá 25., virðist vera með annari hendi).

## № 451.

Blöð nokkur, sundurlaus, nýlega skrifuð. þar er á:

1. Kvæðið «Englabrynja» («Allsvaldur andi og herra» o. s. frv.).

2. «Harmur sturlar hugann sár» o. s. frv., 3 vers.

3. Vísur sira Einars Sigurðssonar um Guðbrand biskup («Móðurjarðar guð gerði» o. s. frv.).

4. Vers við ýmsar athafnir dagsins (vantar eitt blað framan af, og annað aptan af), m. fl.

## № 452.

Samtíningur á lausum blöðum og heptum. þar er á:

1. Hepti, lítið, skrifað 1867 á Vatnsnesi af Magnúsi Runólfssyni í Gröf, með ljóðmælum ýmsum og lausavísum, flest uppskrifað eptir prentuðu (svo sem kvæðum Eggerts Ólafssonar, Bjarna Thorarensens, Jónasar Hallgrímssonar o. fl.); hèr er og skrifaður draumur Einars Helgasonar á Laugabóli (1854).

2. Nokkur blöð með ýmislegu á, svo sem: Trúarjátning Sigurðar Pèturssonar («þrennt eg trúi og treysti á» o. s. frv.); sundreglur; mannslýsing o. fl., eptir Sigurð

Breiðfjörð, gáta («Ein er sú kona, sem auðæfum þènar» o. s. frv.), o. fl.

3. Ljóðmæli nokkur og lausavísur, eptir Guðmund Guðmundsson í Reykjavík († 1868); þar í tvö kvæði til Trampe greifa, ljóðabrèf eitt m. m.

## № 453.

Píslar hugvekjur, fimmtíu, eptir Passíusálmum sira Hallgríms Pèturssonar, eptir sira Vigfús Jónsson á Stöð (1737-1761), og með hans eigin hendi.

## № 454.

Kver, innbundið; fyrri hluti þess er skrifaður 1856. þar er á:

1. Sálmar, þrír («Hvenar viltu hèðan kalla» — «Hvernig eru þau umskiptin») (eptir sira þorberg þorsteinsson), þriði sálmurinn er útlagður úr dönsku; þar með sex vers; hèr eptir kemur eldri hönd, og þar

2. Sálmur, eptir sira Jón þorgeirsson á Hjaltabakka («Góts er hið bezta guðrækni» o. s. frv.); þar með tvö einstök vers.

3. Morgun- og kvöldvers, eptir sira Jón Ólafsson.

4. Kvöldsálmur («Guð gefi oss öllum góða nótt» o. s. frv.).

5. Tólf sona kvæði («Firðum bæði og falda ungri gefni» o. s. frv.).

6. Draumur Sancte Pèturs.

7. Skilnaðarskrá («Ævarandi eining blíð» o. s. frv.), eptir Kolbein Grímsson.

## № 455.

Kver, innbundið með spennum, skrifað um síðari hluta 17. aldar. þar er á:

Andlegar hugleiðingar út af ritningunni; vantar framan af (fram í 3. kap.) og aptan af (frá síðari hluta 18. kap.).

### № 456.

Kver innbundið með spennum, en nú laust upp úr bandi. þar er á:

Safn af andlegum sálmum og söngvísum, nokkuð fornt, líkast til mest frá 17. öld (vantar framan og aptan af); hèr er með 1 blað úr öðru sálmasafni, áður skrifuðu, með nokkru úr sálmi út af Jesú nafni, og fyrirsögn á sálmi (9. í röðinni) um «Reisu vitringanna til Jerúsalem», og þess utan blað eitt með erfiljóðum eptir Tómas Daníelsson, er drukknaði á Ísafirði 24. Juni 1864, eptir S(ighvat) G(rímsson) Borgfirðing.

### № 457.

Bók í glósna broti, innbundin, 221 blað. Hún er kölluð «Genealogia Islandorum eður Íslendinga ættatal», «samanskrifuð af sr. Guðbrandi Jónssyni á Vatnsfirði 1680». þar á eru 17 ættir raktar og taldar: Möðruvalla ætt, launsona Lopts ríka, Vatnsfjarðar, Odds lepps, Mókolls í Haga, Akra-Finns, Jóns Langs, Auðkúlu, Ásmundar, Svalbarðs, Reykhóla, Eiríks Sumarliðasonar, Kolbeinsstaða, Narfa, Gísla biskups, Eydala og Langfeðgatal. Hönd Ólafs Snóksdalíns. — Aptara saurblaðið er brjefkorn nokkuð frá Magnussen á Skarði.

### № 458.

Safn á lausum örkum af ýmsum ljóðmælum; allt skrifað með fljótaskript, en ekki allt með sömu hendi. þar er

1. Vinafundurinn («Penna viður nú á ný»).
2. Lítið ævintír («Opt verður lítið ungra gaman»). Aptan við stendur N. J. (= Níels Jónsson skáldi).
3. Sendibrjef («Heill sjertu vinur, heill þig spenni») eptir «Ólaf Guðmundsson á Grund», smbr. síðasta er.
4. Tunguh(r)ós («Heyri mig höldaval»). Eptir O. G.
5. Til Hans sem Hún elskar («Sæll vinur sjertu minn»). Eptir B. G.

6. Kjötmundar sálmur («Sjá þú hjer í syndinni gotins»). Eptir «P. S.»

7. þau móleitu blessunarorð («Djöfullinn blessi hann Bjarna í Hnausum»). Eptir «N. J.»

8. Bót við böli («Vinur ef þú böl ber»). Eptir «J. þ.» Lausavísa.

9. Um mann sem ætlaði að giptast (lausavísa; «Allan stansar á því mig»). Eptir «J. þ.»

10. Lausavísa eptir «J. þ.» («Hallbera situr hæst á bekk»).

11. Rímur af Cyríló. 8 tals, en vantar dálítið aptan af.

## № 459.

Samtíningur af ýmsu smávegis á lausum blöðum; þar af er helzt að telja:

1. Kvæði heft inn í sendibrjef frá Guðrúnu Skúladóttur í Múla (15. sept., ár?) til jómfrú þ. Jónsdóttur á Breiðabólstað. Kvæðið byrjar svo: «Góðir menn á foldu fækka».

2. Hjalvararsálmur, gamankvæði, illa skrifað og fúið.

3. Kvæði ort á gamlaársdag 1851 af Guðmundi Brandssyni; er það gremjukvæði út af þjóðfundinum. Á sama blaði er brjef frá honum til Sveinbjarnar Hallgrímssonar, er hann biður hann í, að taka kvæðið í þjóðólf.

4. Kötlukvísl eptir Bjarna Thórarensen með svari Sveins Pálssonar. Með hendi Jóns Espólíns.

5. Ýms kvæði á nokkurum fúnum blöðum, og brot. 1. Brot af Sigrúnarljóðum Bjarna. 2. «Opt með hæðni hermdir það», eptir Sigurð Pètursson. 3. «Mjög er nú hljótt í söngva sæti», eptir Jón þorláksson. 4. Vinur ástkær um veg farandi, eptir sama. 5. þrennt eg trúi' og treysti á, Sig. Pèturss. 6. Hlýð þú minn son á heilnæm ráð (Sig. Pèt.). 7. Draumur («Eg lagðist fyrir nýjársnótt») (Sig. Pèt.); vantar aptan af

6. Vísur á snepli með hendi Daða fróða («Astýages öðling má»).

7. Brjef frá Gregoríus biskupi til Ansgars, er skipar, að kirkjan í Hamborg skuli vera erkibiskupleg kirkja fyrir alla Norðurálfu. Brjefið er gefið 835, hjer útl. á ísl. og skrifað af Daða fróða 18. dec. 1854.

8. Brot af sálmi («Flest undanfæri hjer»).

9. Brjef, skrifað í Vogsósum 10. okt. 1857 frá Oddnýju Eiríksdóttur til Mad$^{me}$ S. Einarsdóttur á Brekkubæ.

## № 460.

Listi yfir tíundir í Hrafnagilshrepp 1838-39. 8 bls. með hendi Þorsteins Gíslasonar á Stokkahlöðum. Fleiri töblur og reikningar með ýmsum höndum.

## № 461.

Kver bundið inn í skinnkápu upphaflega, en er nú vegna fúa farið upp úr bandinu. Þar á er:

1. «Nokkrar spurningar út af biblíunni». Fyrsta spurningin er: «Hvað er það allra fyrsta nafn, sem guði verður gefið í ritningunni». Þetta er á fjórum örkum. Neðan við seinustu síðuna stendur vísa þessi:

Spurningarnar kall minn kær
í kirkjunni fá (þá?) frost er
eg vil kunna allar þær
eins og pater noster (= faðir vor).

Höndin er ágætlega falleg, en fremur smá fljótaskript, mjög bundin.

2. Þá er, enn með sömu hendi, 2½ örk, er á er ritað: «Nokkur markverðug stórmerki, útdregin af Johan Hubners Geographie, prent. í Kaupmh. 1744, sjerdeilis það sem tilborið hefir í Asia og Afrika og þeirra þjóða ásigkomulag og athæfi».

3. Annálar Bjarnar á Skarðsá.

4. Brot af morgun- og kvöldsálmum og öðrum sálmum. Með annari hendi; á tveim örkum.

5. Síðast eru nokkur blöð með ólíkum höndum; eru á þeim brot ýms af kvæðum t. a. m. ljóðabrjefi eptir Stefán þórarinsson, Rauna sögu af roðhattinum góða, Ljóðabrjefi eptir sira Pál Jónsson, Rímu (?) af viðureign Odds og Hjálmars og Angantýs og bræðra hans. — Seinast er dálítið á tveim blöðum «Um Spaniam»; o. fl. líka brot.

## № 462.

Kver (í 16 bl. br.) með þessum titli: «Bænarvers innihaldandi missiraskipta- og hátíðavers samt morgun-, dagleg og kvöldvers, bæði einstök og úr sálmum, sem syngjast mega eptir lestur, öll með því lagi: «eylíft lífið er æskilegt etc.», samantínd og skrifuð árið 1823 af þorsteini Gíslasyni» (á Stokkahlöðum). Hinum megin á titilblaðinu stendur með annari hendi: «tala versanna í þessu kveri, I Missiraskipta og hátíðavers 47; II morgunvers 11; III dagleg vers 103; IV kvöldvers 76, summa versanna 237». — Bókin er mest öll með hendi þorsteins, en á stöku stað, með annari. Höfundanöfn eru engin rituð við; en við sum versin stendur «þ. P.» Við einn sálminn stendur: «Á sóttarsæng Síra S. H.» þetta getur valla þýtt annað, en að hann sje eptir þenna S. H.

## № 463.

«Rit, er að rèttu raunar má heita Kapítuls taxtinn og Tíundakrafa, eður að efnisinnihaldi: Nauðvörn klerks gégn kénslum bænda o. s. frv.». Ritgjörð eptir sira Jón Ingvaldsson á Húsavík; eiginhandarrit. Kverið er ósamfestar arkir, um 16 alls.

## № 464.

Kver bundið í trjespjöld með skinni utan um, rotið og hálfilla til fara, upp úr bandi. þar er á:

1. Ártíðavísur sira þ..... («Mild af austri meyjan klár»).

2. Aðrar vísur sama authoris 1770 («Formyrkvanir falla í ár»).

3. þriðju ártíðavísur.

4. Tíundartabla.

5. Nokkrir póstar þeirrar kóngl. forordníngar áhrærandi tíundargjörð og extraverk.

6. Nokkur smá æventýr, eptir söguritaranum rómverska Valerius Maximus.

7. Nokkrar vísur til gamans («Góins stjetta grundin nú»).

8. Nokkrar smásögur og hollráð, samhendur, og vísa Þórðar Þorleifssonar með 40 mannanöfnum í.

9. Um það, hverjar æðar maður má óhræddur slá, og móti hverjum sjúkdóm þær skal opna og til hvers þær þjena.

10. Kvæðiskorn («Hafið þjer, börn mín, heyrt um það»).

11. Spurningar nokkrar úr biblíusögu.

12. Eitt kvæði til gamans, sem kallast Fötubragur («Eg vil kaupa eina fötu»). Skrifað fyrir 1790.

13. Tóukvæði Hryn(?) kal Þors sonar. («Þögnin eykur þunga mæði»).

14. Hugarfundur, kveðinn af sira Magnúsi Einarssyni («Mart kann huga heims um höllu»).

15. Roðhattskvæði; brot byrjar í 13. er.

16. Veizlubragur Jakobs Guðmundssonar («Upp er sagt veizlu Eymundar»).

17. Gáta («Var eg í ranni») brot.

18. Rímur af Tijodilus («Spektar túni aldinn á»). Endar í 4. rímu, en vantar að eins nokkur er.

19. Æfintýri af einum kóngi og drottningu, sem vóru bróðir og systir, í 15 kapítulum. Aptan við eru dróttkvæðar vísur um sama. Endað (að skrifa) 1800.

20. Ein gáta («Einn maður reisti á sólardegi»).

## № 465.

Kver upp úr bandi í skinnkápu. Þar á eru Rímur af Fertram og Plató eptir Sigurð Breiðfjörð. Líklega eiginhandarrit höf.

## № 466.

Kver í skinnspjöldum, en upp úr bandi, heldur ljelega til fara. þar á eru:

1. Rímur af Brávallarbardaga («Tvíblinds hallar turna frí») eptir Árna Böðvarsson. 10 alls.

2. Calendarium Gregorianum eður sá nýi stíll. «Prentað á Hólum af Marteini Arnoddssyni 1707» (hdr.). Með formála «ad lectorem» (til lesarans), er undir stendur: «Holti þann 4. júlí 1706, Jón Árnason». Seinast stendur: «possessor libelli Thorarinus Arna» (= eigandi kversins þórarinn Árnason), og er með sama bleki, og, að því er sjeð verður, sömu hendi ritað.

3. Hátíðabæn, og fleiri bænir með ýmsum höndum, og viku kvöldvess; önnur kvöldvess; enn vikuvess «sira S. J. S.»

## № 467.

Bók með trjespjöldum og leðri utan um; á fremra spjaldinu stendur þ. K. D. og $\frac{\text{Anno}}{1739}$ á eptra. Hefur verið skrautbók. þar á er sálmasafn, prýðilega vel skrifað. þar á meðal er «Síðari Samúels bók í sálma snúin, af sira Hallgrími Pjeturssyni, til þess fimmta vers hins þriðja sálms uppbyrjuð, síðan af Sigurði Gíslasyni til hins níunda sálms framleidd, síðast af sira Jóni Eyjólfssyni eldra fullkomnuð».

## № 468.

Lausheft kver, 8 arkir að stærð, er: «Andmálgar aðfyndniskenndar athugasemdir við Alþ. Tíð.» Allt eptir sira Jón Invgaldsson á Húsavík, með hans eigin hendi.

## № 469.

Óinnfest örk. þar á eru: «Umvandandi athuganir við Sneglu-Halla söguþáttinn útg. 1855». Eptir sira Jón Ingvaldsson á Húsavík, með eigin hendi.

## № 470.

Rímur af þórði hreðu eptir Sigurð Breiðfjörð. 10 alls. Eiginhandarrit höf. Hdr. nokkuð óhreint og lasið.

## № 471.

«Eitt kvæði, sem er kallað Harmabót». 22 vísur. Upph.: «Kristinn maður þenktu þrátt». Greinilegt settletur.

## № 472.

Brot úr prjedikunarræðu á 8 blöðum (vantar framan af); ritað með fljótaskript.

## № 473.

Laus blöð, er á er:

«Guðrækilegir sálmar og andlegar vísur, sem ort hefur sú guðhrædda og trúlynda kvennpersóna Sigríður Andrésdóttir», með «nokkrum fyrirsagnarorðum», «skrifað daginn 7da maij árið 1833 af Petri Auðunarsyni» (9. bls.). Þar á eptir koma «andlegar vísur um og eptir þá beztu meðsystur» («Hjálpa þú drottinn dýrðarklár»); 36 er. Höndin afarljót.

Aptan við (í minna broti) með sömu eða líkri hendi er «fjórði partur af ræðu á fyrsta sumardag», og brot af annari ræðu, án upphafs og enda. 34 síður alls.

## № 474.

1. Bæn, á 4 síðum («Eirnin er rækileg og rètt skikkuð bæn vel þókknanlegt guðs offur»).

2. Brot úr ræðu, að því er sýnist eða guðfræðislegum skýringum; á 8 bls.

Skrifað með fallegu settletri.

## № 475.

Rotin blöð, er á eru ritaðir kvöld- og morgunsálmar. Vantar framan af (part af sunnudags «morgunkveðju»), og aptan af (endar mitt í fimmtudags «kvöldkveðju»). 12 blöð, með stórri og fallegri settaskrift; töluvert bundið.

## № 476.

Bundið kver, er á stendur:

1. «Ein andleg keðja, sem er registur yfir öll guðspjöllin, árið um kring í psálmvísu snúin með einföldum

bænarorðum af hverju guðspjalli» («Altíð er gott að iðja») 102 er.

2. «Til uppfyllingar skrifast hér ein Andvarpan Sr. M. E. S. á langafrjádag» («Góði Jesú, gæzkuríki bróðir»), og

3. «Tvö bænarvers sama authoris» («Sárin Jesú helzt mig hræri»). Höfundurinn er líklega síra Magnús Einarsson, prestur á Tjörn («svanurinn á Tjörn»). — Hdr. er ágæta vel skrifað, með rjettum hljóðgreinamerkjum og alstaðar é f. je (ekki è).

## № 477.

Safn mest á lausum blöðum af ýmsu: sálmum, bænum og ræðum o. s. frv. frá ýmsum tímum eptir ýmsa og með ýmsum höndum.

1. «Lífs- árs- og dags- fyrsti morgunsöngur litlu jómfrúr Margretar Jónsdóttur er fæddist að Stórólfshvoli nóttina millum þess 2ars og 3dja Januarii 1776», 10 er. á 3 blöðum með ágætu settletri. («Nú skal góðri gleði lýsa») og «Gamanvísur eður vögguerindi til sama barns», 4 að tölu með sömu hendi («Margrjet meyjan fróma»).

2. Brúðkaupsvísur ortar af sira Guðmundi Torfasyni á Miðdal» á giptingardag Steindórs Torfasonar og Gróu Hjörleifsdóttur («Hjer er mál við hjónaskál, að hefja ljóð»), 9 er., skrifuð með settletri.

3. «Harmagrátur Dóróte Eingilbriktdóttur eptir sinn sáluga ektamann Ambrosum» («Svo sem einn sakamann»), 13 er. á 4 bl. — Á einni opnunni er sendibrjef frá «Thorgrimsen» til «sýslumannsins síns», skrifað þ. 9. maj 1840.

4. Nokkrar vísur og vers («Eg er nú kominn á þá trú»; um slátt: «Báglega bítur þrjót». Músin og köttur. «Ei er forvitnin öllum hent». Heilræði: «Hafirðu' í þínu hyggjulandi». «Í morauðum sokkum mann að bar») allt eptir P. J. með hendi Geirs Vigfússonar á Akureyri sýnist vera úr kvæðasafni.

5. Undirheimaförin eptir Kristján skáld Jónsson. Eiginhandarrit.

6. «Æfisaga þorsteins sáluga (Pálssonar?) ep(t)ir hann sjálfan». Hann er eptir kvæðinu fæddur 1768. 30 er. ferskeytt.

7. þrjú laus blöð, sem á eru vísur nokkurar, ósamstæðar, með sömu hendi allar («Kvennkyns allt var kuggi á»; «Fyrir neðan fagran reit»).

8. «Lukkuhjólið» («Sat eg á baki svaðilfara»), 49 er. með fornyrðislagi, vel skrifað.

9. Skónálakvæði («Grundin átti að gera skó» o. s. frv. viðkvæði. «Sorgar tölur sárar þá»), 15 er. með fljótaskrift.

10. 3 blöð, er á er skrifað brot af rímu (?) út af kafla úr Njálu (eptir víg Gunnars); byrjar á 23 er. Neðan undir hefir Jón Borgfirðingur ritað «Ari Sæmundssen» sem höfundarnafn. Vel skrifað.

11. 4 blöð fúin og rotin mjög, úr glósnakveri ísl.-latínsku.

12. Grafskript yfir Kjartan Ólafsson, með hendi Jóns Borgfirðings; eptir Sigurð Lynge.

13. Vísur til Jóns Borgfirðings eptir V. Hölter.

14. Játning Eleónóru drottningar Hinriks kongs annars. «þýtt úr dönsku og kveðið af H. J.» («Englands konung inna»), 2 er. Með hendi Jóns Borgfirðings.

15. 4 blöð er á eru: Til assessor B. Thórarensen («Yðar kunnur mjer er munnur»), 1 er. Georg («Mál er mjer að hreyfa letri»), 4 er. Pètur («Gimstein góins hellu betri»), 2 er. G. P. Hjaltesteð («Dáð há dyggðir foreldranna»), 2 er. Eitt orð til Georg góða («Ljúfs manns líf í þessum heimi»), 2 er. Nokkrar vísur úr Háttatali Snorra Sturlusonar, snúnar í ferskeytta bragarhætti («Hákonar sá heiti ber»), 10 er. Sýnist vera með hendi Einars Bjarnasonar á Mælifelli.

16. þula («Við í lund») eptir þorlák þórarinsson.

17. Vísa eptir Jón Thóroddsen («Í Babýlon við Eyrarsund»).

18. Eptirmæli eptir Oddnýju Jónsdóttur á Hesti í Borgarfirði, † 1856. («Heyrist harmafregn»), 18 er. Með ljóðahætti. Með hendi Jóns Borgfirðings.

19. Óma veiði («Gróu sel jeg guði á hönd»); ferskeytt vísa eptir Ara skólapilt Pjetursson, og með hans hendi.

20. «Nokkrir sálmar út af evangelis árið um kring, ortir af sira Jóni Bjarnarsyni (Páll stúdent Pálsson hefir ritað við: «NB. S[r] Ein. Sigurðss» [1]), sem var Beneficiator að Presthólum». þetta er að eins helmingurinn frá aðventu til páskadags. Skrifað með fljótaskript.

21. Nokkur blöð úr prjedikun einhverri; fyrir ofan meginmálið á hverri síðu stendur: «Af eilífðinni». Með settletri.

## № 478.

1. Kver með: 1. «Bæn út af pínu Jesú Christi» eptir sira Eldjórn Jónsson og aðrir sálmar, þar á meðal «einn góður sálmur úr dönsku útlagður af sr. Stefáni Ólafssyni í Vallanesi». Undir öllu þessu stendur: Einar Jónsson. — 2. «Um nokkra angistar þanka iðrandi guðs barna og huggun þar á móti». Undir því stendur bundið J. H. S. Með fljótaskrift.

2. Ræða á 4. sunnudag í aðventu, eptir sira Jóhann Tómásson á Hesti, og með hans hendi. Önnur ræða eptir sama. — Líkræða yfir Halldóri Halldórssyni, eptir sama. — Húskveðja og líkræða eptir Kristján sál Eileifsson (1845), eptir sama. — Bæn út af hingaðburð Krists í ljóðum, eptir sama, ort 1847. Aptast er: Vísur eins ferðamanns, eptir sama.

3. Ræða, með fallegri fljótaskriptarhendi.

---

[1]) Eru prentaðir í Vísnabókinni 1612, og eru eptir S. Einar í Heydölum.

## № 479.

Kápulaus hept blöð nokkuð rotin og óhrein; á þeim er:

1. Saga Kýrosar gamla Persakonungs, og «er útlögð eptir fyrnefndum sagnaskrifurum Henophon (á að vera Xenophon) og Metastem». Sagan er í 30 kapítulum; hdr.* byrjar mitt í 4. kap.

2. «Rímur af Jasoni bjarta, kveðnar af Jóni Þorsteinssyni», brot, er endar á 88. er. í 2. rímu. Höndin er fremur smá fljótaskript.

## № 480.

Nokkur hept blöð í skinnkápu; þar á eru leiðrjett explicanda (þýðingar) með fljótaskript, eptir einhvern skólapilt.

Enn fremur er lagt innan í: 1. Bænir og sálmar með annari hendi á 6 blöðum; og 2. Bæn út af Krists pínu í ljóðum og sálmar; á einni örk; fljótaskript. Enn eru þar nokkur blöð, er á er dálítið úr fornaldarsögunni; úr sögu Rómverja og Asíuríkja, ritað með fljótaskript.

## № 481.

8 blöð, er á er einhver ættartala rituð, en hvers, verður tæpast sjeð; það vantar framan og aptan af. Með hendi Jóns Espólíns. Enn fremur eitt blað, með annari hendi, rotið, úr annari ættartölu.

## № 482.

Safn af ýmsum ættartölum með ýmsum höndum; lausheft og ósamfest.

1. Með nýlegri hendi, brot af prestaættum á austurlandi.

2. Brot af ættartölum með stórri fljótaskript, er líkist nokkuð hendi sira Ólafs Pálssonar.

3. Ættartala Guðmundar Þórðarsonar, föður Helga biskups. Aptan við er «Grafskript yfir Guðmund sál.

þórðarson af stiptpróf. M. M.» (= Markúsi Magnússyni) og «önnur af Bjarna ridd. Sivertsen».

4. Lítið ættartölubrot.

**№ 483.**

Laushept kver (68 síður) er á eru «Niðjar Einars í Eydölum»; skrifað af Sigurði frá Steinum undir Eyjafjöllum.

**№ 484.**

Rímur af Flóres og Blansiflúr eptir Níels Jónsson skálda, á lausum blöðum, brot, hefst í 3. rímu og endar í 9. Líklega eiginhandarrit.

**№ 485.**

Blöð nokkuð rotin. Á þeim er:

1. Landmæling (? Af fyrirsögninni sjest að eins ... mæling) með myndum og einu uppdráttarblaði. Skrifað með einkarfallegri fljótaskript.

2. «Vallarmæling authore magistro Jona Arneo episcopo», skrifað með sömu hendi, en letrið er hjer gotneskt letur, og er eins fallegt, sem á beztu skinnbókum að allri stafagerð; bönd eru og eins og í þeim.

**№ 486.**

Kver lítið bundið. þar á er: «Ættartal Davíðs Helgasonar Bergmann». Með hendi Ólafs Snóksdalíns og líklegast eptir hann sjálfan. Saurblöðin hafa verið úr brjefi, er ritað er í «Efranesi 6ta Martsii, 1819», og er þar í mikið talað um ættir, og er líklega til Ólafs, en fremra saurblaðið (helmingur brjefsins) er rifið af.

**№ 487.**

«Ættatöl góðfrægrar höfðingskvinnu Mad. Ingibjargar Eiríksdóttur á Skarði á Landi. Samanskrifuð Anno 1831 af Ólafi Snóksdalín». Eiginhandarrit.

**№ 488.**

Heft blöð, er á eru: Nokkrir sálmar: I. Guðselska er öll sæla («Fávizka mín það veit ei par»), 5 v. II. Bænar vers á jólum («Herskara drottinn hug vér glaðir»), 4 v.

III. Á sömu hátíð («Kristnin gjörvöll nú gleður sig»), 11 v. IV. Dómsins alhugsan útl. eptir nr. 261 í sálmabókinni dönsku (1834) («Guð minn hvernig mun ganga mjer»), 5 v. V. líks efnis útl. eptir sömu bók nr. 264. 5 v. («Líkaminn eins og lauf visnar») — o. fl. — á 20 blöðum. — Á aptasta blaðinu er: «Blöndal látinn NB. höfundurinn í bindindi», 5 vísur, undir liljulagi.

## № 489.

Kver bundið í trjespjöld, skrifað af Guðmundi Jónssyni á Gerðum við Stokkseyri. Höndin er prýðilega fallegt settletur. Þar á eru: Vikusálmar, kveðnir af síra Guðmundi Torfasyni árið 1838 («Meðan jeg lúinn lá á beð») og fleiri sálmar. — Aptan við liggur í kverinu: Ríma af ensku ævintíri, snúnu úr dönsku, af enskum stúdenti, 150 er. Vantar 11 fyrstu er. (úr mansöngnum). Fúið og rifið utan af blöðunum.

## № 490.

Kver bundið í skinn, en farið upp úr bandi, þó vel heillegt. Það er:

1. Sálmasafn, með formáli til lesarans í ljóðum. 27 sálmar, út af ýmsu: árstíðum, ýmsum ritningarorðum o.s.frv.
2. «Andlegar umþenkingar út af mannsins höfuðpörtum, hans sjerlegustu limum, skilningarvitum, og nokkrum öðrum sjerlegustu tilfellum; snúin í ljóðmæli anno 1771, og skiptast í 3 parta eður flokka».
3. «Elliskyggja eður skuggsjá, sem er eitt kvæði um ellina í þremur pörtum». Undir dróttkvæðum hætti. Ort 1769 (næstsíðasta er.). Höndin fremur óliðleg og blendingur af settletri og fljótaskript.

## № 491.

Samfest blöð, «ættartala Secilíu Gísla dóttur»; að mestu leyti með hendi Ólafs Snóksdalíns.

## № 492.

Kver bundið. Þar á er: Ágrip um Íslands náttúrugæði skrásett af Snorra sál. Björnssyni. Skrifað með

nokkuð einkennilegri snarhendi. 2 blöð með annari hendi. 58 síðar, en vantar aptan af.

## № 493.

Bundin bók, heldur þykk. þar á eru: Amadei Creutzbergs Hugleiðingar á hverjum degi árið um kring. Útlagðar á íslenzku 1780. þetta er þó að eins fjórði hlutinn (2. partur), er nær yfir apríl, maj og júní mánuði. Með hendi sira Björns Halldórssonar í Sauðlauksdal.

## № 494.

Hept kver, er á eru «Rímur af Rígabal og Alkanusi kveðnar af Jóhanni Steinssyni 1858», skrifaðar af syni hans Gesti 1872. 15 alls. Smbr. 53-54. er. í síðustu rímunni.

## № 495.

Bók bundin í spjöld með skinni utan um. «þessi bók inniheldur andlega psálma, hverjir að eru uppskrifaðir og samantíndir af Hallgrími Jónssyni, eiganda bókarinnar Anno 1739».

1. Uppvakning og áegging til guðrækninnar og kærleikans («þjer menn, sem hafið á margan hátt»), 35 vers.

2. Morgunbænir og kveldbænir Dr. Josuæ Stechmans, snúnar í söngvísur af sira Sigurði Jónssyni að Presthólum.

3. Ágætir vikusálmar ortir af þeim velehruverðuga og mjög vellærða andríka kennimanni sira þorsteini Ketilssyni; skrifaðir anno 1741.

4. Einn ágætur psálmur, ortur af sál. sira Hallgrími Pjeturssyni («Gef jeg mig allan á guðs míns náð»).

5. Stutt ágrip pínunnar og dauðans Jesú Kristí, ort af sira S. Ó. S.

6. Andláts sálmur sira Hallgríms Pjeturssonar («Guð komi sjálfur nú með náð»).

7. Annar sálmur ortur af sama («Guð bið jeg nú að gefa mjer ráð»).

8. þriðji sálmur ortur af sama («Á einum guði er allt mitt traust»).

9. Nýjárssálmur, ortur af sama («Árið hýra nú hið nýja»).

10-11. Nýjárs vers og nýjárs söngvísa («Af himni ljóma, af hauðri gróða»; «Árið nýtt gefi gott»).

12. Einn góður kveldsálmur («Líknsami Jesú lof sje þjer»).

13. Einn merkilega ágætur sálmur um endalok veraldar, gjörður af Th. Th. s. («Hjartasál og hug minn»).

14. Einn sálmur ortur af Eireki Hallssyni («Vatnið dauðans í voðahver»).

15. Sálmur úr dönsku útlagður («Lifandi guð jeg lofa þig») með annari hendi.

16. Einn góður sálmur («Heyr þú blessaði bróðir minn») með þriðju hendi.

17. Vikusálmar út af Lassenii bænum, ortir af þ. M. S. («Lof æra prís og þökk sje þjer») með 4. hendi.

18. Sálarinnar samtal við sálarinnar brúðguma Jesum. Út af lofsöngsins 5,8; með 5. hendi.

19. Bænarsálmur («Ó Jesús, Jesús, Jesús kær»).

20. Einn sálmur ortur af sira Jóni M.s í Laufá(si). («Mín sál í guði gleður sig») með 6. hendi.

21. Einföld ímynd fagnaðarsællrar heimboðskveðju Kristí til sinnar brúðar við hennar unnusta af heiminum og innleiðslu til föðurlandsins, í óbundnu máli. Með 7. hendi.

22. Vikubænir. Með 8. hendi.

## № 490.

Bundið kver. þar á er:

1. Ríma af þorsteini suðurfara («Jörmungrunda hvíta hrafna heyrð' eg gala»), kveðin af Árna Böðvarssyni. 127 er.

2. Ísland («Eg sit á sjónar hvoli»), kvæði eptir Eggert Ólafsson. Aptan við er vísan «Undarlegt er Ísland» eptir sama (Kvæði Eggerts Ólafssonar 195. bls.). Kverið er skrifað með ágætri fljótaskript, og stundum settaskript.

## № 497.

Laushept blöð, er á eru «Rímur af þorgrími kóngi og köppum hans»; 8 alls. Ortar 1853 (smbr. endann) af Jóni Einarssyni í Miðfirði (Skárastaða-Jóni).

## № 498.

Nokkur óhept blöð, er á er ritað með hendi sira Jóns í Möðrufelli.

1. «Einn psálmur, sem er minnisteikn hins hastarlega tilfellis, sem skeði við vesturlands Eyjasand þann 21. Julii 1757, þá skipið Spes forgekk í landtöku með 13 menn, öllum (!) úr einni kirkjusókn, en sá 14. komst lífs af, ort af þeim hjartanlega felur söfnuðinn Elsku Jesú og Skjóli. («Ó þú óþyrmið haf»); vantar aptan af.

2. Heilræða ágætur stafrófssálmur («Auga þitt settu sál mín á»).

3. Samtal í millum Guðs og þeirra, er misstu einn sinn ástvin (smbr. 1: «Ó þú óþyrmi deyð»).

4. Morgunþanki («Undir væng föðurs voldugasta»).

5. Vers út af sjöorðum Krists. («Kristur Jesús krossi á»).

6. Sumarvers («Sól rjettlætisins sæll Jesú») 16 vo, er öll byrja með Sól.

## № 499.

Vatsfjarðarannáll hinn síðari, eptir síra Guðlaug Sveinsson í Vatsfirði; eiginhandarrit höf. Nær yfir árin 1751-1793. Fyrri hlutinn (1751-86) er kominn frá Jóni Pjeturssyni, landsyfirrjettardómara, síðari hlutinn 1786-93 er sjer og kominn frá Jóni Borgfirðingi; vantar dálítið aptan af. Annars er annállinn hjer allur.

## № 500.

Safn af alls konar bænum ásamt þýðing af Jesú Sýraks bók. Ritað með tveim höndum. Er allt í blöðum og var öllu ruglað saman hverju innan um annað, en það hefir þó heppnazt að greina alla hina einstöku parta og setja þá saman í rjetta röð, þótt sumstaðar vanti alveg blöð í.

1. þýðing yfir Jesú Sýrakhs bók með formála Dr. Marteins Lúters. Vantar 1 blað, úr 27. kap.

2. Safn af bænum við alls konar tækifæri, í 4 köflum: a. þær bænir, þakkargjörðir og syndajátningar, sem á morgna og hversdagslega er nauðsynlegt að tíðka. b. almennilegar bænir, öllum stjettum gagnlegar. d. Nokkrar bænir, sem tilheyra sjerdeilis persónum (helzt kvennfólki, við giptingu, barnsburð o.s.frv.). e. bænir um kristilegan afgang með nokkrum kveldbænum. Skrifað með sömu hendi og Jesú Sýraksbók, en hjer nokkuð stærri, árið 1655. Allar þessar bænir eru þýddar úr latínu og þýzku af Magnúsi Sæmundssyni (sem ekki getur verið sira Magnús á þingvöllum 1746-80), er hann var erlendis, og sendar heim og tileinkaðar systur hans, Guðrúnu, og er alllangur inngangur, ávarp til hennar. Vantar á einstöku stöðum blað og blað.

3. Bænir á kvöld og morgna sig daglega guði að befala Doct. Johann Aexicolæ. Úr dönsku máli útlagðar. Eru það fyrst vikubænir kvöld og morgun, og svo einstakar tækifærisbænir. Skrifað með annari fljótaskriptarhendi.

Enn fremur er þar með eitt blað með fyrirsögninni «Lectori salutem» (kveðja til lesarans); þar undir stendur: «Olaffur Jonsson mz eiginn hendi», afsakar hann þar í ritvillur á bænunum; á því líklega við 2. Höndin er sú sama sem á 1 (eins smá). 1-2 eru því rituð um 1655 af þessum Ólafi Jónssyni.

Utan um hverja síðu er útflúruð svört grind, sem

sýnist vera prentuð, en ekki (pentuð) dregin með penna. Hefur þetta safn því verið skrautbók.

þess skal enn getið, að innan í liggur upphaf að boðsbrjefi um að stofna aktíufjelag handa «Landsuppfræðingarfjelaginu»; skrifað skömmu eptir að Björn Gottskálksson fjekk Hrappseyjar prentsmiðju 1794 (sjá Prentsmiðjusögu Jóns Borgfirðings. 41. bls.).

## № 501.

Lífsleiðing, kvæði ort af Guðmundi Bergþórssyni («Dægrastytting skemta skal»), 50 er. Skrifað með ágæta fallegri og skýrri settletursbendi.

## № 502.

þykk bundin bók; rituð með ýmsum höndum. þar á er rímnasafn.

1. Rímur af Ármanni Dalmannssyni og þorsteini Eitilssyni, kveðnar af Jóhannesi Árnasyni Anno . . . (rifið af titilbl. («Byleigs hallar bruggað vín»). þetta mun vera eiginhandrit höf. og er skrifað um áramótin 1823-24. 15 rímur alls.

2. Rollants rímur, brot, er byrjar í 27. rímu; 40 alls. Páll stúd. Pálsson hefir ritað framan við bókina «ortar af Guðmundi Bergþórssyni t. a. g. rjettara af Jóni þorsteinssyni í þorgeirsfirði» (rjett). Sjálfur hefir höf. bundið svo nafn sitt:

Sá er Norðra fley á för
færði tals af leiti
landa merki og líf við skör
læt jeg sem hann heiti.

Neðan við stendur: «entar dag 24. maij 1767».

3. Rímur (2) af hvarfi og drukknan árið 1768 Eggerts vicelögmanns Ólafssonar (Reisurímur; «Suðra renni eg súða hind»). Ortar af Árna þorkelssyni frá Meyjarlandi. Höf. bindur nafn sitt svo:

Ár, ís höggvinn, önnungs stím, aukin sleipnis ganga o. s. frv. Aptan við er «ályktun sira þórarins Jónssonar» («Herjans ef að horna miólk»).

4. Nokkrar vísur kveðnar af lögmanni Sveini Sölfasyni og sira Magnúsi Einarssyni um þorlák Guðbrandsson og Guðmund Bergþórsson («Vel þó hafi vandað fenginn». «Rekur mig í rogastans» o. s. frv.); tvö handrit.

5. Grobbíansrímur, ortar af sira Jóni Magnússyni og Leirulækjar-Fúsa o. fl. («Mörgum virðist fróðleiks frægð»), 6 alls.

6. Rímur af Helga hundingsbana og Sigrúnu Högnadóttur, ortar af Gísla Konráðssyni («Sagan getur Sigmundar»), 7 rímur. Aptan við stendur: «þessar rímur eru uppskrifaðar á Hellissandi eptir rímum frá þeim, sem kveðið hefur, og hans eigin hendi, páraðar 1854 af 9. 14. 8. 1. 13. 13. 5. 18. 9. | 9. 5. 13. 18. — 18. 9. 13. 9. (= Jóhannesi Jenssyni) frá Hamraendum í Breiðuvík».

## № 503.

Safn af ljóðmælum óbundið:

1. «Tíðavísur eptir sira Jón Hjaltalín prest. Byrjaðar 1779», vantar aptan af; endar í 2. er. fyrir árið 1827. Greinileg snarhönd.

2. Kvæðið Hugarhægð («Margir hafa menn í heim»), 7 síður.

3. Lifnaðar leiðsla, gjörð af J. H. (= Jóni Hjaltalín).

4. «Íslands grátur orðinn að hlátur, við útvalningu þess hávelborna herra, herra Ólafs Stephánssonar, til að vera stiptamtmaður yfir Íslandi anno 1790» («Nú vil jeg Klíó lið mjer ljái»), 10 síður.

5-7. «Eptir Frímann» («Eg vinn ull í þráð»). — Annað og þriðja sama efnis. 4 síður.

8. «Eptir Baggesen» («það fer svo vel um veraldar hjól»).

9. Bóndinn sem kom í Kaupinhafn, eptir Frímann («Jeg kom í kóngsins Kaupinhöfn»).

10. Um heyskap («Haf þökk ó guð fyrir hvert eitt strá»).

11. «Starkaður, þá hann barðist við þá níu berserki fyrir Helga». Gamankvæði («Starkaður settist svo við bakkann»).

12. Baggesen: Um bata kærustu sinnar («Sízt mér færði sólin gleði»).

13. Sumarheilsan til Hr. B. Benediktsen árið 1823 («Minn andi kom og flýjum frá»).

14. þrastarkviða («Fuglinn sá hefir fagran róminn»). Aptan við stendur «eptir authoris eigin hendi».

15. Brot af sálmum, með annari og eldri hendi.

## № 504.

Safn af ljóðmælum Ara skólapilts Pjeturssonar, sem dó í Reykjavík. Flest á lausum blöðum, sumt hreinskrifað, flest í uppkasti. þar á meðal eru: Rímur af Trójumannabardaga og Eyðilegging Trójuborgar», kveðnar 1863. 16 alls. það er útdráttur úr Ilionskvæði Hómers Grikkjaskálds.

## № 505.

Bundið kver, er á eru: Rímur af Hálfdani og Hildigeir, ortar af Eiríki Eiríkssyni (smbr. 98. og 99. er.) í síðustu rímunni:

98. Vakir tvær og vatnaþil
virða reiðir tvennar
sárleg kaun í suddabyl
so má nafnið kenna.

99. Föðurs nafn jeg segi senn
sama og mitt er bundið o.s.frv.

Rímurnar eru 8 tals, og ortar árið 1765 (smbr. 100. er. í 8. r.). Hdr. hefir Geir tómthúsmaður Vigfússon á Akureyri ritað.

**№ 506.**

Dálítið kver, stíftheft. þar á eru: Miscellanea quædam ex variis eruta (Ýmislegt, tekið úr hinu og þessu) A° 1736. Fyrst er nokkuð viðburðatal. Síðan nokkur vers («Eins sem aumt er að vera» o. fl.). Málshættir og útlistanir á þeim. Minningarskál (Ræða). Ræða guðrækilegs efnis, og aptur málsháttaþýðingar. þá kemur «Culmínatíón nokkurra enna helzt þekkjandi stjarna» með hendi Gunnlaugs sýslumanns Briems. Svo útvigtarreikningur með sömu hendi.

Fyrri höndin er heldur smá fljótaskript.

**№ 507.**

Innheft blöð í aflöngu broti, er á er: «ættartala heiðarlegra hjóna Monsieur Magnúsar Jónssonar, og Mad^m Helgu Ingimundardóttur samantekin 1827» af Ólafi Snóksdalín og með hans hendi.

**№ 508.**

Kver í aflöngu broti. þar á er: «Genealogia hr. Justitiarii Th. Sveinbjörnsen og frú Guðrúnar Oddsdóttur; samanskrifuð ár 1837 af Ólafi Snogdalin á Skallagrímsborg á hans 76 aldurs ári». Framan við er fest inn sendibrjef frá sira Halldóri Ámundasyni, skrifað á Melstað 1. febr. 1832.

**№ 509.**

Safn af ættartölum í aflöngu broti; sumt brot og partar.

1. «Ættartal Mad. Sigríðar Árnad. Melby», með hendi Ólafs Snóksdalíns og eptir hann.

2. «Ættartala kaupmanns herra Sveinbjörns Ólafssonar, konu hans Málmfríðar Árnadóttur og þeirra barna», með hendi Bjarna ættfræðings á suðurnesjum og sjálfsagt eptir hann.

3. Brjef til Ólafs Snóksdalíns frá Árna Jónssyni á Borg í Miklaholtssókn ($^{12}/_{8}$, 183*(?). þar á hefur Ólafur sjálfur skrifað nokkrar ættartölur.

4. Lítið brot af einhverri ættartölu.

№ 510.

Kver með trjespöldum og skinni utan um; upp úr bandi og dálítið rotið. Titill þess er svo: «Drottins vors Jesú Kristí píningar historíu átta prjedikanir, samanskrifaðar og útlagðar af Jóni Auðunssyni .... Skrifaðar Anno 1779». þessi Jón var prestur til Bergstaða og Bólstaðarhlíðar 1740-82; þetta er því sjálfsagt eiginhandarrit. 2 síðustu blöðin eru þó með annari hendi, og dálítið vantar aptan af.

№ 511.

Lausar arkir þrjár; á þeim eru «Fáein andleg ljóðmæli orkt af presti Birni Halldórssyni». Skrifuð með laglegri snarhendi.

№ 512.

Blöð skrifuð með greinilegri settaskript; vantar blað framan af, og er safn af ýmsum smásögum um hitt og þetta og ýmsum sögulegum atriðum, t. a. m. um uppruna prentverksins o. fl. Aptast er saga af Hróa hinum heimska. Allt er þetta «endað að skrifa þann 28. jan. 1802 af Ó. J. s.» Á blað, sem utan um safn þetta liggur, hefir Gísli sál. Magnússon skólakennari ritað: «Ól. jns. á svartagjili?».

№ 513.

Kver með trjespjöldum upp úr bandi og trosnað. þar á er:

1. Heimspekingaskóli eptir Guðmund Bergþórsson. Vantar dálítið í 8-9. grein.

2. Brot af annálum í ljóðum, er byrjar í 20. er. í 7. annál (1763) og nær til 10. annáls (1766). þá kemur 11. annáll yfir sama ár, kveðinn af sira Jóni Bjarnasyni á Ballará og síðast eru 2 er. úr annál fyrir 1767 líklega eptir höf. fyrri annálanna.

3. Endurminning þess sorglega tilfellis, er skeði á Suðurnesjum 1758. («Í sínum fagra lofsöng les»).

4. Ágætur kveðlingur, sem heitir Barnaber («Heilög þrenning himnum á») eptir Ásmund Sæmundsson.

5. Kvæði («Heimi tekur að halla»).

6. Orðsháttakvæði («Kvæðin ekki liggja nú á lausu»).

7. Orðskviðaklasi, í ljóðum samanbundinn af Jóni Hálfdanarsyni á Hóli í Svartárdal nú að nýju uppskrifaður Anno 1790 af Benedikt Gabríel Jónssyni á Auðkúlu (smbr. III, 37. «það er gott að girnast nú»), 168 er.

8. Greifaríma («Öls Hjaranda uppsett krús») 44 er.

9. Frá sýn Ólafs kóngs; í óbundnu máli.

10. Draumur kvinnu Pílató (!) eptir Jósephus söguritara. Brot.

Kverið er að mestu skrifað af Benedikt Gabríel Jónssyni. Fremra saurblaðið er brjef til hans.

### № 514.

Hept blöð, er á eru Barnaljóð Vigfúsa Jónssonar prests á Stöð («Árin hafði jeg alls á baki»).

### № 515.

Lítið kver í kápu. þar á er:

1. Hrakningssálmur 1796 Erlendar Guðmundssonar («Ó, hvað opt þreifa maður má»), 77 er.

2. Sálmur ortur af síra Jóni Oddssyni Hjaltalín («Hýrir gestir hjer að borði»).

3. Geðfró («Faðir sonur og friðar andi»), brot endar í 23. er.

### № 516.

Kver í trjespjöldum og leðri utan um, er á eru: Rímur af Flóres konungi og sonum hans, ortar af Páli Jónssyni bónda á Jökli í Eyjafirði. Vantar endann á 5. og byrjunina á 6. Alls 16 rímur. Prýðilega vel skrifaðar af Ara Sæmundssyni 1829.

### № 517.

Innbundin bók, er á er «Sögusafn». þar á eru:

1. Saga af Hálfdani Brönufóstra. Rituð með tveim höndum, önnur er mjög fallegt og greinilegt settletur.

Ritarinn er þorkell Björnsson, sem sjá má af vísu þessari, er rituð er á eptir sögunni:

Er nú sagan enduð hjer;
þó illa blek á hrini
þettað hripað þó nú er
þorkeli af Björnssyni.

árið 1820.

2. Sagan af Sörla sterka, rituð með ýmsum höndum (fljótaskript) fyrir árið 1778.

3. Sagan af Geiralda (svo) jarli með fljótaskript.

4. Æfintýri af Eiríki víðförla. Undir stendur: «Skrifað á Hóli af þorkeli Björnssyni Año 1802».

5. Söguþáttur af þorsteini hvíta. «Enduð anno 1811 af Th. Björnssyni».

6. Æfintýri af þorsteini austfirðing. «Endað 3. april af Th. Björnssyni.

7. Sagan af Gunnlaugi ormstungu og Skáld-Rafni. «Enduð þann 27. maij Año 1810 af þorkeli Björnssyni».

## № 518.

Samtíningur á lausum örkum og blöðum, með ýmsum höndum frá ýmsum tímum.

1. Skipafregn («Vorið langt»).
2. Ein gáta («Hver er sá haukur»).
3. Brot af hugvekjum.
4. Sagan af Sigurði tu(rnara); illa skrifuð. Á aptasta blaðinu er byrjað á sögunni af Ásmundi Húnakóngi og Sigurði fót; að eins 6 línur.
5. Rímur af Jóhanni Blakk, kveðnar af Gísla í Klungurbrekku árið 1814 («Mönduls snekkja máls af grund»).

## № 519.

Kver hept, er á er:

1. Calendarium Gregorianum eður sá nýi stýll; með íslenzkum missiraskiptum fyrir 100 ár, eptir Jón bisk.

Árnason í Skálholti. Skrifað 1799(?) af Benedikt Jónssyni (Gabriel) í Rafnseyrarhúsum.

2. Fáein erindi («Veri vina gleði»).

3. Önnur vers («Hýmis dætur hvopt Leirgerðar bleyti»).

4. Bússubragur («Hafið þið heyrt þá fregn»), 13 er.

5. Pappírs l(eysi) («Verkin vinnukvenna»).

6. Arfsókn («Draumur blekkti drukkinn hal»), 6 er.

7. Hávellukviða («Líkur forðum laumuketti»).

8. Nokkuð um stólpípu og þarmlút (með annari hendi).

9. Jólaskrá hins heil. Beda prests.

10. Seinast er nokkur spakmælasamtíningur, brot.

## № 520.

Kver, bundið í skinnkápu, en orðið laust upp úr bandinu fyrir fúa sökum. Þar á eru: Auðbjarnar rímur («Mærðar vess úr minnis borg»), ortar af síra Jóni Magnússyni í Laufási. 8 rímur alls. Höndin gamalleg fljótaskript.

## № 521.

Kver upp úr bandi og nokkuð lasið. Þar á eru:

1. Stafrófs og heilræða sálmur ortur af Þórbergi Þórsteinssyni («Augað þitt settu sál mín á»).

2. Jólasálmur, ortur af sama («Malakía sól sæta»).

3. Fleiri sálmar, þar á meðal einn út af 27. hugvekju Stúrms.

4. Kvæði nokkur, þar á meðal Sethskvæði («Ótti drottins upphaf er»).

5. Fáein orð um tíund og tíundargjörð Anno 1774.

6. Um tíundargjörð (í öðru broti).

7. Rjettabætur allrar íslenzkrar lögbókar.

## № 522.

Lítið kver, er á er: «Ættatal góðfrægra heiðurshjóna Mr. Sigurðar Bárðarsonar og Guðrúnar Eiríksdóttur, búanda á Litlahrauni. Samanskrifað 1834 af Ólafi Snóksdalín.

Uppskrifað eptir eiginhandarriti höfundarins af St. þ. (= Stefán prófastur þorvaldsson?) Snarhönd.

**№ 523.**

Safn af ljóðmælum Magnúsar prests Grímssonar, flest á lausum blöðum og nær allt eiginhandarrit, sumt búið til prentunar. þar á meðal eru og rímur af Flóres og Blankiflúr. Innan í liggur og brjef frá Teiti dýralækni Finnbogasyni.

**№ 524.**

Psalterium passionale eður píslar-psaltari (= Passíusálmar) sira Hallgríms Pjetúrssonar, skrifaður 1787, með prýðilega fallegri settletursheudi. — Bundið 1820.

**№ 525.**

Lítið kver bundið. þar á eru: Hymni scholares ad Auroram canendi. Anno 1687. það er safn af sálmum snúnum á latínu, og eru sumstaðar skrifuð við upphöfin á hinum ísl. frumsálmum.

**№ 526.**

Safn af almanökum fyrir 1812, 1818-1821 (prentað, á dönsku), 1823-24, 1826, 1829, 1831-34. Aptan við 1818 er kvæði: «Árið runna æru sanna». Aptan við 1819 nokkrar vísur: «Áfram skeiðar elfan greið». Aptan við 1824 stendur vísa: «Mitt jeg meinið með mér ber».

**№ 527.**

Lítið kver laust í bandi. þar á er: 1. Morgunsálmar og kvöldsálmar, ortir út af bænabók Dr. Josuæ Stegmanns. 2. Vikukvöldbænir eptir sira Jón Oddsson Hjaltalín. Vantar aptan af.

**№ 528.**

Bundið kver. þar á er: «Ein stutt en þó guðrækileg hús- og reisupostilla». Eptir Dr. Andreas Pangratius, snúin á íslenzku af Guðbrandi biskupi þorlákssyni. Skrifuð eptir bókinni, er prentuð var á Hólum 1636, «á Holtum 1785 af Sigurði Magnússyni, þá 65 ára gömlum.

304 bls. — Á síðara saurblaðið er ritað með nýlegri hendi «Herra Nói», o. s. frv. 10 er.

### № 529.

Samfestar arkir, er á eru: Þjóðlífsrímur («Nú skal vestra búna hund»), 11 alls. Seinustu síðurnar ritaðar með ritblýi, og síðasta síðan nær ólesandi, og vantar sjálfsagt dálítið aptan af. Endar á 84. er. Ritaðar með stórri heldur óliðlegri snarhendi.

### № 530.

Blöð (1 ark); þar á er:

1. Griðkuríma, kveðin af Gamalíel Halldórssyni og Illuga Einarssyni á Hlíðarenda í Bárðardal («Gandólfs skal hjer skútu mynd»), 76 er.

2. Tíkar vísur («Fenjan beina fallin er»), 12 er. — Höndin greinilegt settletur, nýleg.

### № 531.

Bók bundin í trjespjöld með skinni utan um, látúnsbrydd á öllum hornum með tveim spennlum; annar dottinn af. Nokkuð rytjuleg og upp úr bandi. Þar er á:

1. Veraldlegrar stjettar persóna bæn, og Bæn eins dómara 1-3 bls.
2. Manntalsþingssetning og uppsögn 4-10.
3. Fimmtarþingssetning og uppsögn 10-12.
4. Hjeraðsþingssetning og uppsögn 13-16.
5. Útþýðing bókareiðs 17-25.
6. Eiður til skatts og tíundar og fleiri eiðar, og form, stefna, fimmtarstefna, heimstefna, þingstefna, kyrrsetning. 25-37.
7. Um stefnur, um vitni, um málsgögn sakarábera og mótpartsins 38-56.
8. Form jarðakaupabrjefs og fleira, sem slíku við kemur 56-60.
9. Erfðir að manntali 61-76.
10. Um griðastaði, griðatíma og fleira um grið. 76-78.

11. Ámóti appelleran. Um fullrjetti o. fl., um sókn fyrir fátæklinga, um sektir o. fl., saktalsreikningur, um alls konar tolla, legkaup, tíundargjörð. Um fjárlag; um vorlag á sauðum o. fl. 78-126.

12. Hver mál sækjast eiga með fimmtarstefnu o. fl. 127-134.

13. Nokkrar rjettabætur Noregs konunga. 135-208.

14. Hirðsiða 17. kapítuli og um helgra daga vinnu 209-10.

15. Uppteiknuð uslagjöld; um heitingar; leigufje o. fl. 210-14.

16. Actorum et judiciorum quorundam compendiosa digestio. 215-43 (á íslenzku).

17. Extract rjettarbókar kóngs Christians 1456 o. fl. 244-260.

18. Nokkra alþingisdóma og samþykkta inntak. 261-76.

19. Alþingissamþykktir eptir bók Sigurðar Jónssonar lögmanns. 277-99.

20. Extract af dómum nokkrum. 300-5.

21. Um gjaftolla og prófaststolla 305-8.

22. Lög Íslendinga um það, hvað varða skuli lönd og landsnytjar. 309-22.

23. Um heimiliskviðarvitni 323-4.

24. Óðalsbálkur 325-61.

25. Brjef Kristjáns 4 um jarðarsölu, um eyðijarðir, um ábata eptir kú 362-4.

26. Saktal þess forbetraða kristins rjettar 365-76.

27. Um presta dagsverk og nokkrar alþingis samþykktir 376-80.

28. Sjerlegasta inntak nokkra alþingis- og hjeraðsdóma 381-407.

29. Um prófasta og presta o. fl. 409-32.

30. Dómur um eyðijarðir (1604); lagaákvæði ýmislegs efnis 433-49. — Vantar 450-3.

31. Inntak úr nokkrum alþingisbókum 454-72.

32. Inntak amtmannsins Kristjáns Mullers pósta um alþingisskikkun, brot. 473.

Aptan við er registur yfir bókina í blöðum, rifið og reglulaust. Bókin er mest öll með sömu hendi, vel greinilegri fljótaskript.

Framan á fremra saurblaðinu stendur: «þessa Bok ā vnderskrifadur Reikjū J olvefe 14 Mar[ts] A° 1706 Halldór Jonsson (?)». þessi maður hefir ritað bókina.

## № 532.

Bók bundin í trjespjöld og skinn utan um; fremur þykk. Skrifuð með greinilegri og fallegri settaskript 1789-1828. Vantar aptan af. Endar á bls. 542. Á henni eru alls konar sálmar, bænir, andleg vers og vísur, brúðkaupskvæði. Eitt er ort þá er þóroddsstaðar kirkja var reist að nýju 1793, undir nafni prestsins, er þar var þá, þ. e. þorleifs Sæmundarsonar. Á öðrum stað finnast tvær vísur undir nafni «þorsteins Hjaltasonar». Bls. 344 er kvæði, er höf. (?) telur í sálma sína og önnur kvæði; líklega er allt þetta safn eptir Pjetur nokkurn Rafnsson; smbr. 175 og þar á eptir; þar á meðal telur hann Rímur af Búa Andríðarsyni og Jökli syni hans, og þær síðustu eru í 269 í 8 bl. br.

## № 533.

Safn af andlegum ræðum við ýms tækifæri eptir sira þórð Jónsson í Lundi. Komið með safni Magnúsar prests Grímssonar.

## № 534.

Kver í skinnkápu, upp úr bandi og nokkuð rotið, með einum spennli. þar á eru:

1. Kvöld- og morgunbænir Lassenii, og vantar framan af, aptur í miðvikudags kvöldbæn.

2. Morgunsálmur («Sæll þúsund sinnum sjertu») og kvöldsálmur («Er nú dags úti tíðin»). Sálmur út af fæðingu Krists («Undarlegur friðar fursti») eptir M(agnús)

E(inarsson). 2 vers eptir sira Sigvarð á Sjálandi. 4 önnur vers.

3. Einn iðrunarsálmur («Saurugur kem jeg synda þræll»), þýddur úr þýzku af sira Gísla Snorrasyni. — Enn einn ágætur sálmur af því sæta Jesúnafni («Jesús er sætt líf sálnanna»), annar sálmur og andlegar vísur.

4. Vikusálmar ortir af Sigurði Gíslasyni. Og eitt vess aptan við.

5. Ágrip af einum gyðing, sem nefndur er Assverus.

6. Samtalssálmur milli freistarans og syndugs manns, ortur af sira Magnúsi Pjeturssyni á Hörgslandi. — Morgunvess.

7. Helgikvæði («Furðuverkin fram skal greina», viðkvæði: «tignið drottinn tíma og ár»).

8. Veroníkukvæði («Kveð jeg um kvinnu eina»).

9. Sálmur um dómsdag («Sál mín í trú»).

10. Nýjárssálmur eptir sira Þorlák Þórarinsson.

11. Um óstöðugleika þessa lífs og þess armæðu frelsi («Leit jeg standa lilju netta»), með vessi eptir sira H(allgrím) P(jetursson).

12. Ein góð gömul söngvísa um eymdir þessa stundlega lífs og sælu eilífs lífs («Langar mig í lífshöll»).

13. Bænarkorn («Minn Jesú mæti»). Sálmur um eilífrar dýrðar vistarveru («Hvenær fæ eg fögnuð þann»). Sálmur («Heilagur drottinn himnum á»).

14. Sálmur, ortur af Sigurði Gíslasyni («Sú þegar kemur sælustund»). Lærdómssálmur («Guð með orði gæzku hýr») 41 vess. Annar sálmur (brot).

15. Minnisteikn þess hastarlega tilfellis, sem skeði við Vestur-Landeyjasand 21. júli 1757, af þeim sem hjartanlega felur söfnuðinn Jesú skjóli («Ó þú óþirmið haf»).

16. Morgun- og kvöldsálmar, þýddir úr þýzku af sira Gísla Snorrasyni. Blessunarorðin. Vess.

17. Vikubænir Dr. Joh. Olearii, útlagðar af Þórði biskupi Þorlákssyni. Kvöldvess.

18. Andvarp um rjettskikkaða bænrækni eptir sira M(agnús) E(inarsson).

19. 3 kvöldvess eptir þorstein studiosus Sigurðsson, þorvald Magnússon og Sigurð þórðarson á Brjámslæk, sitt eptir hvern.

20. Bænir og guðrækilegar athuganir.

## № 535.

Blöð óheft, er á er:

1. Kaupmannabragur («Skáldin forðum skemmtu sjer með fræði») 85 er».

2. Stallbræðrakvæði («Fundust eitt sinn forðum tíð»), skrifað eptir minni gamallar konu í Viðey 1868. — Innan í liggur kvæði, skrifað á seðil af þórði Sigurðssyni á Fiskilæk. það er eptir Sigurð Breiðfjörð, ort á Ási í Melasveit, eptir máltíð 1842 («Ofan af skálda tignartind»).

## № 536.

Bók í aflöngu broti, í skinnkápu, en trosnuð og upp úr bandi. þar á er:

1. Sagan af þórði hreðu.

2. Rímur af Búa Esjufóstra («Heiðurs fólk á hverri stund») eptir sira Eirík Hallsson. Aptan við er skrifuð dróttkvæð vísa um Búa (eptir þórð á Strjúgi?), og «inntak sögu af Jökli Búasyni» í 4 kap.

3. Ferjubragur («Bragurinn rís um bátinn einn») = Oddsbragur.

4. Stutt frásaga um upphaf og eyðilegging þeirrar gömlu byggingar norskra í Grænlandi o. s. frv.

5. Kvæði af einum greifa («Í Róm bjó ríkur greifi»).

6. Kvæði af þeim heimska og drambsama («Heimskur maður hitti á leið»).

7. Herodis ættir («Sónar lög úr sagnar dal»). 5 rímur, eptir sira Guðmund Erlendsson í Felli.

8. Pílatus rímur («Yggjar minni ofan snýr») eptir sama. 5 alls.

9. Kvæði um konung, sem ljet drepa sína ellefu syni («Fyrðum bæði og falda ungri gefni»).

10. Um skógarmanninn og ljónið («Á löngum skógi ljónið bjó»).

11. Af hananum og refnum («Haninn sat í hárri eik»).

12. Um refinn, úlfinn og ljónið («Eptirdæmið eina»).

13. Um akurmanninn, úlfinn og refinn («Út fór akurmaður»).

14. Um þann sem galt fimmfaldan toll fyrir einfaldan («Frægðar skáldið forðum tíð»).

15. Um tunglsins kveikingu.

16. Ágrip af Kristjáni konungi II. tekið eptir sögu Arilds Hvitfelds.

Höndin á bókinni er mjög falleg og greinileg settaskript.

## № 537.

Safn af lausum blöðum:

1. Vottorð Jóns Grímssonar um takmörk Syðra-Leikskála. Áskoran til Eggerts Jónssonar og Kristveigar Ólafsdóttur um að lofa bót og betran, og eiginhandarskjal Þorláks Skúlasonar ($^{27}/_{8}$ 1641) um sama.

2. Dómur ($^{18}/_{2}$ 1642) um letingjafólk í Húnavatnssýslu. Ritaður af Magnúsi lögmanni Björnssyni 1645.

3. Brjef Guðbrands biskups Þorlákssonar (20. jan. 1614; eiginhandarrit) um átroðning kvikfjenaðar á Garði og Tjörn.

4. Brot af ættartölu.

## № 538.

Bundið kver, er á eru: Sálmar út af pínu og dauða drottins vors Jesú Kristí, gjörðir og samanteknir af Þorbergi sál. Þorsteinssyni, skrifaðir að nýju 1765. — Huggunarminning af sjö sjerlegustu blóðlátum Jesú Kristí, eptir sama. — Bókin hefir verið eign Daða fróða.

### № 539.

Bundin bók í aflöngu broti, öll skrifuð 1836 af Daða fróða Níelssyni. þar á er: hin eldri Edda eðr brot af Eddu Sæmundar prests hins fróða Sigfússonar. Aptan á titilblaðinu er vísa um Sæmund eptir Gísla Konráðsson. Formáli eptir Daða. Í þessu Eddusafni eru: 1. Sólarljóð (Aptan við ýms rúnaletur). 2. Rígsmál. [3. Brot af Arinbjarnarkviðu]. 4. Hrafnagaldr Óðins. 5. Vegtamskviða. 6. Völuspá. 7. Hávamál. 8. Vafþrúðnismál. 9. Grímnismál. 10. Skírnisför. 11. Hárbarðsljóð. 12. Hymiskviða. 13. Lokasenna. 14. þrymskviða. 15. Alvíssmál. 16. Völundarkviða. 17. Helga kviða hin fyrsta. 18. Helga kv. Haddingjaskata. 19. Helga kviða hin síðari.

### № 540.

Heft kver; þar á er: Calendarium gregorianum með formála og skýringum, eptir Jón Árnason, dat. Holti 4. júlí 1706. Vel skrifað. Aptan á stendur: «J. Halldórsson Urðum 1840».

### № 541.

Kver með trjespjöldum og skinni. þar á eru:

Smákvæði, ort af sira Guðmundi Torfasyni árið 1843. Eiginhandarrit höf.

### № 542.

Dagbók í blöðum yfir veðráttufar á Álptanesi 1857 (brot), 1858 (brot), 1862 (brot), 1868 (brot), 1869 (brot), 1871-6 (brot), haldin og skrifuð af Birni vefara Bjarnarsyni á Eyvindarstöðum.

### № 543.

Heftar arkir, er á eru: Ljóðmæli nokkur eptir sira Ögmund Sigurðarson, rituð eptir eiginhandarriti höf., er var í vörzlum ekkjunnar, Helgu í Sauðagerði, af Finni Jónssyni (1871).

### № 544.

Ljóðmæli ort af sira þorláki þórarinssyni, uppskrifuð eptir eiginhandarriti, af Davíð í Kollugerði (?), sumt af Jóni Borgfirðing. Safnið er á lausum örkum.

## № 545.

Bók bundin í skinnkápu, skrifuð af Jóni Sigurðssyni, í Reykjavík síðast, áður undir Fjöllum; 458 bls. Á henni eru tómar ættartölur: 1. Holtsætt á Síðu, 1-39. 2. Ætt frá Jóni gamla Eiríkssyni á Síðu, 40-84. 3. Ætt frá Hannesi Krangefoð, 84-117. 4. Önnur ætt frá Jóni gamla á Síðu, 118-20. 5. Ætt systranna Gyríðar á Lambafelli, þorbjargar í Mörk og Vigdísar á Fitjarmýri, 121-3. 6. Ætt sira Bjarna í Gaulverjabæ, 123-30. 7. Ætt sira Bjarna á Skarði, 131-48. 8. Ætt frá sira Eiríki á Krossi í Landeyjum. 149-64. 9. Ætt sira Sveins prófasts í Hraungerði, 165-179. Fyrir 10 er eyða 180. bls. 11. Ætt þorvalds Böðvarssonar og þeirra frænda, 181-99. 12. Ætt Hannesar riddara, 200-16. 13. Ætt frá þórði Sigurðssyni, 216-27. 14. Frá Jóni Ásgeirssyni, 227-40. 15. Frá Jóni handskrifara, 240-3. 16. Ætt Gísla biskups 243-5. 17. Sigríðar Magnúsdóttur, 245-54. 18. Ingibjargar Markúsdóttur 255-7. 19. Móðurætt Stefáns í Selkoti, 257-74. 20. Ætt Ingvarsdætra á Skarði, 274-80. 21. Móðurætt þeirra, —282. 22. Móðurætt Ingibjargar Eiríksdóttur, 282-6. 23. Skógaætt, 286-99. 24. Ætt Guðnýjar konu Benedikts Högnasonar, 300-12. 25. þórunnar Torfadóttur, 312-15. 26. Solveigar Árnadóttur, 315-16. 27. Ragnheiðar Stiesen, 316-20. 28. Ólafs prests í Mörk, 320-3. 29. Sigríðar Jónsdóttur (fyrri konu Jóns eldra í Mörk), 323-7. 30. Bjarna í Pjetursey, 327-34 (Hjer eptir er blaðsíðutalan skökk). 31. Ætt frá Birni Pjeturssyni sýslumanni, 324-32. 32. Móðurætt Einars í Kaldaðarnesi, 332-48 (síðutalan leiðrjett). 33. Hallgrímur Pjetursson og niðjar hans, 348-52. 34. Gestsætt á Skrauthólum, 353-9. 35. Sira Páls Mathiesen, 359-68. 36. þorsteins klausturhaldara Magnússonar, 368-70. 37. Ætt Ólafs hreppstjóra í Nesi, 371-90. 38. Sama ætt, 390-4. 39. Ætt frá Finni Pjeturssyni, 394-7. 40. Sama ætt, 398-406. 41. Sama ætt, 406-22. 42. Sama ætt, 422-8. 43. Sama ætt, 428-35.

44. Árna hreppstjóra þorvaldssonar á Meiðastöðum 436-40.
45. Ætt Öræfinga, 441-58. — Hvort nokkuð vantar aptan af, er ekki hægt að sjá.

## № 546.

Kver með spjöldum og skinni utan um. þar á eru: Stellurímur eptir Sigurð Pjetursson («Í fyrsta sinni eg set á haf»), 8 rímur. Sýnast vera ritaðar með hendi Finns Magnússonar.

## № 547.

Kver í skinnkápu, en upp úr bandi. þar á er:

1. «Hugarfrjó» (fyrir-fró) («Grið setjandi grimmu stríði»); skrifað með rjett laglegri fljótaskript.

2. «Nokkur ljóðmæli við lag sem Hugbót», með annari hendi («Jesús þú hefir játað og sagt»), 8 v.; morgunvess: «velkominn drottins dagur sje», 5 v. Kvöldvess: «í kvöld mín sál, þú óska af rót», 5 v. Seinast sex vess, mjög dauf, með enn annari hendi («Er rètt(?) lækjar líking»).

3. Eitt vess: «þjer minn Jesú, sem þoldir»; með 4. hendi.

4. Einn sálmur ortur af síra Magnúsi Einarssyni («Lambsins blóð»), 16 v., skrifaður af Guðmundi bónda Magnússyni á Varðgjá í Eyjafirði 31. október 1817.

5. Ein bæn í ljóðum («Jesú pína, Jesú blóð og dauði»), með sömu hendi.

6. þrjú vess ort af síra Jóni þorvarðarsyni («Reynstu mjer guð minn góður») með annari hendi.

7. Nýjárssálmur, ortur af Md. Sigríði Jóhannsdóttur («Guðvel komin gleðitíðin»), 11 v., skrifaður af Guðmundi á Varðgjá.

8. Eitt vess («Gæzkuríkasti græðari minn»), skrifað af sama.

9. Jólalýsing prófastsins sál. síra Sigfúsar Jónssonar á Höfða («Nú eru jól»), 11 v., skrifuð af sama.

10. Eitt jólavess («Fæðing í syndum flekkar mig»); skr. af sama.

11. Brot af sálmi («Náttúrlegt þó eðli er»).

## № 548.

Kver bundið, nokkuð trosnað. þar á er: Hellismanna saga aukin getgátum til samans, með hendi Gísla Konráðssonar, og sjálfsagt eptir hann. Fullt af dróttkvæðum vísum í sögunni, auðsjáanlega frá síðari tímum, líklega ortum af Gísla sjálfum. 109 bls.

## № 549.

Brot af vikusálmum; byrjar á bls. 17 með 8. v. af sálmi («Ástríki faðir enn í dag»), sem er sjálfsagt seinni parturinn af mánudags morgunsálmi; endar í 8. v. af laugardags morgunsálmi á 80 bls. Skrifað með greinilegu settletri.

## № 550.

Kver, bundið, í skinnkápu. þar á eru: Einfaldar prjedikanir yfir historíu pínunnar og dauðans Jesú Christí, samanskrifaðar A° 1751. Skrifaðar með fljótaskript, rjett laglegri.

## № 551.

Kver bundið í trjespjöld og skinn utan um. þar á er:

1. Safn af sálmum út af ýmsum ritningarorðum. Vantar framan af og innan úr.

2. Morgunsálmur og kvöldsálmur; vantar framan af þeim fyrra.

3. Morgun- og kvöldbæn («Eilífi almáttugi guð»).

4. Sálmar aptur út af ritningarorðum, t. a. m. sjöorðum Krists. Huggunarsálmur út af hugleiðing Jesú velgjörninga («Ó Jesú sæti»).

5. Nokkrir sálmar úr þýzku og dönsku útlagðir. Vantar í.

Allt ritað með sömu hendi stórri og greinilegri settaskript.

Á einum stað stendur nafnið «Guðmundur Jónsson Fossvöllum í Hlíð».

## № 552.

Nokkur ósamfest blöð.

1. Hústablan eptir Dr. N. E. Balle. 14 síður.

2. Specification over Præsternes visse og uvisse Indkomster í Holum-Stift, eptir Jón lærða, og með hans hendi. 28 síður.

3. Registur yfir jarða dýrleika í Eyjafjarðarsýslu eptir Árna Magnússonar jarðabók með hendi Jóns lærða. 21 síða.

## № 553.

Kver í skinnkápu. Þar á er: Rit Thorstensens landfysíkusar «um Cholera landfarsótt», og aptan við tala síra Jóns lærða til sóknarfólksins út af sóttinni. Eiginhandarrit.

## № 554.

Kverkorn í skinnkápu. Þar á er: «Eitt lítið einvígi millum sannleikans og lyginnar orsakað út af eins ónefnds ritara lastmælum gegn innihaldi smáritanna frá því íslenzka evangeliska fjelagi», eptir sira Jón lærða. Eiginhandarrit. 66 bls.

## № 555.

Kver í skinnspjöldum. Þar eru á:

1. Sagan af Bæringi fagra, 1-66.

2. Sagan af Sigurði þögla og Cedentíönu, 67-190. Skrifað af Jóni Sigurðssyni á Steinum 1860.

## № 556.

Safn af ýmsum ljóðmælum o. fl.

1. Lítið kvæði, kallað Júppítersbragur, ortur af Jóni Hákonarsyni. («Ó þú Venus ástargyðja»), 73 er.

2. Nokkrar einfaldar huggunartölur (í lesmáli). — Bænarvess mörg. Sorgarvess mörg. — Bæn um fyrirgefning syndanna. — Umþenking dauðans («Jesú mín eðla yndis rós»). — Kristins manns andvarp á dauða-

stundunni («Lifandi Jesú líknaðu mjer»). Fleiri bænir og bænarvess. — Kvæðiskorn um fallvaltan hag («Leit jeg standa lilju netta»).

3. Nýjárssálmur («Árið hýra nú hið nýja»). — Annar («Fögnuð megnan færi jeg dýru»). — Kveðja sira Jóns í Vestmannaeyjum til burtsiglandi sonar síns («Að iðka gott með æru»). — Sjóreisusálmur («Í Jesú nafni»). — Heilræðasálmur Sigurðar Gíslasonar («Ástunda maður allra bezt»).

4. Ræða á sunnudag eptir sira Jón lærða í Möðrufelli, og með hans hendi.

## № 557.

Safn af ýmsum ljóðmælum á lausum blöðum og örkum.

1. Sendibrjef í ljóðum kveðið 1826 («Góði vinur minn gæddur sóma»). Lukkuósk til útsiglingar af Íslandi («Frá yðar gömlu fósturmóður»). — Við brúðkaup tveggja hjóna, kveðið 1826 («Skárra er meinlaust að skrafa en þegja»). Allt eptir Sigurð Breiðfjörð (?) í eiginhandarriti.

2. Nokkur gamankvæði: Fjögramanna kvæði («Fundust eitt sinn forðums tíð»), 63 er. — Tóukvæði («Þó fagurgalinn blaki blítt», viðkv.). Hjalvararsálmur (?) («Í vetur gekk hjer um veigalín»), endar í 27. er.; blöðin músjetin að framan.

3. Tíðavísur sira Þorláks Þórarinssonar árið 1756-69.

4. Ljóðabrjef eptir sira Pál Jónsson skálda («Það er sira Þórhalli»), 30 er. — Sendibrjef eptir Sigurð Breiðfjörð (?): «Allra gæða fylling flest». Skrifað af P. Ólafssyni 1865.

5. Formannsvísur eptir Sigurð Breiðfjörð («Fer jeg að reyna svörin sein»), 31 er. — Kvennagaldur eptir sama. — Ljóðabrjef eptir sama 28/12 1826: («Utan úr hafi heilsum vjer»), 35 er. 2 aðrar vísur eptir sama («Hver einn veit bezt hjá sjálfum sjer» og «Af gamla Teit er grafskript sú»). Með hendi Sigmundar Mattíassonar.

6. Vísur um Guðmund Bergþórsson eptir Ó. Ólafsson («Sjertu vin í söguvon»).

7. Saknaðarljóð eptir sál. faktór P. Guðmundsen («Hvað veldur því að harmakvein»), 18 er.

8. Vísurnar: «Fjölnir er kominn fróns að vitja», 20 er.

9. Erfiljóð eptir sira B. E. Guðmundsen («Hafin er frá himni»), eptir G. Bjarnason, 5 er.

10. Kvæðasafn dálítið eptir Guðrúnu þórðardóttur.

11. Brot af lukkuósk eptir Árna Jónsson.

12. þýðing á kvæði Hóraz rómverjaskálds: «Diffugere nives, redeunt jam gramina campis» («Snjórinn er flúinn af fold»).

13. Kveðja Bessastaðaskóla til Helga biskups Thorðersens, er hann fór utan til vígslu 1846 («Kallar dagsroði») með hendi sira Sveinbjarnar Hallgrímssonar.

14. Vísur ritaðar á líkkistu, með hendi Jóns Borgfirðings.

15. Jesú lof eptir sira Búa Jónsson, 10 vess.

16. Eptirmæli eptir sira Hannes Arnórsson, og þá sem drukknuðu með honum («Rjeðst með sæhetjum heimkynni frá»), eptir G. Eyjúlfsson.

17. Ýmisleg kvæði eptir Daða Níelsson fróða, með hans eigin hendi.

## № 558.

Ýmislegt smávegis:

1. Hjónabandsskilmálar Bjarna Halldórssonar og Valgerðar Helgadóttur, samdir að Sviðholti 12/10 1778.

2. Búnaðarbálkur (að eins titilblað).

3. Brot af þýðingu af kafla úr Aeneaskviðu Vergils rómverjaskálds.

4. Brot af Kasemssögu.

5. Kvæði um lát sira Hannesar Arnórssonar, sent þjóðólfi; eptir Gísla Eyjúlfsson («Rjeðist með sæhetjum heimkynni frá»).

6. Tamperrettens Dom afsagt 8. juni 1718 í máli, er Apóllonía Schwarts höfðaði móti N. amtmanni Fuhrmann, fyrir hjúskaparbrigð við sig.

### № 595.

Samtíningur á lausum blöðum:

1. Brjef frá Sigurði málara til Jóns Borgfirðings um ýmsa fornmuni.

2. Helmingur af grafskript yfir Sigríði Stefánsdóttur, konu Jóns sýslumanns Jakobssonar.

3. Brot af ættartölum með hendi Einars Ísleifssonar (?).

4. Brot af kvæði og af Kötludraumi («Már hefr búið»), 18 er. fyrstu.

5. 1 blað úr sálmum, sem heita Andvarpanir.

6. Lectiones variantes (orðamunur), aptan við lögbókina, pr. Hólum 1709. Rotin blöð og rifin.

7. Brot úr Balles lærdómsbók.

8. Skrá yfir veraldlegar bækur, sögur og rímur 1861.

9. Sálmurinn Veðrahjálmur ortur 1784 af Jóni Oddssyni Hjaltalín («Ó, þú jökull, sem jörðu hylur»), 54 er. Skrifaður af S. Ingvarssyni.

10. Sálmurinn Veðrahjálmur, og bæn aptan við í óbundinni ræðu.

11. Tvö blöð úr ævisögu Jakobs Árnasonar prests á Gaulverjabæ, eiginhandarrit.

12. Sálmur («Sæti Jesú, sjá oss hjer»).

13. Sálmur («Ó minn Jesú að mjer gáðu»).

14. Kvæðið Hlýrahljómur. Vantar framan af.

### № 560.

Lausar arkir, er á er:

Útskýring yfir þá ráðgátufullu veru undirlífs sjúkdómanna eptir Dr. Moritz Strahl í Berlín, útlögð í október 1841, af Jóni lærða á níræðisaldri. 127 síður. Eiginhandarrit.

## № 561.

Safn af ýmsum smáritgjörðum, flestum eptir Jón lærða og með hans hendi o. fl.

1. Ræða á föstudaginn langa 1840 eptir sira Jón.

2. þýðing af kafla úr Nössells: Vertheidigung der christlichen religion, eptir sama.

3. Ræða á 6. sunnudag eptir trinitatis, eptir sama.

4. Prjedikunarræða, eptir sama.

5. Um þau spádómsteikn, sem gefin vóru gyðinganna og eru kristilegri kirkju, eptir sama.

6. Um æða blóðtöku, lítil undirrjetting, með fljótaskript.

7. Heimspekileg-kristileg ritgjörð eptir sira Jón lærða, með formála, en titilslaus. Í 28 greinum með athugasemdum aptan við.

8. Nokkrar minnisvísur fyrir þá, sem þekkja vilja rímreikningslistina, með hendi sira Jóns. 30 alls með útskýringum. («Ef fýsir þig í fæstu orðum»). Innan í liggur kvæði með annari hendi, 7 er. («Jeg hef nú ekkert annað þjer að skrifa»).

9. 3 skjöl, er snerta sira Jón. a. Prófs vottorð Hálfdanar Einarssonar á latínu, skrifað 6. júlí 1780. b. Brjef sama um, að sira Jón hafi leyfi til þess að flytja guðs orð o. s. frv., sama dag skrifað. d. Brjef sama um, að Jón sje settur aðstoðarprestur föður síns, 2. júní 1783. Allt eiginhandarrit.

## № 562.

Ræða eptir sira Jón lærða við jarðarför Bjarna Thórarensens, haldin 4. sept. 1841. Eiginhandarrit. Utan um ræðuna liggur: «þakklætisávarp Íslands til Ebenezer Hendersonar árið 1821» («Á næstliðnu hausti fregn svo fín»), 16 er. — Innan í liggur: «Sú jarðneska þrenning eptir Bjarna» («Mörður ýta allra»), og «Mörður týndi tönnum», hvorttveggja með hendi Jóns. — Áætlun yfir kostnað við

kyrkjubygging á Grund í Eyjafirði, $^{5}/_{12}$ 1832 eptir Ólaf Briem, og með hans hendi.

### № 563.

Kver í pappkápu. þar á er: Lærdómur um trúarbrögðin eptir skynseminnar og kristindómsins ástæðum, eptir Dr. August Niemeyer þýddur 1811 af sira Jóni í Möðrufelli, eiginhandarrit.

### № 564.

þykk bundin bók: Útskýring yfir þá ráðgátufullu veru undirlífssjúkdómanna eptir Dr. M. Strahl í Berlín, þýdd af Jóni lærða í Möðrufelli 1841. Hreinskrifuð, með fljótaskript. 399 bls. = Nr. 560.

### № 565.

Nýtt íslenzkt rímtal samið af O. Hjaltalín, með viðbæti af útlenzkum Berlínertöblum, skrifað 1823 með fallegri fljótaskript, og er 73 bls.

### № 566.

þykkt kver í skinnkápu, skrifað af Einari Ísleifssyni (?). þar á er:

1. Um Kötlugjá eptir próf. H. St. s. Relatíón. Vantar ef til vill nokkuð aptan af.

2. Allmargar ættartölur.

Bókin hefir verið eign Jóns Sigurðssonar, ættfræðings.

### № 567.

Lausar arkir, ritaðar með fljótaskriptarhendi. þar á er:

1. Fátt eitt aðskiljanlegt, kveðið af sira þorláki þórarinssyni; vantar blað í og aptan af.

2. Skipafregn, kveðin af sira Gísla og sira Gunnlaugi Snorrasonum og Árna Böðvarssyni.

3. Drösuldans, kveðinn af hr. S S sini («Blikar frán um fold»).

## № 568.

Blöð, er á er Heimspekingaskóli Guðmundar Bergþórssonar, endar í 149. er. Skrifaður með stórri fljótaskript.

## № 569.

Samtíningur á lausum blöðum:

1. Sumarkviða í fornyrðislagi samin við sumarmálabyrjun 1840 af Sigurði Lynge. Eiginhandarrit. 77 er.

2. Vetrarkviða samin 1841 af sama, 121 er. Sömul. eiginhandarrit.

3. Sálmur («Jesú þínar opnu undir»).

4. Vísur eptir Ara Pjetursson skólapilt.

5. Vísur á afmælisdag, júní 1875 («Gulldrifna roðarún»).

6. Erfikvæði eptir Bjarna Thórarensen («Fjögur eru ár»), 8 er.

## № 570.

Bundið kver, er á eru:

1. Rímur af þeim feðgum Víkingi Vífilssyni og þorsteini syni hans, ortar af Jóni þorsteinssyni í Fjörðum. («þögnin gyrðir seggi senn»). 18 alls. Greinilegt settletur.

2. Rímur af Haraldi hringsbana («Haukur óma hraði för»), 12 alls. Eptir Árna Böðvarsson. Fljótaskript.

3. Túturímur eptir Hallgrím Jónsson lækni («Eitt sinn þá jeg ungur ljek»). 8 alls; skrifaðar með fallegri fljótaskript, öptustu blöðin af Sigmundi Mattíassyni.

## № 571.

Safn á lausum blöðum og örkum af alls konar andlegum ræðum og bænum, eptir Magnús prest Grímsson á Mosfelli. Eiginhandarrit.

## № 572.

Kver bundið í trjespjöld með skinni utan um. þar á eru:

1. Spámaður (= kvæðið Lukkusprang) («Ef barn þitt venur æsku í») og aptan við 2 epigrammata (= lausavísur) og stafirnir J. B. undir.

2. Sendibrjef Alexanders mikla til Arestotuli (= Aristoteles). Um útför Alexanders.

3. Langloka («Málug tunga mælir»). — Samstæður sira Hallgríms Pjeturssonar («Mun heilagur guð marga til dómsins kalla»).

4. Kvæði um kall («Einu sinni öldu karfi»).

5. Kvæðið: Hatt-draugsgól kveðið af sira Gunnlaugi Snorrasyni («Hattur þjenti herra sínum»).

6. Gunnarskvæði eptir Gunnar Pálsson («Fögur er nú Fljótshlíð»).

7. Sálmur, af þeim tilburði, er skeði í Meðallandssveit («Tilburður undra teikn er skeð»).

8. 2 rímur út af einu æfintýri («Litars ferju af ljóða sal»).

9. Nytsamlegt kvæði («Valla er mín verjan traust»).

10. Dægradvöl eptir sira Einar Sigurðsson («Fari nú hingað fólkið það»), 150 er.

11. Eitt kvæði mótgangsmanna («Hvað sem helzt í heimi hjer»).

12. Lífsleiðing eptir Guðmund Bergþórsson («Dægrastytting skemta skal»).

13. Kvæði («Ef þú maður þeinkir þjer»). Samstæður («Hirt mig ei í heiptar bræði»).

14. Sendibrjef Sigurðar Jónssonar til Brands Brandssonar («Ástin, friður, náðarnægðin»).

15. Eitt kvæði («Lof sje dýrum drottni»).

16. Rímur af Gjafa-Ref («Herjans læt eg hornabjór») 4 alls.

17. Beinakellingarvísa kveðin af Rústikus Þorsteinssyni á Smjörvatsheiði («Beinakelling gömul og grá»).

18. Nokkur erindi úr háttalykli.

19. Vísur eptir Gissur E(iríks)son um mann systur konu sinnar («Montaralegur maðurinn»).

20. Nokkrar kenningar. — Dýrkveðinn draugaþáttur («Geist þú sté í garð»). — Bundið nafn Guðm. Bergþórssonar. — Um konbænaferð. — Nokkrir bragarhættir. — Margstefjuð langloka eptir Sigurð Jónsson.

21. Þýzkalands kvæði («Gerist morgunskemtan skýr»), 19 er., eptir Jón .... (?) son. S. s. annálskvæði.

22. Vísa eptir sira S. Ó.(?) («Rostungurinn fór á frón»).

23. Skautaljóð þau fyrstu, kveðin á Arnarstapa. — Svar sira Jóns á Hjaltabakka, og 2 svör Þórðar Halldórssonar, með svörum Guðmundar. — Steins vísur, og svar Guðm. — Sigurðar vísur Pálssonar.

24. Loksins kemur upp hið sanna (frásaga); fleira smávegis ómerkilegt; þar á meðal gátur nokkrar.

25. Brjef Friðriks IV. Ómagaframfærsla. — Kristinnrjettur, vantar aptan af.

## № 573.

Bundið kver, með ýmsum höndum ritað. Þar á eru:

1. Búnaðarbálkur Eggerts Ólafssonar.

2. Kvæði um Ísland eptir Jakob Jónsson (ɔ: Aldaglaumur?):

Heiti þess, sem hróður gerði...
eins og þess, sem ört rjeð glíma
engil við um næturtíma...

3. Hrafnahrekkur, kveðinn af Guðbrandi Einarssyni («Nú skal seggjum segja»).

4. Steinkubragur eptir Högna Bárðarson («Fólkið hlýði frásögn minni»).

5. Biðilsríma («Góma kvörn að gamni mínu») eptir Jón Jónsson á Jökli. Skrifuð 1824.

6. Eitt kvæði af Alexandir blinda («Þar skal fram af þrætukór»).

7. Belgsbragur, ortur af Illuga Einarssyni 1823 («Belg einn missti burðastór»), 23 er. (vantar aptan af?).

### № 574.

Kver í aflöngu broti, með hendi Daða fróða Níelssonar. Þar á er brot af Háttalykli. Nokkrar vísur, sem aukast inn í háttalykil Lopts ríka. Enn Háttalykill, 24 bragir; um höf. hans er rituð aptan við hann vísa eptir Sigurð Jónsson skáld á Reykjum. — Aptan við eru ýms laus blöð, enda sum í öðru broti: 1. Kvæði um Njálu ort 1746 («Njáls sögu heils hugar»), eptir Ólaf Gunnlaugsson í Svefneyjum, með hendi Daða. 2. Ferjupóstar (um ferjur í Árnessþingi, lög) samþykktir á alþingi 1693. 3. Dómur um framfæri 1617.

### № 575.

Kver bundið. Þar á eru:

Andlegar og listilegar spurningar með þeirra merkilegum andsvörum og útskýringum, eptir Michael Saxen, «útlagðar á dönsku af Hallvarði Gunnarssyni í Oslu, íslenzkaðar í Skálholti 1622, skrifaðar á Setbergi á Alptanesi eptir bón Guðlaugs Grímssonar 1707. G. Þ. s.» Seinustu blöðin eru með annari hendi, en hitt allt. Aptan við er registur yfir efnið. Síðara saurblaðið er sendibrjef frá J. Árnasyni á Urriðavatni 14. jan. 1816.

### № 576.

Samtíningur á lausum blöðum.

1. Ferðasögu ágrip sumarið 1861, með hendi Jóns Borgfirðings.

2. Nokkur blöð, er á er sagan af Gleðru; sagan af Árbæjar-Skottu; Draugasaga af Langanesi (ný). Utan um þetta liggur bænarskrá prentsmiðjunnar á Akureyri um jafnrjetti við prentsmiðjuna í Rvík 1865. Allt með hendi Jóns Borgfirðings.

3. Gátur með hendi Jóns ættfræðings Sigurðssonar.

4. Fiskar á Íslandi.

5. Ættartölubrot eptir Jón Sigurðsson ættfræðing.

6. Um ýmsa ættbálka eptir sama.
7. Enn ættartölur eptir sama.
8. Sálmasafn skrifað af sama.
9. Brot af hjónavígsluræðu. Utan um allt þetta er sendibrjef í arkarbroti.

## № 577.

Bók bundin; þar á eru:

Rímur af Víkingi og þorsteini syni hans, kveðnar af Jóni þorsteinssyni og leiðrjettar af sira H. Guðmundssyni, og eptir hans handriti uppskrifaðar 1839. («þögnin gyrðir seggi senn»), 18 alls. Skrifaðar með prýðisfallegri fljótaskript. H. Guðmundsson er sjálfsagt sira Hjálmar á Kolfreyjustað, og síðar á Hallormsstað.

## № 578.

þykk bók í skinnkápu. Skrifuð með greinilegri hendi, ýmist fljótaskript, eða snarhendi. þar á er: Safn af alls konar ættartölum. Ýmislegt annað er þar og, t. a. m. um Hjaltastaða drauginn, Egilsbrjef til Ólafs biskups. Trúarjátning Snotru fóstru Egils, og fleira um Egil snotrufóstra, t. a. m. vísa eptir sira Hjörleif þórðarson («Illa skrifar Egill»), Fjárleitarbragur eptir Árna Gíslason í Höfn («Í fjársafn maður fara vildi»), 18 er., og fleiri vísur eptir Árna. Lítið ágrip úr annál sira Eiríks Sölvasonar, Samtal milli 2 austfirðinga (á innlögðum blöðum). Síðast er Presta og prófasta tal í Múlasýslu og Skaptafellssýslu og Skrá yfir helztu ritgjörðir í gömlu fjelagsritunum. Skrifað hefir J. S.

## № 579.

Bundið kver. þar á er:

Tyrkjaránssaga eptir Björn á Skarðsá, skrifuð af Jóni Gíslasyni (í Svarfaðardal) 1861. Sagan er hjer fyllri og lengri, en sú er prentuð er. 39 kap.

## № 580.

Kver í pappkápu. þar á eru ritaðar:

Rímur af Hrólfi Gautrekssyni eptir Árna Sigurðsson

á Skútum. («Heptipela(?) hlunna dýr»), 12 alls. Nafn sitt bindur höf. svo:

Mitt er heiti: fley á ferð[1]),
fleina rjóðar skilja,
gulltopps þreyta, mótgangs merð,
metaslóðar þilja.

Rímurnar eru ortar 1822, sjá næsta er., og eignaðar Jóni Flóventssyni, sjá næsta er. — Ritaðar með fljótaskript.

## № 581.

Þær sundurlyndu reisusystur, Lukkan og Dyggðin, æfintýr tekið eptir Lafontaines róman Rúdolph og Júlía (Hjartans eptirmynd), eptir Níels skálda; þetta er eiginhandarrit höf. og hefir hann á titilblaðinu dregið hjarta, þannig að í því sjást stafirnir N. J. — 63 blaðsíður, með formála.

## № 582.

Safn af sögum og þáttum (samtíningur):

1. Sagan af Hrana hring skrifuð af Sigurði Davíðssyni 1865 (með vinstri hendi); hdr. er borið saman við annað, ritað af Þorsteini í Málmey 1848, og orðamunur ritaður við af Eggert Ó. Brím.

2. Sagan af Hálfdani Barkarsyni, skrifuð af Jóni Jónssyni í Firði í Seyðisfirði 1860, 7 kap.

3. Þáttur af Þorgrími Hallasyni, Kolgrími og Illuga íslendingum. — Af Hrafni hrútfirðing. — Af Hreiðari heimska. — Af Halldóri Snorrasyni. — Af Þorsteini forvitna. Skrifaðir 1804 af G. K. S. (ekki: Gísla Konráðssyni).

4. Volsaþáttur, ritaður 1853 af B. Jóhannessyni.

## № 583.

Bundið kver í aflöngu broti. Þar á er:

1. Píslarminning prestsins sira Jóns Magnússonar að Laufási («Eia, mín sæla sálarheill») 96 bls.

---

[1]) ár (til að róa með) = ár (annus) = á (bókst.).

2. Bænir á sunnu- og öðrum helgum dögum ársins, ásamt ýmislegum viku og misseraskipta bænum, samanskrifað anno 1811. — 112 bls. Vantar aptan af. Skrifað allt með greinilegu snarhandarletri.

## № 584.

Bók bundin, rituð með ýmsum höndum og á ýmsum tímum. Þar á er:

1. Hugdilla, ort af sira Sigurði Jónssyni að Presthólum («Fram úr þögn skal þylja»), 60 er.

2. Eitt kvæði («Heimurinn spillist hrörnar óðum») með viðkvæðinu:

Kvölda tekur kalla jeg hátt í óði
á daginn líður drottinn minn
hjá mjer vertu herrann Jesús góði.

9 vess.

3. Messudaga vísur («Drottinn vor er dýrstur öllum»), 21 er.

4. Fagrar vísur af greifanum og hans frú («Þeim guð veitir og gefur frægð»).

5. Eitt kvæði að kveða við kvennmann («Ekki er efnið annað»), með viðlaginu:

Þinn fundinn þorngrund
þenki jeg með mjer
gleðst lundin gullshrund
að gengur vel þjer.

6. Annað kvæði («Þjer gefi gleði blíða») með viðlagi:

Elski þig Jesús
og annist þitt ráð
gefist þjer góðfús
græðarans náð.

7. Heilagt kvæði kallast Dúfudilla («Andi guðs mig endurnæri») með viðlagi:

«Dilla jeg þjer daufan mín
og dilla sem ber,
dilli jeg minni daufunni og dilli guð mjer».

8 er.

8. Eitt kvæði («Líður á enda vetrarvist»), með viðlagi:

Senn kemur sumarið
sólin blessuð skín
víst batnar veðrið þá veturinn dvín.

9. Annað kvæði af sama manni gjört («Sig ljet drottinn kvelja á kross»). Viðlag:

Bróðir góðir bjargaðu mjer
af bitrum dauðans pínum
láttu mig liggja á brjóstum þínum.

10. Erfikvæði eptir þorstein þorleifsson «valdsmann í Hegranesi», dáinn 12. nóv. 1705, ort af «Jóni Jónssyni», flutt við gröfina 19. nóv. («Hví stynur himins hjól»).

11. Harmaljóð eptir sama mann («Æ hvað stund mannsins aumleg er»). Under er V. G. S.

12. Sorgarbogi eptir þann eðlagöfuga, hávísa og mikið ypparlega höfðingsmann, seig^r^ þórstein þórleifsson, — fullhuga en aflvana höndum uppdreginn af hans eptirlifanda sorgandi þjenara Eireki Guðmundssyni. («Hver veldur hyggnir svari»), 6 er.

13. Enn kvæði eptir sama, eptir Jón Einarsson («Hvað er hjer með lýðum?»), 11 er.

14. Grafskript eptir sama, ort af sama.

15. Erfikvæði eptir sama («Svo deyja menn, þeir meir en þeir»).

16. þreyjandi saknaðar andvarp eptir sama, ort af Benedikt Skúlasyni eldra Thorlacio («Hörmungar hefur tíð»), 8 er.

17. Nokkur bænavess um syndanna fyrirgefning, kveðin af sira Hálfdani Rafnssyni («Dýrð er mikil drottins góða»), 34 vess.

18. Varnaðarþáttur («Varnaðar rjettan vildi eg þátt»).

19. Nokkrar vísur («Eðlagöfug elsku og dyggða móðir»).

20. Legsteinn þess göfuga og velvísa Höfðingsmanns Benedikts Pálssonar, hver eð á 84. ári .... var heimkallaður á Möðruvöllum í Hörgárdal 28. sept. 1664. («Fyrri manna það vísa var»). Seinast nokkrar dróttkvæðar vísur og þar undir stendur: «Actum að Felli í Sléttuhlíð, Año 1665 23. Januarij af trúlyndum þjón Jesú Guðmundi Ellendssyni«.

21. Sorgarvess eptir seign[r] Jens Maðzson Spendrup, dáinn 1735, þ. 5. okt., grafinn 18. d. sama mán. að Reynines Stað, sungið af Steini Jónssyni, sup. Hol. st. («Sorg fæðist, flestir syrgja»); aptan við stendur: «þrickt ä Hoolum I hialltadal 1735».

22. Nokkrar vísur, ortar af sira Stefáni í Vallanesi. («Mart er manna bölið»).

23. Messudiktur («Eðla maður einn var sá»).

24. Vina vísur («Vizku drottinn viltu mjer»; «Einum meistara í Arabía, allvel lærðum dikta eg frá»).

25. Heimsádeila («Satt er það jeg seggjum tel»).

26. Eitt kvæði fallegt («Er jeg að hugsa opt til sanns»). Viðlag:

Mýkja kann það mæðu og þrá
í minni sorg og neyð
drottinn minn var dapur þá
hann dauðann leið.

27. Þriggja kvenna kvæði eptir sira Jón Einarsson («Sanna jeg það sem segja vann»). Viðkvæði:

Mjer er horfin mæða
meinsemd og fár

guð kann að græða
mín gjörvöll sár.

28. Brot af kvæði (kappakvæði).
29. Kvæði («Hjer er sól og sómi»), með viðkvæðinu:

Virðar lofi veraldar prís
vítt á hendur tvær
þó er enn fegri paradís
þar prýðin öll grær.

30. Draugslýsing; fyrsta er. er svo

Póstskript ef þess yrði nýt
að þú brosa kynnir
aptur brjefið upp jeg brýt
og einu stefi lengja hlýt.

31. Um músina og köttinn («Ei er forvitnin öllum hent») og þar neðan við vísan: «Í höggi einu hjó um sinn»).

32. Hjónaríma («Um kvöldvöku væri gaman»), 65 er.

33. Níðings afdrif eptir Sigurð Breiðfjörð.

34. Hrafnahrekkur kveðinn af Guðbrandi Einarssyni («Nú skal seggjum segja»).

35. Ekkjuríma («Ása föður ámu hver»), 142 er.

36. Raunasaga af roðhattinum góða. 30 er.

37. Kvæði um refinn, hanann og köttinn («Tóa tölti um stræti»), 27 er., og vísan: «Eg er nú kominn á þá trú» aptan við.

38. Hrakfallabálkur («Hjöluðu tveir í húsi forðum»), 41 er.

39. Tímaríma, ort af sýslumanni Jóni Sigurðssyni. Fram til 68. er. að því með töldu.

40. Brot af kvæði.

41. Einn philosophiskur prófsteinn eptir Níels Jónsson.

42. Svefnlæti («Órímilegast eitt það var»).

43. «Mætari enga mey jeg sá», eptir Bjarna Thórarensen.

44. «Ýmist meta skatnar skást», 7 er.

45. Þorrabragur, kveðinn af sira Brynjólfi Halldórssyni 1715. («Það er siðvenja á sumum bæjum»). Aptan við er: Um góu mánuð sira B. J. S. («Kunnug góa komin er», 4 er. Idem. Gagaravilla («Góa faldinn bleikan bjó»), 2 er. Trjemaðr mosa vaxinn í Sámseyju kvað («Þat var for löngu») 3 er. Dýrkveðinn draugaþáttur («Geyst þusti í garð hörð góa ný«) og heyrir til næst síðustu vísna. «incerti authoris» (höf. óvís). A° MDCCXXXI. id. Septemb. Thingvallis (= Á þingvöllum 13. d. sept. 1731; «Snildum þingheims skreytt öldin»), 1 er. Gátuvísur, 8; 3 fyrstu teknar úr syrpu sira E. H. S. Hin síðasta, að hyggju ritarans, eptir Svein lögmann.

## № 585.

Bók, hept í skinnkápu, rituð með afarljótri snarhendi af Jóni Sigurðssyni um miðja þessa öld. Á einum stað stendur ártalið 1854. Þar á eru:

1. Kvæði af Jesu Kristí forklárun á fjallinu helga. («Pjetur nefndur er hjer einn». Viðkvæði: «Fagurt var sem fyrir þá bar á fjallinu því»).

2. Borðvísur sira Jóns Hjaltalíns («Hýrir gestir hjer að borðum»).

3. Vísa («Vinina hafði eg við mitt geð»).

4. Leirkallsvísur («Skildir erum við skeggkall tveir«).

5. Ljóðabrjef («S... hress í sinnu lóð»), ort 1828, til Margrjetar Oddsdóttur frá nöfnu hennar einhverri.

6. Lukkuósk og þakklæti («Skirt (skylt?) er skaparanum gjalda»).

7. Ljóðabrjef («Frá mjer sprundi bætist (berist?) blað»), ort 1841, 22. okt. frá Sesselju nokkurri.

8. Kvæði um ekkjuna í Sarepta («Sá sem setur son guðs á»).

9. Stafrófssálmur Sigurðar Gíslasonar («Ástunda maður allra bezt»).

10. Kvæði af Náhám hinum sýrlenzka («Náhám skal hjer nefna herrann góða»).

11. Gátuvísur («Hvert er það dýr í heimi»).

12. Um konuna kanversku («Ljúfur með sína lærisveina»).

13. Kvæði af draum og sýn kóngsins í Babýlon («Kóngur frá jeg sjálfur sá»). Viðkvæði:

Daníel fjekk í draumi vitran kennda
hvernig ganga heiminum mun til enda.

14. Mansöngur úr Tímarímu Jóns Hjaltalíns.

15. Eitt ævintír af Máríubarninu í óbundnu máli.

16. Sá fyrri borðsálmur («Á þig allra augu um sinn») og Faðir vor («Faðir á himnum hæst»).

17. «Að gamani stílað», eptir Sigurð Pjetursson (eptir eiginhdr. höf.: «Málverk því eg æsku í»).

18. Prjedikan af þeim stóru magtargjöfum höfuðsmannsins Hr. Tabeitirs, velvild og vinahótum, fylli og feitleika, glens og gáluskapar (?). Í óbundinni ræðu.

19. Ævintýr af Selikó og Berissu, 5 rímur ortar af Hallgrími Jónssyni («Krists frá burði birta menn»). Þær eru ortar árið 1840 (5,38).

20. Ævintýr af Píramúsi og Tespí (ɔ: Pýramus og Þisbe), ort af sama. («Við þann múr sem mynda nam»); útlagt eptir Myndbreytingum Óvíðs Rómverja skálds. 67 er.

21. Þýzkalandskvæði («Gerist mörgum skemmtan skýr»), með orðamun milli línanna. 20 er.

22. Inntak af historíu af Balam (ɔ: Bíleam), eptir Hallgrím Jónsson («Þá Ísraels lýður einkafríður af Egiptó»).

23. Um brúðkaupið í Kana eptir sama («Á galílea láði»), 7 er.

24. Um þann sem blindur var fæddur («Jesús frá Júdalýð»).

25. Nokkur vess á tveim innfestum miðum.

26. Sálmur, með annari hendi («Ung rós guðs akri í»).

27. Eitt gott kvæði af einsetumanninum («Einsetumaðurinn einu sinni»).

28. Vísa. («Hag þinn allan gleðji og græði»), með viðkvæði.

29. Ungbarna söngur («Ungbörnin syngja upp á herrann Krist») og nokkrar fleiri andlegar vísur, sem ekki verður sjeð um, hvort myndi eina heild.

30. Ein lítil vísa um fallvalta vini þessa heims («Æ hvað er æfin hjer»).

31. Eitt vess («En hjá þjer eilíf er») og annað til («Á dauðastund og dómsins tíð»).

32. Af kaupmanni einum («Ölmusumenn einu sinni»), 24 er.

33. Upphaf á Vinaspegli («Forðum tíð einn brjótur brands») 113 er.

34. Kvæði eptir sira Hallgrím Pjetursson («Vond ertu veröld», og «Mundu þig maður í mundó»).

35. Fornkvæði («Ríkismenn ræðu minnar gæti»), 14 er.

Dálítið vantar aptan af, eptir registri, er ritað er bæði að framan og aptan, en er illt aflestrar.

## № 586.

Kver, heft í skinn. Þar á eru: Fáeinar tækifæris og sundurlausar vísur Lýðs Jónssonar árin 1860-1 og 62. Eiginhandarrit. Aptan við er: Viðbætir við tækifærisvísur 1864.

## № 587.

Safn af ljóðmælum Lýðs Jónssonar á Akranesi, mest allt eiginhandarrit.

1. Ljóðmæli og tækifærisvísur 1856-7.

2. Rímur af Gesti Bárðarsyni ortar 1845. 5 alls. Aptan við er ljóðabrjef ort 1844, með annari hendi.

3. Vinaríma kveðin 1866, og nokkrar vísur aptan við. Aptan við á lausum blöðum er erfikvæði eptir Guðríði húsfreyju Guðmundsdóttur, dána 1871 og eptir Lýð, skrifað af Jóni Borgfirðing og Finni Jónssyni. 9 er.

4. Lítil ríma 1868, ásamt tækifærisvísum frá því ári.

## № 588.

Kver í skinnbandi og trjespjöldum. þar á er: Fornaldar saga, fornsaga Asíu, Grikkja og Rómverja. Vantar dálítið framan af, þótt á fremstu síðunni standi talan 1., og ekki alllítið aptan af, endar á 192. síðu í «æfisögu» Ottós keisara. Skrifuð með greinilegri settaskript.

## № 589.

Kver í skinnkápu. þar á eru: Gellerts sálmar, útlagðir úr þýðversku tungumáli um árin 1802 og 3; 54 tals; þar að auki nokkrir sálmar útlagðir úr hinni nýju dönsku sálmabók á samt öðrum fleiri, allt eptir sira Jón lærða og með hans hendi.

## № 590.

Kver með titlinum Skemmtunarbók. þar á eru:

1. Krókarefssaga og sona hans.
2. Bezta land í heiminum.
3. Eyjan.
4. Æfisaga Ajax keisarasonar.
5. Kvæði af Alexander Indianiska («þar skal fram af þrætu kór»), 55 er.
6. Gortaraljóð («Í húsi einu heyrði eg hjal»), 38 er.
7. Vinaspegill sál. Björns Jónssonar á Skarðsá («Vizku drottinn veit þú mjer»), 51 er.
8. Meistaraþjófur («Af einum kóngi óma vess skal smíða»), 75 er.
9. þorra attest kveðið 1778 («þrátt mega grísir gjalda»), 14 er.

10. Engildiktur («Eg hef sjeð á einni bók»), hjer 82 er.

11. Kvæði Jónasar til Páls Gaimards («Þú stóðst á tindi Heklu hám»).

12. Sagan af Ásmundi húnakappa og Sigurði. Brot lítið; slitið í sundur.

13. Sálmur eptir Sigríði Jónsdóttur («Salve, mín sanna»), 20 vess.

14. Kvæði («Kári var kænn að skera»). Skrifað árið 1854 með mjög ljótri hendi.

## № 591.

Kver, sundurlaust, skrifað með góðu snarhandarletri. Þar á er:

1. Æfiágrip Hrappseyjarfeðganna Jóns Pjeturssonar, Benedikts, Boga og Benedikts, saman tekið af studioso Boga Benediktssyni.

2. Ættartala Stefáns amtmanns Þórarinssonar.

3. Ágrip af æfi og ættartölu Gunnlaugs Briems.

4. Stutt ágrip af æfi Gunnlaugs Oddssonar dómkirkjuprests.

5. Fáein minningarorð eptir sál. agent G. B. Scheving eptir Finn Magnússon.

## № 592.

Kver, fúið og upp úr bandi. Þar á er: Chronologia H. Jakobssonar, skrifuð með greinilegri snarhendi. Vantar í. Aptan við eru tvö blöð; þar á er endirinn af sögu Hrólfs konungs kraka og kappa hans.

## № 593.

Óbundið kver, nokkuð rotið með greinilegri settletursbendi. Þar á eru:

1. Gjafa-Refssaga.

2. Sagan af Hrólfi konungi Gautrekssyni, skrifuð 1837.

3. Sagan af Göngu-Hrólfi. Vantar í frá því í miðjum 4. kap. og aptur í 27. Aptan við stendur: «Út

af þessari sögu hafa kveðið sira Eiríkr Einarsson, prestr á Höfða og Jón nokkur Helgason».

4. Saga Hrólfs konungs kraka og kappa hans og Fróðaþáttur, endar í 51. kap.

5. De duodecim laboribus Herculis (um tólf þrautir Herkúless). Um sjö veraldarinnar undur. Nokkrar skrautlegar byggingar. Allt útdráttur úr «gömlu skrifi, Veraldarspegli».

6. Stutt ágrip um Alexander Magnús og höfuðstaðinn Persepolem, eptir Mag. H. Bunting. Um fleiri stórborgir fornar. — Kafli úr andlegri ræðu.

## № 594.

Laus blöð. Á þeim eru:

1. Ýmislegar ræður, smáritgjörðir og uppteiknanir eptir sira Sveinbjörn Hallgrímsson. Eiginhandarrit.

2. Ritgjörð um alþing og stjórnmál: «Til Þjóðólfs», ritað 1857 af «Bónda».

3. Athugasemdir við «andlegra smáritasafn» gefið út af sira Jóni í Möðrufelli. Með fljótaskript.

## № 595.

Bundin bók. Þar á eru:

1. Sjö daglegar hjartnæmar andvarpanir út af sjö orðum Krists með minning sköpunarverksins.
2. Vikubænir Lútheri.
3. Vikubænir Joh. Avenii.
4. Vikusálmar.
5. Kvöldsálmur og vikukvöldvess.
6. Vikusálmur sira Jóns Guðmundssonar.
7. Vikubænir Jóh. Lassenii.
8. Aðrar vikukvöldbænir.
9. Kvöldbænir sira Jóns Hjaltalíns.
10. Vikubænir sira Bjarna Arngrímssonar.
11. Aðrar hátíðabænir og árstíðabænir.
12. Vikubænir sira Hallgríms Pjeturssonar.
13. Vikubænir sira Jóns Teitssonar.

## № 596.

Bók í pappkápu, þar á er: Kristileg siðfræði á dönsku máli titilslaus, framsett í spurningum og svörum.

## № 597.

Kver í skinnkápu. Þar á er: 1. Epicteti manuale (handbók Epiktets) ásamt æví hans, á latínu. — En retskaffen mands håndbog eller nödvendige regler på alle tider og steder (á dönsku). 3. Byrjun á latínskri grammatík á íslenzku, og fleira smávegis og ómerkilegt.

## № 598.

Kver bundið, þar á er: Sagan af Villifer frækna; er komin norðan úr Siglufirði frá Jóni Borgfirðing. Titill bókarinnar er: «Sögusafn», þó að eigi sje nema þessi eina saga á bókinni.

## № 599.

Kver lítið bundið. Þar á eru: Máríurímur (eða: Jesúrímur), eptir sira Guðmund Erlendsson («Ei mun gott að austra kyr»). 10 tals. Skrifaðar á Klausturfelli 1834 af Snorra Guðmundssyni.

## № 600.

Bundið kver með Rímum af Hálfdani brönufóstra eptir Snorra á Húsafelli. («Mín þó fljúgi mála ör»). 17 alls. Vantar aptan af síðustu rímu. Ritaðar með mörgum höndum.

## № 601.

Morgun- og kvöldbænakver með nokkrum vessum og fleiru smávegis, í bænabókaskorti uppskrifað árið 1816 af Jóni Reykjalín. Tvö vess eru rituð á fyrstu síðunni eptir Þorvald Böðvarsson og Hallgrím Pjetursson. Á annari síðu er ritað «innihaldið»: Morgunbænir sira Bjarna Arngrímssonar, Joh. Lassenii, Jóns biskups Teitssonar, Kvöldbænir Lassenii og Jóns biskups, Kvöld- og Morgunvess, Vikukvöldsálmar Þorvalds Magnússonar, Hugvekjur og aðrar bænir o. fl.

## № 602.

Heft blöð. þar á eru:

1. Disticha quædam (Nokkur tvílínuljóð) latínskra og grískra skálda, spakmæli og snillyrði. 2. Latínskir stílar. 3. Ágrip almennrar kirkjusögu á latínu, og ísl. þýðing þaraf («Ýmisleg trúarbrögð»). 4. Kvæði eptir Hóraz rómverjaskáld (á lat.). Höndin er ekki ólík hendi Sveins Níelssonar.

## № 603.

Óbundin bók, nokkuð rytjuleg. þar á eru:

1. Bænir við alls konar tækifæri, samanteknar af sira Jóni Sigmundssyni, skrifaðar af Sigurði Sigurðssyni 1824. Nafnið á kverinu verður eigi lesið, þar eð af er rifið blaðinu hornið. En fyrir ofan hverja síðu er ritað «Pínubænir». 1-120 bls.

2. Fimmtíu vess út af þeim 50 sira H. P. sonar passíusálmum ort undir sömu lögum. Passíuvers. (121-133).

3. 2 Bænir (í ljóðum) út af Christi pínu og dauða, seinni í mörgum pörtum. 134-62.

4. Föstubæn í ljóðum; fimm fyrstu stefin ort af Eldjárni Jónssyni, 6. og 7. af Hallgrími Eldjárnssyni (163-84).

5. Nokkur bænarorð af þeim 91. sálmi Davíðs eptir sira Hallgrím Pjetursson (185-7).

6. Bæn og þakkargjörð fyrir pínu og dauða Jesú Krists og vers á þrettánda (187-90).

7. þrjú jólavers, ort af sira Guðmundi Jónssyni. — Vers í inngöngu sumars. — Vers í inngöngu vetrar (191-3).

8. Skriptarmál (193-8).

Allt skrifað með greinilegri settleturshendi; fyrirsagnir með rauðu letri, og upphafsstafir með margvíslegu flúri. Ritað af Sigurði Sigurðssyni á Fljótum.

## № 604.

Heft blöð. Þar á eru:

1. Riddara rímur, kveðnar af Lýð Jónssyni («Þið sem lengið lögin fín»). 3 tals.

2. Geiplur, kveðnar af Gísla Konráðssyni («Fyrir kveða geiplur gest»). 5 tals.

## № 605.

Safn af ýmsum smásögum (skrýtlum) og kvæðum (Galdrasögur stendur efst á blaðinu): 1. Um Þorvald skáld Rögnvaldsson á Sauðanesi. 2. Um sira Torfa Sveinsson og Svein föður hans. 3. Hafliða bónda á Grindavík. 4. Sigurð íslandströll. 5. Jón tíkargjólu. 6. Biskups dótturina á Hólum. 7. Sigvalda úr Eyjafirði. 8. Bjarna flóafífl. Allt með viðteiknuðum heimildarmönnum. 9. Ýmsar þulur, sömuleiðis með heimildum. Allt skrifað upp af Þorsteini bónda Þorsteinssyni á Upsum. Merkilegt safn.

## № 606.

Heft blöð. Þar á eru:

Vikusálmar út af Bjarnabænum, ortir af Bjarna Þórðarsyni á Siglunesi 1830. Ritaðir af Benedikt Gabríel Jónssyni 1833. Aptan við er Nýjárssálmur, kveðinn 1832 af sama.

## № 607.

Kver heft. Þar á eru:

Elementa theologiæ theticæ; guðfræðisleg ritgjörð á latínu; samin árið 1764.

## № 608.

Kver, vel skrifað. Þar á eru:

1. Vikusálmar út af Þönkum sira Hallgríms Pjeturssonar, kveðnir af sira Eiríki Hallssyni á Höfða («Markús guðspjallamaður skýr»). 1-43.

2. Aðrir vikusálmar út af fyrsta sköpunarverki, fyrsta orði Krists á krossinum og fyrstu bæn í faðirvori eptir sira Jón Magnússon í Laufási («Nafn guðs sje blessað, nú er vika»). 43-64.

3. Vikusálmar, ortir af bænabók Dr. Josue Stegmanns af sira Sigurði Jónssyni í Presthólum («Guði sje lof, að nóttin dimm nú enduð er»), 65-101.

4. Sálmur úr þýzku útlagður af þeim, sem grætur syndir sínar (G. S. s. «Eg aumur maður opt sem brýt»), 101-2.

5. Fjórðu vikusálmar («Guð gefi oss daginn góðan») 103-120. Endar eptir 1. vess af miðvikudags kvöldsálmi.

## № 609.

Kver bundið; þar á eru:

Rímur af þórði kakala, ortar af Gísla Konráðssyni á Ytra-Skörðugili 1821; skrifaðar af Tómasi Tómassyni á Nautabúi 1824 eptir eiginhandarriti höf. Framan við er þessi vísa eptir Jón þorláksson:

Blómleg hrísla braguriun virðist
berst um sýslu fróð og hrein
skartar Gísla í Skagafirði
skært útkvísluð ljóðagrein.

24 rímur. Aptan við eru skýringar nokkurra orða og kenninga.

## № 610.

Nokkur heft blöð, er á er: Orðaskrá eður ýms útlend orð, sem brúkuð eru í daglegu tali eða þá ýms fágæt orð innlend. Í stafrófsröð. Skrifað hefir Jón Sigurðsson í Reykjavík. Innan í liggja 2 blöð með «vestfirzkum orðum og talsháttum», skrifuðum og söfnuðum af Brynjólfi bókbindara Oddssyni.

## № 611.

Bundið kver í skinnspjöldum, allt ritað af Lýð Jónssyni á Akranesi. þar á eru:

1. Rímur af lukkunnar hvarflandi hjóli, ortar af Jóni Sigurðssyni á Fróðhúsum 1834 («Ljóða hljómur ljetti nauð») 6 alls. Skrifaðar 1841.

2. Rímur af Vjemundi og Valda, ortar af Jóni Sigurðssyni 1823. («Auðuns hallar árgalinn»), 5 alls, skrifaðar 1841.

3. Vísur um Norðurárdals bændur 1823 eptir sama («Vakni svala Sigmundar»), 29 er.

4. Ríma af Restiñp (!) og ekkjunni árið 18** («þó braga vínið vanti hjer»), 55 er., ort af sama.

5. Fjalldælaljóð eptir Sigurð þorkelsson úr Skagafirði («Heyri fróðir menn og mær»). 2 rímur.

6. Ævisaga Hákonar Hákonarsonar eptir bróður hans; 1. er. hljóðar svo:

Ævisögu einfalda,
eyðir brands, vjer teljum.
Hákon giptist herlega
hann bjó fyrst á Seljum. —

26 er.

7. Vísa Lýðs um rigning («Suðri þú ert sóðagrey»).

8. Ríma af frásögu úr Sunnanpósti eptir Lýð Jónsson 184(1?) («Hvað á að vinna? það sem þarft»). Um kvennmann og ljón. 69 er.

9. Einn merkilegur sálmur («þetta koffort með súran sveita, samdi kallinn hann þorsteinn tól»), 3 er. rituð af B. J. s.

10. Draumur, í óbundinni ræðu, er Guðrúnu Brandsdóttur í Stagley dreymdi 1762.

## № 612.

Kver í kápu, er á eru fyrirlestrar yfir fornaldarsöguna, skrifaðir af S. Gunnlaugssyni í Bessastaðaskóla.

## № 613.

Samtíningur á lausum blöðum og örkum.

1. a) Grafskript yfir Guðríði Skaptadóttur eptir þórð Sveinbjörnsson, eiginhandarrit. b) Grafskript yfir Arnbjörgu Lynge, gipta sira Jóhanni Tómassyni, eptir Sigurð Lynge; eiginhandarrit. — d) Erfikvæði eptir Ólaf Briem

(«Í nær dauðans æginn fjörsól gengur»), 5 er., eptir Ara Jónsson; ritað af Jóni Borgfirðing. — e) Erfikvæði eptir Dr. Hallgrím Scheving («Að enduðu ári») eptir Brynjólf Oddsson, 5 er. — f) Grafskript yfir Kjartan Ólafsson, eptir Sigurð Lynge, eiginhandarrit.

2. Tabla yfir nítjándu öld eptir sira Vigfús Benediktsson á Borgarhöfn, ritað 1855 af Jóni Borgfirðing.

3. Eleónóru rímur, ortar af Davíð Scheving («Kvæði skemmta mönnum mest»), 2 tals. — Barkarminning, ort af sira Jóni Hjaltasyni («Sældar standið ýta allt»). — Gránaminning, ort af sira Jóhanni Tómassyni («þó á hömrum allt hvað er». — Leiðslu bot(?)söngur («Ó þú hátignar huga stæri»). Allt skrifað af Jóni Jónssyni (ɔ: Borgfirðing) 1841.

4. Brúðkaupsvísur til Gríms Laxdals 19. sept. 1863 eptir Ara Sæmundsen («Aldraður ungri mær»), 5 er.; skrifaðar af Jóni Borgfirðing.

5. Ljóðabrjef til Guðríðar Torfadóttur, eptir Sigurð Breiðfjörð. Eptirrit eptir Eggert prest Brím («Til að enda orðin mín»).

## № 614.

Lítið kver bundið, ritað af þorsteini þorsteinssyni á Upsum. þar á er registur yfir ýms handrit, söfn af alls konar kvæðum og sögum; t. a. m. Hæringsstaða eða Urðabók (= Nr. 387, 8$^{vo}$), Grundarbók (= Nr. 388, 8$^{vo}$), Tjarnargarðshornsbók (= Nr. 389, 8$^{vo}$), Kvæðasyrpu Gunnlaugs á Skuggabjörgum, Sögubók (= Nr. 390, 8$^{vo}$), Ljóðmælabók (= Nr. 391, 8$^{vo}$), Nokkrar Íslendingasögur, Dagbækur og Almanök (= Nr. 408-19, 8$^{vo}$), Kvæðakver safnað af þorsteini sjálfum, Safn (= Nr. 393, 8$^{vo}$), Sömul. (= Nr. 394, 8$^{vo}$), Bæringsrímur, Grallara (= Nr. 396, 8$^{vo}$), Rímur af Flóres og Leó, Rímnakver (= Nr. 397, 8$^{vo}$), Rímnakver (= Nr. 403, 8$^{vo}$), Blöð (= Nr. 404, 8$^{vo}$), Bók (= Nr. 399, 8$^{vo}$), Bók á dönsku (= Nr. 400, 8$^{vo}$), Bók (= Nr. 406, 8$^{vo}$),

Bók um stríð, 2 skinnblöð, Sögubók, aðra sögubók, þriðju, fjórðu, Ævisögubók, Sögubók, Gátna- og Vísnabók, Rímnakver.

## № 615.

Kver í skinnkápu, ritað með tveim höndum, báðum fremur gamallegum, fljótaskript önnur og settaskript hin. Þar á eru: Ættartölur ýmsar, helzt merkisbænda í Öræfum. Síðari parturinn er líklega ritaður af sjálfseignarbónda Einari Ísleifssyni á Seljalandi, því að sumt er ritað á sendibrjef, sem eru til þess manns, og lætur það nærri, því að kverið hefir verið eign Jóns ættfræðings Sigurðssonar undir Eyjafjöllum, því að hann hefir skrifað inn í kverið á stöku stað og nokkur blöð aptan við.

## № 616.

Kver með ýmislegum ljóðum, sumt ritað af sira Sveini Níelssyni (?):

1. Epitaphium, grafskript á lat. yfir Sigurð Þórðarson, sýslumann í Skaptafellssýslu, eptir Svein Pálsson og erfiljóð þrenn eptir Svein og S. Einarsson.

2. Rustasneið («Farvel Leirgerður drambsöm drylla»). — Andsvar Leirgerðar («Sælir minn frægi sira Greppur»). — Andsvar («Mjer lízt hundsropi meira verður»). — Draumur («Mynd bar fyrir mig í nótt»). — Tveggja manna dómur í draumi («Sá jeg í draumi síðla alið»). — Nótur. — Úrbót («Ekki er það fallegt, Ísungs niður»).

3. Sumarvísur G. T. («Prýði meður sjest um sinn»). — Drykkjuvísur ejusdem («Ilmsætust ertu mín»). Fleiri vísur eptir sama.

4. Ýmsar vísur eptir G. Hákonarson.
5. Ýms kvæði eptir sira Jóhann Tómasson.
6. Kvæði og vísur eptir B. Halldórsson.
7. Vísur eptir Ögmund Sigurðsson.
8. Vísur eptir J. Th.
9. Vísur eptir G. Th.

10. Svensk sång («Med glädjen i hjärtet og glasset i hand»).

11. Fleiri kvæði og vísur, frumort og þýdd.

12. Sagan um Masúð Tyrkjakeisara og fleiri smásögur.

13. Stef yfir Sigríði Vigfússdóttur eptir H. Scheving.

14. Sonatorrek með latínskri þýðingu.

### № 617.

Safn af sögum kristilegs og siðferðislegs efnis, þýddum af Jóni lærða í Möðrufelli, og allt með hans hendi. Safnið er á 1169 blaðsíðum, 119 smásögur, og er registur aptan við yfir það allt. Safnið má nefna kristileg smárit.

### № 618.

Kver bundið. þar á er:

Sagan af Hálfdani kóngi gamla og sonum hans, skrifuð af Th. Gunnlaugssyni 1816. Aptan við stendur ritað af þórði Sveinbjörnssyni: «þessi saga er uppdiktuð af sýslumanni sál. J. Espólín, og heldu sumir hana í fyrstunni fornrit, en aðrir neituðu, þangað til hann sjálfur við gekk að hafa samið hana frá stofni».

### № 619.

Óbundið kver. þar á er:

Gullþóris eður þorskfirðinga saga, með athugasemdum Daða fróða og Jóns Borgfirðings hingað og þangað. Endirinn skrifaður af Jóni Borgfirðing, hitt með fljótaskript frá öndverðri öldinni.

### №. 620.

Bundin bók. þar á eru:

1. «Lygin forsvarar sig sjálf dáfallega», eptir þorleif Halldórsson, skólameistara á Hólum. Hefur Hallgrímur ritað ævisögu ágrip hans mjög stutt framan við. Ritgjörðin er 75 síður.

2. Discursus oppositivus, það er Disputation á móti lögréttunnar dómtitli, sem gengið hefur á lögþingi 1564 og nefndur er Stóri-dómur eptir Guðmund Andrjessson.

Framan við er «til lesarans» um höf. Skrifað allt af Hallgrími Jónssyni djákna.

## № 621.

Bók, er farin er upp úr bandi, spjaldalaus og fremur óheil. Þar á eru: Rímur af Sigurði þögla eptir Ólaf Jónsson og Jón Pálsson. Vantar fyrstu og framan af 2. rímu. 28 alls. Endaðar 1773. Skrifaðar með fallegri fljótaskript, líklega skömmu fyrir aldamótin.

## № 622.

Kver í skinnkápu; þar á eru rímur af Pólinstator og Möndulþvara («þögnin kvelur þanka minn»), 9 rímur. Höfundurinn bindur svo nafn sitt í málrúnum:

Elja rindar eggspor vals
Ymis heilaþunginn
Gýgjar hindar tauma tals
tjáist fæðir stunginn.
Vilmarlíu valskjálfstjald
valla hátt að líta,
sá hét nú er suðragjald
setti fyrir ýta.

Höf. kveður sig 260 mánaða (= $21^{2}/_{3}$ árs) gamlan og er líklega Eiríkur Laxdal. Skrifaðar 1852 af G. Guðnasyni.

## № 623.

Bók, bundin, nokkuð farin að losna upp úr bandi. Þar á eru:

1. Rímur af Völsungum o. s. frv. («Herjans bysti haukur minn») eptir Árna Böðvarsson. 36 alls. 267 síður, skrifaðar 1827 af H. Jónssyni. Bls. 265-6 vantar.
2. Búnaðarbálkur eptir Eggert Ólafsson.
3. Ísland eptir sama.

### № 624.

Bundið kver, er á eru: Eptirtektaverðar historíur og gömul orðtæki, samanskrifaðar út úr hjartapostillu Valerii Herbergeri. Ritaðar með fljótaskript á 17. öld.

### № 625.

Nokkur blöð, er ýmislegt smávegis er á, sumt á latínu, þar á meðal: um tímatal Rómverja; um tímatal Íslendinga að fornu; messudaganöfn úr almanakinu; vigt og mælir í biblíunni. Almennt mál; verðlag á hlutum; de metallis (um málma); þankar um «geistlig gavmildhed» (örlæti klerka); Cento (tötraklasi); um daginn o. fl.

### № 626.

Kver, er á er: Kort Udtog af Guldbergs Tidsbestemmelse for det nye Testamentes Böger.

### № 627.

2 þykkar bækur, óbundnar, en festar saman, um 1000 bls. alls. Það eru dagbækur Steingríms biskups Jónssonar, frá 1. jan. 1804—3. júní 1805 og frá 9. sept. 1824—20. maj 1825 (um vígsluferð hans til Hafnar). Merkilegar bækur, og er skaði, að fjelagið hefur ekki eignazt meira af dagbókum Steingríms en þetta.

### № 628.

Safn af ýmsum blöðum lausum og ósamkynja, með ýmsum höndum.

1. Vísur, kveðnar af Salbjörgu Helgadóttur 18 ára undir nafni margþjáðrar konu («Kvölda tekur dagur dvín»). Vel ortar. 24 er. alls. — Útlaginn og unnusta hans («Kveð jeg nú fagra fósturjörð») 13 er. — Erfiljóð eptir faktór Mattías Jónsson Mathiesen («Hryllir opt hug»), 6 er. — Brot af ljóðabrjefi nokkuru (vantar 10 fyrstu er.) frá «Sigurði». 31 er. alls. 11. er. byrjar svo: «Skipt um prýði orðið er».

2. Laus seðill, er á eru 4 gamanvísur («Syngur hver með sínum tón») og 5 lausavísur.

3. Líkræða yfir kóng Friðrik fimmta, haldin í drykkju-

skap, svo að presturinn, er hjelt hana, var af hæstarjetti dæmdur frá kjól og kalli. Á 4 síðum.

4. Sálmavess við ýms tækifæri og úr ýmsum ræðum; vantar $6^{1}/_{2}$ vess framan af; hvort nokkuð vanti aptan af verður eigi sjeð.

5. Litardauft laufblað, lagt yfir moldir hins framliðna þjóðmærings dannebrogsmanns Jóns Sigurðssonar («Eins eru sköp þau sem áður») eptir G. B. S. (= Guðmund Brandsson). Eiginhandarrit. 5 vess.

6. Nokkur ósamstæð er. brot.

7. Ævisaga Jóachim Nettelbachs, uppkast og brot.

8. Grafskript yfir Oddnýju Jónsdóttur eptir sira Jóhann Tómasson, með hendi Jóns Borgfirðings.

9. Eitt (fyrsta) blað af andlegri ræðu.

10. Kvæði nokkuð («Sá sem hafði (?) við hefur helft af hundrað árum»).

11. Brjefsuppkast frá Jóni Borgfirðing, J. Jónssyni og Frb. Steinssyni til sýslumanns um styrk, til þess að gefa út «Einkenni á mjólkurkúm».

12. Ævisaga sira Sveinbjarnar Hallgrímssonar, með hendi Jóns Borgfirðings. Uppkast.

13. Vinatregi («Hvaðan blíðast sólin sæla»). Með hendi sama.

14. Registur yfir prentaðra bóka safn Jóns Borgfirðings; með hans hendi.

15. Hellnasálmur eptir Latínu-Bjarna («Heyrið þið hvernig Hellnamenn»), 12 er.

16. Ræður eptir Mattías Jókkumsson.

17. Brúðhjónakvæði eptir Daða Níelsson, og með hans hendi. Innan í liggur nokkuð minnisblað Daða, með nokkrum erindum á.

## № 629.

Kvæðasafn óbundið, mest allt með hendi sira Einars Hálfdanarsonar á Kirkjubæjarklaustri.

1. Varia poemata (ýms kvæði) eptir sira Jón Guðmundsson.

2. Endir á kvæði nokkuru.

3. Kappakvæði eptir Guðm. Bergþórsson («Glæstur þjóti glettu byr»).

4. Fuglagáta («Eg sá fljúga»).

5. Skipafregn.

6. Heimsádeilukvæði eptir sira B. H. s. («Fyrir peninga aflinn er»).

7. Vísur Jóns vícelögmanns um ýmislegt.

8. Ýmsar lausavísur á latínu og íslenzku.

9. Dýravísur 1739 og fleiri smávísur eptir Stefán Ólafsson og Gísla Tómasson. — Önnur latínsk ljóð, þýdd á íslenzku, sum eptir Hóratíus.

10. «Hvert sinn á haf blá» eptir Stefán Ólafsson.

11. Bóndasæla eptir sira B. H. s. («Eg er einn bóndi bráklaus mann»); annað eptir sama um Hallgerði langbrók.

12. Nokkurar gamanvísur eptir Pál Vídalín, Stefán Ólafsson, Hallgrím Pjetursson, Jón vícelögmann Eyjólfsson, Björn á Skarðsá, Th. Ó. s., Þórð Magnússon, Halldór Jónsson á Staðarhrauni, Eirík Oddsson á Hólum, Bjarna Jónsson. — Vísur um Guðmund snikkara («Gvendur hjer um Hafnar stræti»). — Um Kolbein dverg. — Um fola. — Um tón o. fl.

13. Stázmeyjarkvæði sira Stefáns Ólafssonar.

14. Vísa sira Sigurðar Ketilssonar um Gunnar H. s. og vísur eptir Pál eða Þorlák Vídalín.

15. Háttalykill Þorláks Guðbrandssonar.

16. Vísur Jóns Bergmanns til Lauritz Skevings og hans kærustu.

17. Brot af ábótakvæði (?).

18. Brot af Hugdyllu.

19. Stockholms dobbelt bejammerlige Ve-Klage; á dönsku.

16. Mart á við mörgu eðr magri furstinn («Margur brúkar málsháttt þann»).

17. þess feitari kroppur þess magrari sál («Má því vesæll maður»).

18. Ljóðabrjef 2; í annað vantar.

19. Andleg ljóðmæli.

20. Sjöföld iðrunar andvarpan.

21. Kvæði («Kaupmann frá Kanaliska»).

22. Sálmar og vess.

23. Út af andlegrar bænarkeðju þeim 36. lið, um dauðann (lesmál), og margar bænir.

24. Ljóðmæli eptir sira Sigfús Jónsson.

## № 716.

Nokkur blöð: Complíment til ólærðra fríþenkjara, eptir Bjarna þórðarson á Siglunesi († 1842) hreppstjóra («Vinur ólærði vel er hent»). Með hendi Daða fróða. — Aptan við liggur Bænardiktur á morna.

## № 717.

Safn af ýmsum excerptis (útdráttum) úr hinu og þessu, flest guðfræðislegs efnis. — þar er og kvæði: «Frosta bát af fræða sundum» með viðkvæði. — Enn fremur ýms skjöl og reikningar.

## № 718.

Ritgjörð eptir biskup Harboe um guðsorðarbækur í Hólastipti og reformatíónina á Íslandi.

## № 719.

Prófasta og sóknarprestatal í Hólastipti, síðan um siðaskiptatímann og fram á árið 1842, eptir Daða fróða. Eiginhandarrit.

## № 720.

Andleg áminningarhugvekja eptir Jón Yngvaldsson, skrifuð að Hofteigi 6. dec. 1847. Eiginhandarrit.

## № 721.

Kort Udtog af Abraham Kalls almindelige Verdenshistorie. Á dönsku.

**№ 722.**

Almanak 1792 með innskotnum blöðum, er veðrátta er á rituð.

**№ 723.**

Orðasafn á latínu og íslenzku.

**№ 724.**

Kort udtog af O. H. Guldbergs naturlige theologi. Með sömu hendi sem Nr. 721.

**№ 725.**

Fimmtíu hugvekju og bænarsálmar ýmislegs efnis með viðbæti þriggja missiraskipta sálma, ortir af Hallgrími Jónssyni. Eiginhandarrit.

**№ 726.**

Vocabula latino-islandica sub varia, diversaque metrûm genera secundum islandicam poesin collecta, .... composita et conscripta a Jona Theodori Hvammi Laxardalensium et Ketæ Skagensium pastore Anno domini MDCXXIX. (þ. e. latínsk orð með íslenzkum þýðingum undir ýmsum íslenzkum bragarháttum eptir Jón þórðarson, prest að Hvammi og Ketu). þessi Jón þórðarson, er kallaður var siðamaður, var þar prestur 1652-89 (sjá Prestatal og prófasta bls. 157). Ártalið 1629 er sjálfsagt rangt. Jón var fæddur 1616 og 13 ára gat hann því ekki ort þetta. Eptir titlinum lítur og svo út, sem hann hafi verið orðinn prestur, þegar hann orti vísur þessar. Er l-i sleppt úr á eptir c?, svo að ártalið yrði 1679. — Stuðlafalls er. hljóðar t. a. m. svo:

*Arcus* bogi, *index* vísifingur
*unda* bára, *asser* fjöl
*incus* steðji, *lima* þjöl.

**№ 727.**

Latínskir stílar og fleira ómerkilegt.

**№ 728.**

«þær sundurlyndu reisusystur Lukkan og Dyggðin, eitt kvæðiskorn í 3 bókum, útdregið af hins þýdska August

Lafonteynes Róman, er hann kallar öðru nafni Hjartans eptirmynd, orkt árið 1818» af Níelsi Jónssyni skálda. Svefnþankar (1823). — Mannvinurinn (1825). — Nýr aldarháttur (1821). — Bachus og Naide (1820). — Ríma af einum enskum stúdent («Anza eg þanninn ykkur fljóð»). — Rímur af Freyvald nokkrum («Lítt þó stræti fræða finni»). 2 tals. Allt eptir Níels og með hans hendi.

№ 729.

Safn af almanökum bundnum í mjög þykka bók með innskotnum blöðum öllum uppteiknuðum. þessi almanök ná frá 1802 til 1842, og hafa víst öll verið eign sira Jóns Konráðssonar og uppteiknanirnar eptir hann.

№ 730.

Safn af almanökum 1796-1805 með innskotnum blöðum, fullum með ýmsum uppteiknunum, eptir sira Vigfús Björnsson á Garði í Kelduhverfi († 1808).

№ 731.

Stílæfingar og þýðingar á lat. og ísl., tvö hefti.

№ 732.

Tvær latínskar málfræðir önnur á lat. hin á íslenzku, og tvö almanök 1833 og 1865.

№ 733.

Tvær grískar málfræðir, báðar á latínu ritaðar.

# Viðbætir.

## Handrit fjelagsins hjá deildinni á Íslandi.

---

## B.[1])

### № 1.

Ljóða Edda eða Edda rhytmica Sæmundar hins fróða Sigfússonar, 156 bls. í 8 blaða broti. Skrifuð af Jóni bónda Níelssyni á Grænanesi († 1842).

---

[1]) Flokkurinn A., gjöf Guðmundar Einarssonar, er prentaður í eldri skýrslunni (1869). Þar eru vantaldar 2 sögubækur í 4to, er eiga inn í næst eptir Nr. 9, og eru í því merktar A. 9. a og A. 9. b.

A. 9. a

er í tveim hlutum.

Í fyrri hlutanum eru Laxdæla saga og Kormáks saga.

Í síðara hlutanum eru þessar sögur:

1. Þáttur af Agli Síðu-Hallssyni og Tófa Valgautssyni.
2. Þáttur af Þorsteini Síðu-Hallssyni.
3. Þáttur af Auðunni íslending.
4. Þáttur af Brandi hinum örva og Haraldi konungi.
5. Þáttur af Þorsteini fríða.
6. Þáttur af Þorvarði krákunef og Eysteini.
7. Þáttur af Stúfi Kattarsyni.
8. Þáttur af Sneglu-Halla.
9. Þáttur af Oddi Ófeigssyni.
10. Þáttur af Þorgrími Hallasyni, Kolgrími og Illuga íslending.
11. Þáttur af Hrafni hrútfirðing.
12. Þáttur af Hreiðari heimska.
13. Þáttur af Halldóri Snorrasyni.
14. Þáttur af Þorsteini forvitna.

## № 2.

Snorra Edda, með formála Guðmundar Andréssonar í 8 blaða broti. Sira Jón Hjaltalín á Breiðabólstað hefir átt bókina. Hann eignaðist hana í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd 1792, og hans hönd er á formálanum og fyrirsögninni. En hann hefir getið til, að sira Hallgrímur Pétursson hafi skrifað handritið.

## № 3.

Sálmasafn I, 668 bls. í 8 blaða broti. Morgun- og kvöldsálmar (vikusálmar) úr ýmsum bæklingum saman-

---

15. Þáttur af Þorsteini tjaldstæðing.
16. Draumvitran Þorsteins Þorvarðarsonar.
17. Bergbúa þáttur.
18. Sagan af Þorsteini hvíta.
19. Sagan af Þorgils örrabeinsfóstra.
20. Sagan af Hænsa-Þóri.
21. Sagan af Finnboga ramma.

A. 9. b.

1. Saga Eiríks rauða.
2. Saga af Fljótsdælum og Droplaugarsonum.
3. Þáttur af Þorsteini austfirzka.
4. Þáttur af Þóri hast og Bárði birtu.
5. Þáttur af Hálfdani konungi svarta og frá upphafi Haralds hárfagra.
6. Þáttur af Atla Ótryggssyni.
7. Þáttur af Ísleifi biskupi.
8. Ættartölubrot af gömlum skinnbókum.
9. Saga af Játvarði konungi hinum helga.
10. Saga af Huld.
11. Þáttur af Færeyingum úr Ólafs sögu hins helga.
12. Greinarkorn með dæmum um háa mannsaldra.
13. Frásaga sira Bjarna Stefánssonar um uppleitun Þórisdals.
14. Æfiágrip: a) Níu Skálholtsbiskupa frá Ísleifi til Sigurðar Þéttmarssonar. b) sex Hólabiskupa frá Jóni Ögmundssyni til Bótólfs.
15. Rímur af Skáld-Helga (»Forðum átti eg fræða brunn«), 7 að tölu.

tíndir af sira J. B. S. 1767. Með registri og höfundatali eptir Pál stúdent Pálsson.

№ 4.

Sálmasafn II, 203 bls. í 8 blaða broti. Krossskóla sálmar, eptir Jón Einarsson, rektor á Hólum, Krosskveðjur, Píslarsaltari o. fl. Með registri og höfundatali eptir Pál stúdent Pálsson.

№ 5.

Sálmasafn III, 145 bls. í 8 blaða broti. Þar eru í:
1. Genesis sálmar, eptir sira Jón Þorsteinsson.
2. Vikusálmar, eptir sira Jón Magnússon.

№ 6.

Kvæðasafn I í 8 blaða broti. Þar eru á:
1. Kvæði eptir Eggert Ólafsson, 265 bls.
2. Kvæði eptir sira Þorlák Þórarinsson, 95 bls.

№ 7.

Kvæðasafn II, eptir ýmsa, 198 bls. í 8 blaða broti. Aptan við eru rímur Eiríks víðförla eptir Guðmund Bergþórsson.

№ 8.

Kvæðasafn III, eptir ýmsa, í 8 blaða broti, 320 bls. Aptan við er í sundurlausu máli: «Eptirrétting» um eldgjósandi fjöll á Íslandi eptir Halldór Jakobsson.

№ 9.

Kvæðasafn IV, andlegs efnis, í 8 blaða broti, 406 bls. Aptan við er:

Nokkrar bænir.

Saga af Margrétu meyju.

Sjón Guðrúnar Brandsdóttur og J. N. Bruns Prædiken i Anledning af Collecten for Island með íslenzkri þýðingu.

№ 10.

Kvæðasafn í 8 blaða broti eptir Níels Jónsson skálda. Þar er á:
1. Kvæði um lukkuna og dyggðina.

2. Draumþankar.

3. Rímur af Eberharði, prinsinum af Vestfalen, eptir Guðbrand Einarsson.

№ 11.

Samtíningur um ýms náttúru undur og viðburði, í 8 blaða broti án blaðsíðutals. Aptan við er: Bréf Alexandri Magni ráðandi kringlu heimsins. — Nokkuð um borgirnar Tyrus og Jerusalem o. fl.

№ 12.

Kver í 8 blaða broti. þar er á:

1. Vitnisburðir úr Hólaskóla 1709 og 1727.
2. Glósur yfir fornyrði.
3. Tólf sona kvæði.

№ 13.

Veðrabók, 674 + 26 bls. í 8 blaða broti. Nær frá 20. apríl 1814 til 21. maí 1850. Samin og rituð af Ólafi Eyjólfssyni á Uppsölum í Öngulstaðahreppi. Aptan við veðurbók eptir annan um árið 1870.

№ 14.

Kver, 109 bls. í 4 blaða broti. þar er á:

1. Vita Arnae Magnaei conscripta per Jonam Olavium (Brachycolpium Islandum). Havniae Anno Domini MDCCLVIII, Mense Decembri.
2. Vita Johannis Magnaei fratris A. Magnaei.
3. Sektumanna lagareglur[1]).

---

[1]) þessi 14 bindi, sem nú hafa verið nefnd, standa einnig í fyrri skýrslunni (bls. 230-232), en með öðrum númerum, nefnilega sem 85, 86 og 88-99. En með því að bækurnar eru sjálfar auðkendar (merktar á kilinum) með tölunum (B) 1-14, og síðan haldið áfram eins og hér er gert, þótti ómissandi, að hafa það eins í hinni prentuðu skrá yfir þær; eru því þessi númer prentuð hér upp, auk þess, sem þeim er greinilegar lýst hér en þar var gert. það er með öðrum orðum: safn Guðmundar Einarssonar er haft í flokki sér A, og með númeratölu út af fyrir sig (nr. 1-84, sjá eldri skýrsluna bls. 225-230). Að því búnu byrjar nýr flokkur B (önnur handrit), og á þeirri nýju röð byrjar nú þessi skýrsla.

## № 15.

Sálmasafn IV í 8 blaða broti. Upprisusaltari Steins biskups Jónssonar, skrifaður af Sighvati Einarssyni 1806.

## № 16.

Sögusafn I, 94 bls. í folio, með hendi Magnúsar Jónssonar í Vigur? þar er á:

1. Sagan af Elis og Rósamundu.
2. Sagan af Beffus Gujonssyni og Josevæn.

## № 17.

Sögusafn II, 306 bls. í 4 blaða broti, með hendi Jóns Jónssonar á Gauksstöðum í Garði. þar er á:

1. Saga af Ásmundi Vilhjálmssyni og Valtara.
2. Saga af Heiðmari Heiðmarssyni og Farbata.
3. Saga af Addoniusi Syria konungi.
4. Ævintýri af Sigríði Eyjafjarðarsól.
5. Ævintýri af Sigríði á Munka-þverá.
6. Ævintýri af Sigríði á þingeyrum.
7. Náttúru afbrigði. Hafursgrið. Gátur.
8. Rímur af Libertín og Ölvi, eptir Gunnar Ólafsson.
9. Rímur af Jasoni bjarta, eptir Jón þorsteinsson.

## № 18.

Sögusafn III., 224 blss. í 4 blaða broti, með hendi Bjarna Björnssonar sumt. þar er á:

1. Saga af Samsoni fríða.
2. Saga af Trumbuslagara og Skrifara.
3. Saga af Hring og Tryggva.
4. Saga af þjalar-Jóni og Eiríki forvitna.
5. Saga af Nitiða hinni frægu.
6. Saga af Úlfari sterka (að eins upphafið).
7. Lukkunnar knattleikur, ævintýri.
8. Amúratis hringur.
9. Rímur af Ingvari Ölvissyni og þeim margfróðu köppum, Pretti og Parva, ásamt Capusi og Óttari.

№ 19.

Sögusafn IV, 510 bls. í 8 blaða broti með hendi Jóns í þrándarholti í Gnúpverjahrepp. þar er á:

1. Saga af þeim persisku keisurum.
2. Saga af Ynglingum.
3. Saga af Hálfdani svarta.
4. Saga af Sigurði turnara.
5. Saga af Hreiðari heimska.
6. Saga af Amboles konungi.
7. Saga af Bögu-Bósa.
8. Saga af Sigurgarði frækna.
9. Saga af Úlfi Uggasyni og Ariusi.
10. Samtal Salómons konungs og Markólfs.
11. Edda eða Gylfaginning, Bragaræður m. fl.

№ 20.

Sögusafn V, 204 bls., í 8 blaða broti. þar er á:

1. Saga af Appollonius konungi af Tyro.
2. Saga af Sigurði Bárðarsyni ganganda.
3. Saga af Partalopa.

№ 21.

Sögusafn VI, 228 bls., í 8 blaða broti. þar er á: Saga af Pippin konungi og Alexander keisara og sonum hans, Falentínusi og Airson.

№ 22.

Sögusafn VII, 71 bls., í 4 blaða broti, með hendi Bjarna Björnssonar. þar er á:

1. Saga af Ásmundi og Tryggva.
2. Saga af Haraldi Hringsbana.
3. Rímur af Ambrosio og Rósamunda.

№ 23.

Sögusafn VIII, 175 bls., í 4 blaða broti, með hendi Bjarna Björnssonar. þar er á:

1. Saga af Hjaranda hviðu og Vilmundi viðutan.
2. Saga af Úlfi Uggasyni og Ariusi.
3. Saga af Virgiliusi meistara.

4. Saga af Ásmundi víking.
5. Saga af Sigurði fót og Ásmundi Húna konungi.
6. Saga af Játmundi ljúfa.

## № 24.

Sögusafn IX, 90 blöð, í 4 blaða broti og 8 blaða broti, með hendi Bjarna Björnssonar. þar er á:

1. Saga af Sigurði Vilhjálmssyni turnara.
2. Saga af Friðbert og Kristólínu.
3. Saga af Drauma-Jóni.
4. Saga af Vilhjálmi sjóð (br.).
5. Saga af Polostor frækna.
6. Álaflekkssaga.
7. Skjal um Sauðeyjar-Árna.
8. Historia af Gyðingnum ganganda.
9. Ævintýri af keisaradóttur.
10. Ævintýri af Ívari þórólfssyni.
11. Gáta af hollenzkum.
12. Jannesar ríma.

## № 25.

Sögusafn X, 434 bls., í 8 blaða broti. þar er á:

1. Saga af Konráð keisarasyni.
2. Saga af Nikulási leikara.
3. Saga af Flores konungi og sonum hans.
4. Saga af Drauma-Jóni.
5. Saga af Amed kóngssyni og Paribana huldukonu.
6. Draumur Jóns þorgilssonar á Reynifelli 1769.
7. Tvö ævintýri.
8. Kvæði nokkur, forn og ný (Annáls kvæði, Agnesar kvæði, Búlands ríma, Selvogskirkju vísur sira Jóns Vestmanns, o. fl.).

## № 26.

Sögusafn XI, 522 bls., í 8 blaða broti, með hendi Gísla þormóðssonar á Lambastöðum og þórðar Jónssonar í Flagveltu. þar er á:

1. Saga af Makoni sterka.
2. Saga af Rauðólfi og sonum hans.
3. Saga af Konráði keisarasyni.
4. Saga af Sigurði þögla.
5. Saga af Hemingi Áslákssyni.
6. Saga af Jarlmanni og Hermanni.
7. Saga af Viktori og Bláusi.
8. Saga af Sturlaugi starfsama.
9. Ævintýri af Alikogia kaupmanni í Bagdað.
10. Frásaga frá Feneyjum.
11. Saga af jurtum nokkrum.
12. Ágrip um siðferði heiðingjanna í sjerhverjum mánuði og hvar af mánuðirnir hafa sitt nafn.
13. Kvæði fyrir minni landsyfirréttar-assessors Johnsens í Kaupmannahöfn 1848.
14. Formannavísur á Vatsleysuströnd.

## № 27.

Sögusafn XII, 312 bls., í 8 blaða broti, með hendi Bjarna Jónssonar. Þar er á:

1. Saga af Sigurgarði frækna.
2. Saga af Myrsamöndu og Önnu.
3. Saga af Cyrusi keisara.
4. Saga af Bæringi fagra.
5. Saga af Tyodel riddara.
6. Saga af einum rímmeistara.

## № 28.

Sögusafn XIII, 422 bls., í 8 blaða broti, með hendi Bjarna Jónssonar. Þar er á:

1. Saga af Polycarpus.
2. Saga af Parmesi loðinbirni.
3. Saga af Mírmanni.
4. Saga af Perisa kóngsdóttur.
5. Saga af Sigurði Bárðarsyni ganganda.
6. Málrúnir.
7. Bárðar ríma.

8. Rímur af Eiríki Bárðarsyni, eptir Guðmund Bergþórsson.

9. Rímur af Gríshildi góðu, eptir Magnús Jónsson á Laugum.

10. Rímur af Margrétu píslarvott.

№ 29.

Sögusafn XIV, 247 bls., í grallarabroti.

1. Saga af Flórusi og sonum hans.
2. Saga af Nikolási leikara.
3. Saga af Gibeon konungi.
4. Ágrip um staðinn Algier.
5. Byrons reisa um jörðina.
6. Lítið æviutýri.

№ 30.

Rímnasafn I, í 8 blaða broti. Þar er á:

1. Rímur af Úlfari sterka, eptir Þorlák og Árna.
2. Rímur af Agnari konungi Hróarssyni, eptir Árna Böðvarsson.
3. Rímur af Jökli Búasyni, eptir Sigurð Jónsson á Reykjum í Hrútafirði.

№ 31.

Rímnasafn II, í 8 blaða broti. Þar eru á:

Rímur af Amuratis konungi eptir Bjarna skálda Jónsson.

№ 32.

Rímnasafn III, 88 bls., í 8 blaða broti, með hendi Jóns á Lambhaga í Leirársveit. Þar eru á:

Rímur af Sigurði konungi og Smáfríði, eptir Magnús Jónsson á Laugum.

№ 33.

Rímnasafn IV, í 12 blaða broti, með eiginni hendi höfundarins, Eiríks Pálssonar (Skagfirðings). Þar eru á:

1. Rímur af frönskum fiskimanni eptir Eirík Pálsson, og
2. Ríma af einni konu (eptir sama?).

№ 34.

Rímnasafn V, 75 bls., í 8 blaða broti, með hendi Bjarna Björnssonar. þar eru á:

Rímur af Vegoli og köppum hans, eptir Gunnar Ólafsson í Selvogi.

№ 35.

Stúdenta tal á Íslandi 1743-1846, 48 blöð í folio, samið af Magnúsi stúdent Gíslasyni. Eiginhandarrit.

№ 36-37.

Henr. Buntingi Itinerarium sacrum, þ. e. ein reisubók yfir þá heilögu skript, 557 + 266 bls., í 4 blaða broti. Í tveim hlutum. I hlutur um gamla testamentið, II hlutur um nýja testamentið. Útlagt úr dönsku af Oddi biskupi Einarssyni.

№ 38.

Sögusafn XV, 85 + 90 bls., í 4 blaða broti, með hendi Halldórs Davíðssonar. þar er á:

1. Svarfdæla.
2. Reykdæla og Vígaskútu sögur.

№ 39.

Sögusafn XVI, 87 blöð í 8 blaða broti. þar er á: Laxdæla saga.

№ 40.

Lækningabók I, í 8 blaða broti. þar er á:

Henr. Smiðs þriðji urtagarður, þýddur á íslenzku af Vigfúsi Guðbrandssyni presti að Helgafelli († 1707).

№ 41.

Lækningabók II, í 8 blaða broti, skrifuð að Ögri í Ögursveit 1713, saman dregin úr eldri og yngri lækningabókum.

№ 42.

Lækningabók III, í 8 blaða broti, 66 blöð.

№ 43.

Kristilegar hugleiðingar á jólum, nýjári, páskum, hvítasunnu og engla hátíðinni, sjö fyrir hverja hátíð, 148

blöð í 8 blaða broti. Aptan við eru fimm sálmar og prédikanir B. biskups þorleifssonar á sumardaginn fyrsta og vetrardaginn fyrsta (pr. Hólum 1705-1706).

### № 44.

Sálmasafn V, 176 blöð í grallarabroti. þar eru á: Guðspjallasálmar sira Jóns Magnússonar í Laufási.

### № 45.

Andlegt kvæðasafn II, 147 blöð í 4 blaða broti. þar eru á kvæði og sálmar ortir af sira Ólafi Jónssyni á Söndum.

### № 46.

Sigismundi svevi vináttuspegill, útlagður af Sveini presti Símonarsyni, og hinn stutti Davíðs psaltari, samandreginn af Arngrími presti Jónssyni, 77 + 13 blöð í 8 blaða broti.

### № 47-48.

Um messusöngs- og sálmabókina nýju, í 4 blaða broti. þar eru á:

1. Antikritiskar athugasemdir við yfirskoðunar tilraun bókarinnar, gerða af sira Jóni Jónssyni í Möðrufelli, framvarpaðar af B. A. 1810, 79 bls.
2. Aðfinningar við messusöngsbókina, prentaða í Leirárgörðum 1801, frá árunum 1815-18; 43 bls.
3. Bréf konferentsráðs Magnúsar Stephensens til sira Jóns Jónssonar á Möðrufelli, dagsett 18. nóvember 1820, 57 blöð.
4. Svar sira Jóns upp á það bréf, dags. Möðrufelli 12. maí 1821, 69 blöð.

### № 49.

Rímna og sögusafn VI, 209 blöð í 4 blaða broti. þar er á:

1. Saga af Lychophrone og hans fylgjurum, 16 kap.
2. Saga af Sigurði þögla, 35 kap.
3. Saga af Sigurði turnara, 9 kap.

4. Rímur af Haraldi hringsbana eptir Árna Böðvarsson («Haukur óma hraði för»), 12 að tölu.

5. Rímur af Ásmundi víking eptir Gunnar Ólafsson («Svanur óma senn á flug»), 13 að tölu.

6. Rímur af Polenstator og Möndilþvara («Mig vill þrátt um minnisreit»), 9 að tölu.

7. Rímur af Ásmundi Húnakóngi og Sigurði fót («þundar læt eg þramma fley»), 5 að tölu.

8. Rímur af Bertram («Forðum hafa fróðir menn»), 5 að tölu.

9. Rímur af Theophilo og Crispino, eptir sira Eirík Bjarnason («Viðris haukur valla ör»), 2 að tölu.

№ 50.

Rímna og sögusafn VII, 392 bls. í 4 blaða broti, með hendi Gunnlaugs Guðmundssonar á Svarfhóli 1802. þar er á:

1. Ríma af Bárði í Jökli («Víða flýgur Vigners sprund»).

2. Veroniku-kvæði («Kveð eg um kvinnu eina»).

3. Rímur af Herrauði og Bósa, eptir Guðmund Bergþórsson («Berlings læt eg báru jór»), 15 talsins.

4. Rímur af Illuga Gríðarfóstra, eptir þormóð Eiríksson (?) («Skáldin hafa skilningsgóð»), 11 að tölu.

5. Ríma, kölluð Skrælingjaníð («Kjalars læt eg kólgufákinn renna»), sundurdeild í 7 flokka, af því hryggilega manndrápi, er villifólkið á Grænlands austursíðu, eður Skrælingjar, sem svo eru kallaðir, frömdu á kgl. Majst. skipsfólki, sem hjá þeim komst lifandi á land af Húsavíkur kaupskipi frá Íslandi árið 1760. Ort af Jóni Bjarnasyni, þá presti á Skarðsströnd og dedicerað prófasti sira Gunnari Pálssyni og sira Markúsi Snæbjarnarsyni í Flatey.

6. Prosopographia Kalalita Incolæ Grönlandiæ, þ. e. kviða eður útmálun núverandi Grænlands innbúa, er kalla sig Kalalit, samt þeirra uppruna, tungumál, landkosti, lífernisháttu etc., er gert hefir í móðurmáli sínu Hans

prestur Egede, og í latínskum versum er samantekin 1743 af sira Ólafi Lange, forðum kristniboðara á Grænlandi, síðar sóknarpresti til Úrskógs í Akurhúss stipti í Noregi, en í íslenzk ljóðmæli útsett 1757 af sira Jóni Bjarnasyni («Mér í huga lítil ljóð»).

7. Brynka-bragur («þegar kemur í kórinn inn»), 8 erindi.

8. Andra-rímur («Mér var raun að radda eik»), 13 að tölu.

9. Rímur af Sigurði turnara, eptir Magnús Magnússon á Magnússkógum («Kjalars rauðan kerastraum»), með hendi Gísla Konráðssonar; 6 að tölu.

10. Saga af Örvar-Oddi, 29 kap.

11. Fjarða-heiti á Íslandi.

**№ 51.**

Rímnasafn VIII, 244 bls., í 8 blaða broti, með hendi Ólafs Eyjólfssonar á Uppsölum í Eyjafirði. þar er á:

1. Rímur af Selico («Minn vill hefja muni»), ortar af Sigfúsi hreppstjóra Jónssyni 1822, 4 að tölu.

2. Rímur af Franz og Josephu («Upp skal ljúka sagnar sal»), ortar 1829 af Sigfúsi Jónssyni, 6 að tölu.

3. Rímur af Melissu («Fljúgðu Sigtýs fálki minn»), ortar 1830 af Sigfúsi Jónssyni, 5 að tölu.

4. Rímur af Luciu og Ísáru («Herja föðurs horna vín»), ortar 1830 af Sigfúsi Jónssyni, 7 að tölu.

**№ 52.**

Rímnasafn IX, 104 bls., í 12 blaða broti, með hendi Ólafs Eyjólfssonar. þar eru á:

Rímur af Feodor og Eufemiu («Hrærist tunga, hressist fjer»), ortar 1840 af Sigfúsi dbrm. Jónssyni, 7 að tölu.

**№ 53.**

Rímnasafn X, 87 bls., í 12 blaða broti, með hendi Ólafs Eyjólfssonar. þar eru á:

Rímur af Valvesi og Aðalheiði («Líttu til mín ljóða norn»), eptir Sigfús Jónsson, 7 að tölu.

## № 54.

Sálmasafn VI, 317 bls., í 8 blaða broti. Þar er á:

1. Viku-, morgun- og kvöld-sálmar út af bænabók Dr. Joh. Stegmanns («Guði sé lof, að nóttin dimm nú enduð er»), eptir sira Sigurð Jónsson í Presthólum; þar aptan við Hugvekja og andláts-bæn sira Sigurðar í Presthólum («Heyrðu, faðir, hátt eg kalla»).

2. Viku-, morgun- og kvöldsálmar Sigurðar skálds Gíslasonar («Guð gefi oss daginn góðan»).

3. Viku-kvöldsálmar eptir sama höfund («Guð gefi oss öllum góða nótt»).

4. Viku-kvöldsálmar Sigurðar Ásgeirssonar («Mildasti Jesú Maríu son).

5. Viku-kvöldsálmar sira Sigurðar Þórðarsonar á Brjámslæk («Sunnudags kvöld nú komið er»).

6. Viku-kvöldsálmar Þorvalds Magnússonar («Hæstur guð faðir himnum á»).

7. Viku-kvöldsálmar sira Ásmundar Jónssonar á Breiðabólstað («Ó þú himneski herra»).

8. Aðskiljanlegir kvöldsálmar, 22 að tölu, hinir sömu og í Florilegio sira J. B. (Sálmasafn I), nema fjórir, er svo byrja: «Dagur er kominn kvöldi að», 9 v., «Drottinn guð, sem ert dagur og ljós», 6 v., «Lifandi Jesú, lof sé þér», 14 v. og «Þér, Jesú, sé þökk og lof», 9 v. Aptast er «einn ágætur sálmur»: «Þú góði friðar faðir», 11 v.

## № 55.

Sálmasafn VII, í 8 blaða broti. Þar eru á:

Samuelis-sálmar ortir af sira Hallgrími Péturssyni, Sigurði Gíslasyni og sira Jóni Eyjólfssyni.

## № 56.

Sögusafn XVII, 223 bls., í 4 blaða broti, skrifað á öndverðri 19. öld. Þar er á:

1. Saga af Konráði keisarasyni, 10 kap.
2. Saga af Remundi keisarasyni, 50 kap.
3. Saga af Nikulási leikara, 20 kap.

4. Saga af Göngu-Hrólfi Sturlaugssyni, 25 kapit.

5. Saga af Sturlaugi Starfsama, 16 kapit.

6. Saga af Jarlmanni og Hermanni (vantar í), 20 kapit.

7. Saga af Mýrmanni, 21 kapit.

8. Saga af Nitidu frægu, 9 kapit.

9. Rímur af Jasoni bjarta, 8 að tölu (vantar framan við).

10. Stutt tíðaregistur á 6 blöðum frá Nóaflóði til nærverandi tíma.

### № 57.

Sögusafn XVIII, 168 bls., í 12 blaða broti. Þar er á:

1. Historia af Asnath Potipharsdóttur, kvinnu Jóseps Jakobssonar.

2. Historia af Pontio Pílato, um ætt hans, faðerni og fæðing, og hverninn hann í sínum ungdómi í hel sló sinn eiginn bróður.

### № 58.

Miscellanea (bók ýmisl. efnis). I. 226 bls., í 8 blaða broti. Þar er á:

1. Íslenzkt tímatal með ávísun um tunglsins kveiking og fylling af Vesturlands Chirurgo O. Hjaltalín, með viðbæti af útlenzkum Berliner-töflum, með hendi stud. theol. síðar biskups H. G. Thordersen og chir. O. H.

2. Nokkur (c. 60) rúna- og villileturs stafróf.

3. Alphabeta Hebræorum, Græcorum, Chaldæorum, etc.

4. Alphabeta telegraphicum et numeri.

5. Characteres in medicina et chymia usitati, úr J. Jacobi Woytz medicinske Schatz-cammer.

6. Ein lítil frásaga, er menn hafa til gamans í svörum meistara upp á spurningar discipuli (að tölu 68), er byrja þannig: «Discip. Hvar sat guð, þegar hann skapaði himin og jörð? M. Eg segi þér, hann sat á vængjum vindarins. Discip. Hver var fyrstur spámann?

M. Adam, hann mælti svo, þá er hann sá Evam: þetta er bein af mínum beinum og hold af mínu holdi, því skal hún kerling kallast, að hún er af karlmanni sköpuð».

7. Gamlar vísur um biblíulestur («Biblían er ei bóka sljó»), 7 að tölu. — Mánaðarvísa («Janúarí fyrstan árs má finna»). — Mánaðardagavísa («Ap, Jún, Sept, Nóv þrjátiger». — Tabula pythagorica (major & minor).

8. Um peningagjald í kúranti. — Tíund af lausa og fastgóssi, skatts-, gjaftolls-, lögmannstolls-, dýratolls-, bolatolls-gjald og um kúgildis leigu.

9. Ágrip um kvennavinnu og íslenzkan vefnað, gjaldavoð, tent- og salúns-brekan; fletju-, glit-, hringa- og einskeptuvefnað; um tilbúning á karla og kvennmanna þófum; um peisu-, sokka- og húfu-prjón etc.

10. Jólavess («Krists dagur kristna nú gleður menn»). — Annað jólavess («Heilög jól höldum í nafni Krists»). — Nýjársvess («Svo náðar-júbilár til enda»).

11. Lítil historia (af Margrétu meyju).

12. Vökuskemmtan (kvæði). («Vakir mesti, vænsti hirðir fríði»). — Kvæði ort 1814 («Órólegur er eg í geði mínu»). — Annað kvæði ort 1817 («Elsku sonur angrið þitt»). — Þriðja kvæði («Bið þú guð að gefa þér náð», með viðlagi: «Lærðu guðsorð litli Jón»).

## № 59.

Kver, 15 blöð í 12 blaða broti. Þar er á:

Viku-diarium (í samtali milli syndarans, Jesú og sálarinnar; vantar í 5 eða 6 blöð).

## № 60-61.

Bréfabók Sigurðar yngra Sigurðssonar landþingisskrifara frá 1743 + 1754, 689-486 bls., í 4 blaða broti. Tvö bindi með registrum.

## № 62.

Collegium philosophicum. Tom. VI. Í 4 blaða broti, mest allt með hendi Brynjólfs prests Sívertsens. Þar er á:

1. D. Hornemanns Forelæsninger over den naturlige Religion, 1791; 132 bls.

2. B. Risbrighs Theologia naturalis theoretica, scripta 1789, 70 bls.

3. Sammes Forelæsninger over samme 1792, 202 bls.

4. A. Gamborgs Naturrettens første Grundsætninger, forklarede i et af hans Collegiis 1793, 26 bls.

5. Sammes Forelæsninger over den philos. Moral 1792, 88 bls.

6. Clausens catechetiske Regler i et Foredrag 1793-94.

**№ 63.**

Bisk. Balles Collegium over Lærebogen i den evangeliske christelige Religion, holdt 1791; 660 bls., í 4 blaða broti, mest allt með hendi Brynjólfs prests Sívertsens.

**№ 64.**

Veraldarsaga hin forna (nær til c. 300 ár. f. Kr.) samantekin af Sveinbirni Egilssyni, adjunkt við Bessastaðaskóla, 315 bls., í 4 blaða broti.

**№ 65.**

Grammatica latina, 122 bls., í 4 blaða broti. — Etymologia, 1-58 bls. — Syntaxis, 59-122 bls.

**№ 66.**

Terentii Hecyra á íslenzku, 23 blöð, í 4 blaða broti.

**№ 67.**

Hómers Ilias 6.-14. og 19. bók, útlegging eptir Sveinbjörn Egilsson, (án blaðsíðutals), í 8 blaða broti.

**№ 68.**

Ágrip af náttúrusögunni, 121 bls., í 4 blaða broti. Þar er á:

1. Um fugla, bls. 1.
2. Um fiska, bls. 69.
3. Um hvali í Íslands og Grænlands höfum, bls. 74.

4. Um aðra sjófiska hina sérlegustu, bls. 81.
5. Um hina allra stærstu fiska, er menn séð hafa, bls. 89.
6. Um selakyn, bls. 94.
7. Um orma, bls. 96.
8. Um hin smærri kvikindi, bls. 109-121.

## № 69.

Nokkrar tilskipanir frá 1316 til 1776 (sumar prentaðar), 298 bls., í 4 blaða broti, skrifaðar 1748.

## № 70.

Calendarium perpetuum eður stöðugt almanak og ævarandi tímatal, eptir Ólaf Snóksdalín, 289 bls., í 8 blaða broti, aflöngu.

## № 71.

Rímnasafn XI, 103 + 111 bls., í 12 blaða broti. Þar er á:

1. Rímur af Vilhjálmi Vallner («Háleit sunna hækkar gang»), eptir Sigfús Jónsson, 6 að tölu.
2. Rímur af Súsönnu («Löngun kvæða í lyndi rís»), eptir sama höfund, 2 að tölu.
3. Rímur af Bjönku («Fagnar þundar fálki minn»), eptir sama höfund, 5 að tölu.

## № 72-78.

Náttúrufræðisrit, samanlesin úr ýmsum ritum fróðra manna, mest þó úr Fleischers náttúrusögu, af Jóni bónda Bjarnasyni í Þórormstungu, 7 bindi í 4 blaða broti. Eiginhandarrit.

I. bindi (Nr. 72) er ritgjörð um spendýr, 494 bls. auk formála XXVIII bls., rituð 1845.

1. Um manna kynferðið (inerme).
2. Um apakynið (quadrumana).
3. Um seinfæru dýrin (bradypoda).
4. Um brynjuðu dýrin (sclerodermata).
5. Um margkleyfu dýrin (belluæ).
6. Um klaufdýrin (bifurca).

7. Um hófdýrin (solidungula).
8. Um hramm- eða rifdýrin (feræ).

II. bindi (Nr. 73) er framhald sömu ritgjörðar 495-1041 bls. og er þar á:

9. Um nagdýrin (glires).
10. Um flögurdýr (chiroptera).
11. Um tvídýrin (palmata).
12. Um hvalfiska kynferði (cetacea).

Aptan við er registur yfir dýranöfnin í báðum bindunum og yfir myndir þær, sem eru í

III. bindi (Nr. 74), en í því eru 124 myndatöflur, er fylgja I. og II. bindi.

IV. bindi (Nr. 75) er ritgjörð um málma og steina, 88 + 268 bls., auk formála á 1 og registurs á 8 blöðum, skrifuð 1848.

V. bindi (Nr. 76) er ritgjörð um amphibíur eða skriðdýr, 300 bls., auk formála og registurs og enn fremur 11 myndatöflur. Þar með fylgir: Lítill viðbætir um fáein skorkvikindi, flest allt tekið úr Schous og Eschrichts náttúrufræðabókum, 144 bls., ásamt með 18 myndatöflum, skrifað 1849.

VI. og VII. bindi (Nr. 77-78) er safn af ýmislegum náttúruvísinda greinum, smásögum og viðburðum, samanteknum og útlesnum af fræðibókum og ferðabókum lærðra manna, 1458 bls., auk formála og registurs, og fylgja þar með 16 myndatöflur. Skrifað 1852.

## № 79-80.

Náttúrufræðisrit, rituð af Jóni Bjarnasyni í Þórormstungu í 2 bindum í 8 blaða broti.

I. bindi (Nr. 79) er ritgjörð um fiska, útlögð og útdregin af Fleischers náttúrusögu og fleiri náttúrufræðimanna ritum, 412 bls., auk formála, registurs og 38 + 8 myndatafla, skrifuð 1846.

II. bindi (Nr. 80) er ritgjörð um fugla, mest öll úr sömu fræðiritum, 528 bls., auk formála og registurs.

þar með fylgja 38 myndablöð í 8 blaða broti og 3 í folio; ritað 1847.

## № 81.

Smásögur og ævintýri af ýmsum tilburðum. Saman tínt og lesið út af nýrri og eldri ritgjörðum, prentuðum og skrifuðum, af Jóni Bjarnasyni, 386 bls., í 8 blaða broti. Eiginhandarrit, skrifað 1843.

## № 82.

Miscellanea, II (kver með ýmsu efni), samantínt og skrifað af Jóni Bjarnasyni, 360 bls., í 8 blaða broti. þar er á:

1. Um sólmerki.
2. Um plánetur.
3. Um complexionir 4ar.
4. Um steina, eðla og óeðla.
5. Um hvalakyn í Íslands höfum.
6. Um lækningar.
7. Um merkidaga eptir jólanótt.
8. Um óstundadaga.
9. Um tungldaga o. fl.
10. Brands-ríma.
11. Fjarstæður (Öfugmæli Bjarna skálda).
12. Guðspjallavísur.
13. Hugarfundur sira M. P.
14. Lilja Eysteins.
15. Máldagaríma.
16. Mannsæfirnar.
17. Plágur Gyðinga.
18. Plánetuvísur þorvalds Rögnvaldssonar.
19. Tóbaksvísur sira þorsteins Hallgrímssonar.

## № 83.

Miscellanea III (kver með ýmsu á), safnað og skrifað af sama, í 8 blaða broti. þar er á:

1. Nokkuð um dýra steina og gimsteina (ex mineralogia Walteri).

2. Sjö heimsins furðuverk.
3. Um hálfmálma.
4. Um ílátamæling eptir sira G. J.
5. Um jafnvægi búdrýginda eptir sira J. J.
6. Ráð við sauðfjárveiki, heyleiða kúa, lífsýki kálfa og hesta meiðsli.
7. Teikn til veðráttufars.
8. Danskylja (sira Þ. Þ.).
9. Gortara bragur («Í húsi einu heyrði eg»).
10. Málshættir nokkrir í 5 flokkum (vantar í).
11. Júpíters bragur («Ó, þú Venus, ástargyðja»).
12. Svefnþankar Níels Jónssonar o. fl.

### № 84.

Andlegt kvæðasafn III, 192 bls., í 8 blaða broti, með hendi Jóns Bjarnasonar. Þar er á:

1. Lilja Eysteins («Almáttugr guð allra stétta»), 100 erindi.
2. Gimsteinn («Heyr ilmandi hjartans yndi»), 165 vísuhelmingar.
3. Veroniku kvæði («Kveð eg um kvinnu eina»), 23 erindi.
4. Adams óður («Allra hlutanna er upphaf»), 35 erindi.
5. Tempran guðlegrar réttvísi eptir syndafallið, eptir sira Ó. E. («Það gjörðist í himna hæðum»), 123 erindi.
6. Sálmur um síðasta dóm («Nær mannsins son mun koma»), 10 erindi.
7. Sálmur út af fræðunum («Elska guð ei skalt sverja»), 7 erindi.
8. Vikukvæði («Sunnudagurinn sá er fyrstur»), 8 erindi.

### № 85.

Útskýring yfir opinberun postulans St. Jóhannis, út dregin og rituð af Jóni Bjarnasyni 1847 af danskri ritgjörð, eignaðri Jóni sýslumanni Espólín, sem kallast Forsög

til et Bidrag til forstandig Forklaring over Aabenbaringen, 166 + XIV bls., í 8 blaða broti.

№ 86.

Postulasögur, 409 bls., í 8 blaða broti, skrifaðar af Jóni Bjarnasyni, ásamt viðbæti, líka með hans hendi og er þar á:

1. Um Júdas iskaríot.
2. Um postulana og St. Pál.
3. Jerúsalems musteris bygging.
4. Veroniku bílæti.
5. Um Nazareth.
6. Um Bethlehem.
7. Um Pennapolis.
8. Um Nestors villulærdóm.
9. Um Emaus.
10. Um Kristí gröf.
11. Kirkjubygging í Konstantínopel.

№ 87.

Orðabók dönsk-íslenzk, með sömu hendi, 208 bls., í 8 blaða broti.

№ 88.

Kver, með sömu hendi, 190 bls., í 12 blaða broti. Þar er á:

1. Nokkrar latínskar glósur þýddar á íslenzku.

2. Nokkur íslenzk fiska, fugla og jurta nöfn, með latínskri þýðingu.

3. Jurtanna flokka skipun.

№ 89.

Eitt lítið einvígi millum sannleikans og lyginnar, orsakað út af ónefnds ritara lastmælum gegn efni smáritanna frá því evangeliska félagi, 172 bls., í 8 blaða broti, með hendi Hallgríms djákna Jónssonar.

№ 90.

Sálmasafn VIII, 173 bls., í 8 blaða broti. Þar er á:

1. Thomæ Kingós andlegs söngkórs 2. partur, útlagður af sira Árna þorvarðssyni («Hátt upp með himinsöngum»).

2. Dr. Stegmanns morgun- og kvöldbænir, snúnar í söngvísur af sira Sigurði Jónssyni í Presthólum («Guði sé lof, að nóttin dimm nú enduð er»).

3. Morgunsálmur sira Árna þorvarðssonar («Christe höfund míns hjálpræðis»), 4 er.

4. Bænar sálmur («Allt mitt ráð til guðs eg set»), 5 er.

5. Lofsöngur þeirra þriggja manna í eldinum («þeir þrír menn sátu í eldsins ón»), 6 er.

6. Lofgjörðar sálmur («Skyldug er skepnan hver»), 9 er.

## № 91.

Rímna og sögu safn XII, 372 bls., í 4 blaða broti. þar er á:

1. Rímur af Herrauði og Bósa («Berlings læt eg báru jór»), eptir Guðmund Bergþórsson, 15 að tölu.

2. Rímur af Otúel («Fjölnis læt eg flæða gamm»), eptir sama, 8 að tölu.

3. Messudiktur eptir M. P. («Eðlamaður einn var sá»), 69 erindi.

4. Hallmundar kviða («Hrynr af heiða fenri»), 12 er. með skýringum.

5. Kvæði um Helenu, móður Konstantini mikla («Konstantínus keisari forðum»), 28 vísuhelmingar.

6. Kvæði um tóu og hana («Tóa tölti um stræti»), 28 er.

7. Saga af Cyrusi keisara.

8. Saga af Agli einhenda og Ásmundi berserkjabana.

9. Ævintýri af Jónatas.

10. Ævintýri af einum presti í þýzkalandi, Doctesemus að nafni.

11. Ævintýr af Set Adamssyni.

12. Málsgreinir nokkrar um það, hvaðan Edda hafi sitt heiti, svo og um rúnir og ristingar að fornu eptir Björn á Skarðsá, 19 kapit., skrifað 1642.

13. Sendibréf Alexandri M., hið síðasta til Aristoteles.

14. Smásögur nokkrar og æviníýri um sitt hvað.

## № 92.

Historíubók Philippi Camerarii um ofsóknir kristninnar (á ýmsum öldum), — eyðilegging staðarins í Constantinopel, — Kóng Lúðvík í Hungararíki o. fl. —, 276 bls., í 4 blaða broti, með 24 myndum, útlögð og skrifuð 1747 af Snæbirni Hallssyni.

## № 93.

Nicolai Helvæderi Calendarium historicum eða kirkjurím ásamt ágripum:

1. Um þeirra heilögu postula lifnað, lærdóm og endalykt.
2. Um útbreiðslu evangelii um allan kristindóminn.
3. Um afdrif þeirra, sem ofsótt hafa guðs kristni, allt útlagt úr latínu og dönsku af sira Jóni Ormssyni (presti að Kvennabrekku?) ár 1643, 95 bls., í 4 blaða broti.

Aptan við er:

Morðbréfabæklingur hinn þriðji og síðasti, ritaður 1608 af Guðbrandi biskupi þorlákssyni, 96-129 bls.

## № 94-95.

Ephemerides eða Dagbækur, A og B, Jóns Jónssonar eldra, prests í Gundarþingum um árin 1747-1773 (á latínu fyrir árin 1748-1756, á íslenzku fyrir árin 1757-1773), í 8 blaða broti.

## № 96-99.

Ephemerides eða Dagbækur A-D Jóns Jónssonar yngra, prests í Grundarþingum, um árin 1785-1846, 1345 bls., í 4 blaða broti (glósnabroti).

## № 100.

Dagbækur um árin 1800-1823, í 4 blaða broti (glósnabroti).

## № 101.

Miscellanea fol. I, 314 bls. Aktstykker vedkommende den islandske Frihandel:

1. Project til nogle Grundartikler for en Frihandel i Island, með hendi Skúla landfógeta Magnússonar.

2. Beregning over de af Kongen det islandske Interessentskab forstrakte 14000 Rd., underskr. 19. Juni 1766 af Sk. Magnusen.

3. Plan til en Frihandel paa Island, dat. 20. April 1767.

4. Noget lidet, af saa meget, til nærmere Betænkning, ved den fra 1783 til 1810 Aars Udgang forfattende isl. Handelsforordning, með hendi Skúla Magnússonar.

5. Allerunderd. Forestilling til Plac. 18. Aug. 1786 om Frigivelse af den islandske Handel, dat. 8. s. m.

6. Landfoged Sk. Magnussens Betænkning ang. Islands Forsyning med Korn og andre Nödvendighedsvarer, dat. 8. Mai 1793.

7. Afskrift af Amtm. O. Stephensens Skrivelse til Kammerherre Levetzow, ang. den nye frie Handel i Island, dat. 24. Marts 1787.

8. Stiftamtm. Levetzows Skriv. til Assistent Clemensen ang. Erhvervelse hos Landfogden — paa Kjøbm. Sunkenbergs Vegne — af et Borgerbrev som Handlende i Reykevig, dat. 17. Nov. 1787.

9. Fortegnelse over de 1788 med 28 Skibe fra Danmark, Norge og Holsten indförte Handelsvarer paa Bosand, Kjeflevig, Havnefjord og Reykevig Havne i Guldbringe Syssel, underskr. Vidöe 27. Jan. 1789 af Sk. Magnusen.

## № 102.

Miscellanea fol. II, 258 bls. þar er á:

1. Skipapóstar í Gullbringusýslu samanteknir af Jóni sýslumanni Eyjólfssyni 1694 og samþyktir af lögmönnum 19. júní 1695.

2. a) Kaupbréf fyrir 15 hundr. í jörðinni Kalastöðum dags. 17. júlí 1740.

b) Makaskipti á 4 hundr. í sömu jörð fyrir Sleggjulæk og Sigmundarstaði 27. jan. 1749.

3. a) Kaupbréf fyrir Reykhólum, dags. 24. nóv. 1749.

b) Extract af Reykhóla kirkju vísitazíum frá 1783-1799 og af portions reikningum hennar 1812-1825.

4. Skipti Boga Benediktsens á hans eptirlátnum fasteignum milli erfingja sinna, dags. Hrappsey 10. maí 1794.

5. Anatomia Synodal-eragtningarinnar, er gjörðist að þingvöllum 12. júlí 1764 um extra-embættislaun presta (rituð af Magnúsi amtmanni Gíslasyni til varnar úrskurðinum).

6. Concept-Udtog af de fornemste Beslutninger i Bispestole Commissionen 1784.

7. Om Fiske-Landskylds Afbetalinger i Guldbringe Syssel, samt Qvilde-Lejer og Mands-Laan, dags. 27. febr. 1799, með hendi Skúla landfógeta.

8. Memorial — til höjere Eftertanke — om de islandske Afgifters Pris og Beregning, samt Qvader, Quildelejer og Mandslaan, saakaldet «Köll», dat. Vidöe 25. Aug. 1787.

9. Forslag til Fordobling af Landets aarlige Afgift imod den forrige eller nærværende, dat. Vidöe 14. Febr. 1793.

10. Svar þeim gefið sem eptirspurði = Athugasemdir við nokkrar greinir í «Sauðfjárhirðing» Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, gjört af Skúla landfógeta Magnússyni.

11. Promemoria (Björns lögmanns Markússonar) om Qvilder, Qvader og Mandslaan, dags. 1787 (vantar aptan við).

12. Promemoria (Markúsar stiptprófasts Markússonar) om Mandslaan.

13. Promemoria (Ólafs stiptamtmanns Stefánssonar og Hannesar biskups Finnssonar) um sama, dags. 20. febr. 1788.

14. a) Specification over Afgifter af de kongel. og övrige Jordegodser i Island fra Jordebog 1760.

b) Extract af Sk. M. General-Jordebog, 1759, om Jordegods-Afgifter, Beboeres Antal, m. m.

15. Umburðarbréf Stiptamtm. Levetzow til innbúanna í Borgarfjarðar, Gullbringu, Rangárvalla og Vestmanneyja sýslum innihaldandi hvöt til landvarnar gegn útlendum ófriði, er upp á kynni að koma, og bjóðandi hverjum, er til varnar treystist, að teikna nafn sitt á bréfið, ásamt þeirri verju, er hann hygði fyrir sig að bera. Bréfin dags. frá 15. okt. til 24. nóv. 1788.

16. a) Kaupgjörningur milli Björns Gottskálkssonar og Magn. lögm. Stephensen, hvar með hinn fyrrnefndi, sem eigandi prentverksins í Leirárgörðum, afsalar sér það til eignar og afnota Íslands vísindastiptun, dags. 1. sept. 1798.

b) Samningr milli justitiarius Magn. Stephensen sem forstöðumanns Íslands vísindastiptunar og faktors G. Schagfjörðs um laun hans og verk við prentverk, dags. í jan. 1802.

17. a) Conferentsr. M. Stephensens Skrivelse til Stiftsövrigheden ang. hans Tilbud i Mindelighed at afgjöre det forrige Landsoplysnings Selskabs Tilgodehavende hos ham ifølge hans for Bestyrelse af Selskabets Bogtrykkeri m. m. til 1. Nov. 1831 aflagte Regnskab, dat. Vidöe Kl. 23. Febr. 1832.

b) Stiftsövrighedens Svarskrivelse, dat. 25. Febr. 1832, hvormed Conferentsraadens gjorte Tilbud antoges.

18. Ágrip um ökonomisk-medicinskra plantna verkun og meðferð, samið af héraðslækni Oddi Hjaltalín.

19. Tavler over Sysselernes Indtægter 1753. — Udvægter til Mands- og Kvinde-personer. — Species ber. til Courant. — Betaling af Bestillingsgods, med Tillæg af 28 %. — Forskjel i mellem I Hundr. Alen betalt i Landskyld med Faar ber. c. 5 rd. 60 sk. Courant imod efter ny og gl. Taxt. — Slagtekvæg. — Uld, Tran. — Smør- og Fiske-Priser. — Fisk og Vætt reduceret til Courant efter Resol. 29. Juli 1779. — Den islandske Tiende. — Procento-Skat c. 2-10 %. Með hendi Skúla Magnússonar landfógeta.

20. Fortegnelse over civile Embeder samt Ombuds- og Klosterforpagtninger i Island.

## № 103.

Miscellanea í 4to I, 380 bls. (Bók með ýmsu á). Þar er á:

1. Þingfararbálkur Þorsteins sýslumanns Magnússonar.

2. Stutt undirrétting um tíundir af dómkirknanna, klaustranna og annara kirkna jörðum. (Sira Vigfús Jónsson í Hítardal í bréfi til Ólafs biskups Gíslasonar).

3. Um tíundargjörð (Finnur bisk. Jónsson).

4. Um tíund, ritað af Jóni prófasti Ormssyni í Sauðlauksdal.

5. Um leigukúgildi (ritað af Finni bisk. Jónssyni).

6. De paritate graduum eptir Lev. 18 og For. 27/12 1770 og 3/4 1771 (sira G(unnar) P(álsson) og sira B(jörn) H(alldórsson)).

7. Um kúgildi yfir höfuð, en sér í lagi þau, sem fallið hafa í fjárpestinni.

8. Nogle Tanker om Faaresygen (Finnur bisk.?).

9. Um arfatökur (M(agnús) J(ónsson)).

10. Samþyktir matstofnunar félags í Fljótsdal, dags. Valþjófsstað 2/6 1800.

11. Registur yfir nokkrar tilskipanir konungs og kollegíalbréf m. fl. frá 7. des. 1771 til 5. maí 1810.

12. Registur yfir Fororðningabók í fol. frá 1450 (langa Rb.) til 27/5 1746 (for. um hospit. á Ísl.).

13. Ritgjörð um reglu hreppstjóra við ráðstöfun sveitarómaga og jöfnun þeirra forlagseyris.

14. Lögfestur, máldagar og landamerki jarða (í Landmannahrepp og á Rangárvöllum). — Dómsflutning í landaþrætumáli (milli Merkur og Leirubakka). — Skipti á túnum (milli bændanna á Galtalæk). — Forlíkun um afrétt Rangárvalla eystri og ytri. — þingboðsseðill um þá tilskipuðu jarðamatsnefnd dags. 4. júlí 1803.

15. a) Jarðabók fyrir Vestmannaeyjar 1695.

b) Jarðabók yfir Rangárvallasýslu s. á. með viðteiknuðum þáverandi eigendum jarðanna.

c) Jarðabók yfir bændagóz í Árnessýslu s. á. með viðteiknuðum eigendum.

## № 104.

Miscellanea II, 4to, 380 bls. (Bók með ýmsu á). þar er á:

1. Registur yfir manuscripta sál. bisk. H. Finnssonar.

2. Registur yfir handrit nokkur; ei greint hverjum tilheyrandi, með hjá settu verði.

3. Athugasemdir við eitthvert compendium grammaticale, sem ná til blaðsíðu 208, með hendi Hannesar bisk.

4. Æfiágrip Hannesar bisk. á dönsku, dags. 11. maí 1777.

5. Registur yfir ljóðabók þá, er ekkja sira Einars á Meðalfelli gaf bókmentafélaginu, með hendi Árna bisk. Helgasonar.

6. Specification yfir prentaðar bækur og blöð í prentverki hinnar ísl. vísinda stiptunar frá 1795-1827.

7. Skýrsla um foreldra og börn Skúla landf. Magnússonar.

8. Skýrsla um afmælisdaga Bjarna klausturhaldara Halldórssonar í Sviðholti og barna hans.

9. a) Skýrsla um kartöplu afla, mjólk og smjör í Viðey á árunum 1781-82, með hendi Skúla landfógeta.

b) Antegnelse over Folke-, Fæ- samt Baade-Tal paa Vidöe Kloster 15. Aug. 1828.

10. Gunnari Pauli Strictim observata et attentata in Björnes Historiam heroum et pugilum Stockh. 1737 editam.

11. Nauðsynleg bending til níðskálda, frá Magn. Stephensen.

12. Bréf Rasks, dags. Rvík 28/2 1815, um stofnun bókmentafélagsins.

13. a) Visitatia Hofs kirkju á Höfðaströnd, af Einari bisk. þorsteinssyni 1693.

b) Visitatia sömu kirkju eptir sama 1699.

c) Visitatia Reykhóla kirkju af héraðspróf. Böðvari þorvaldssyni 1824.

d) Úttektargjörð jarðarinnar Forsæludals 16. júni 1806.

e) Úttektargjörð sömu jarðar 25. júní 1823.

14. a) Registur yfir öll prestaköll og þeirra tekjur í Skálholts stipti 1706 og 1709.

b) Specificationer over alle Prestekalde og deres Revenuer udi Skalholt-Stift, Annis 1736, 1737, 1706, 1709, 1689.

15. Overslag over et af de gode isl. Prestekaldes mulige Indtægter og Udgifter. Prestegaarden ansat til 26 Hundr. Dyrhed.

16. a) Hirðstjóra, amtmanna og lögmanna tal á Íslandi. Brot. (Lögmanna talið nær að eins til 1301.)

b) Registur allra lögmanna á Íslandi, nær til 1788.

17. a) Fátt eitt um eldgosið í Kötlugjá 1823 eptir Svein Pálsson.

b) Um eldgosið í Eyjafjallajökli 1822-23 eptir ýmsa í «Dagen» og «Danske Statstidende».

c) Um Heklugosið 1693 á latínu.

18. Ræðukorn á kjörþingi Reykvíkinga 28. sept. 1844.

## № 105.

Bók með ýmsu á, 184 bls., í 4 blaða broti (glósna broti). Þar er á:

1. a) Orðasamtíningr með latínskri þýðingu úr Hungurvöku, Kristnisögu, Gunnlaugs sögu ormstungu o.fl.

b) Annar orðasamtíningr með latínskri þýðingu (nær fram í F).

c) Þriðji orðasamtíningr án þýðinga.

2. Sakatal lögbókar og nokkrar lagagreinir stuttlega samanteknar úr íslenzkum bókum, svo og nokkuð lítið til minnis, úr Norsku lögum, recessum, réttarbótum, konungsbréfum, dómum og alþingissamþyktum. Skrifað í Gegnishólum 1710 af Markúsi Bergssyni. (Vantar aptan við).

3. Brot af guðfræðislegum ritlingum.

a) Skýring «faðir-vors» og ýmsar bænir.

b) Kafli úr einhverri trúarfræðisbók, er skipt er í greinar, nær frá 15. gr. til 35. greinar og sýnist þar vera endirinn.

c) Skrifta og altarisgöngu bæklingr (að eins upphafið).

## № 106-107.

Ritgjörðir um messusöngsbókina. I. hluti, 138 bls., í 4 blaða broti og er þar á:

Lítilfjörleg tilraun til yfirskoðunar þeirrar nýju íslenzku messusöngs og sálmabókar, eptir því með smærra stíl prentaða exemplari, gjörð af Jóni Jónssyni, presti til Grundar og Möðruvalla í Eyjafirði. Aptan við eru tvö bréf til sira Jóns, annað frá sira Jóni Þorlákssyni, hitt frá Páli lögsagnara Benediktssyni.

II. hluti, 319 bls., í 4 blaða broti. Þar er á:

1. Antikritiskar athugasemdir við hið sérlegasta í yfirskoðunar tilraun þeirrar nýju íslenzku messusöngs og

